


# Verið jafnan á verði gegn djöflinum eldi er aldrei sefur

*ÁGÆTUR ÞJÓNN — ILLUR HÚSBÓNDI*

er tortýmt hefir mörgum mannslífum og um $2,500,000 í eignum árlega í Manitobafylki einu.

Verið varasamir með tóbaksreykingar og alla aðra eldhættu.

*Hver og einn getur gert Manitoba trygt gegn eldi, með því að standa á verði gegn eldhættunni.*

---

# Bílstjórar!!

Vetrarakstur á snjó og ís tvöfaldar hættuna og dregur úr stöðvunarkrafti bílsins.

## Haldið framglerinu hreinu!

Að aka blindandi er að aka í spítalann.
Að ganga í blindni gjörir og hið sama.

BÍLSTJÓRAR: hafið gætur á gangandi fólki.

GANGANDI FÓLK: gætið yðar fyrir bílunum.

## Nálgist gatnamót með gætni!

Verið við því búnir að stanza áður en þér komið að þeim.

AÐGÆZLAN er nauðsynleg, KURTEISIN æskileg,
KUNNÁTTAN fyrir öllu
VIÐ VETRAR AKSTUR

Prepared by Accident Prevention Branch
Bureau of Labor, í umboði

*HON. W. J. MAJOR* *og* *HON. W. R. CLUBB*
*Dómsmálaráðherra* *Verkamálaráðherra.*

# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

### XVII. Árgangur

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra er þetta land byggja.

Hver einasti Íslendingur í þessu landi ætti að vera í félaginu. Ársgjald fyrir fullorðna er $1.00, unglinga frá 10 til 18 ára, 25 cent, börn innan 10 ára aldurs, 10 cent. Hver skilvís félagsmaður, er greiðir $1.00 tillag, fær tímarit félagsins ókeypis.

Markmið félagsins er, að vinna að framförum og samheldni meðal Íslendinga hér í álfu, og hjálpa til þess, að unglingum gefist kostur á að læra íslenzku, eftir því sem ástæður foreldranna kunna að leyfa.

Aðrar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin," og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist "Fjármálaritara," en áskriftargjald að Tímaritinu "Skjalaverði."

*Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi*
Winnipeg, Manitoba.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1934-35

*A. Heiðursfélagar:*

Próf. Árni Pálsson,
Reykjavík, Ísland
Einar H. Kvaran, rith.,
Reykjavík, Ísland
Jóhannes Jósefsson,
Reykjavík, Ísland
Próf. Sigurður Nordal,
Reykjavík, Ísland
Séra Ragnar E. Kvaran
Skrifstofustjóri,
Reykjavík, Ísland
J. Magnús Bjarnason, rith.,
Elfros, Sask.
Próf. Halldór Hermannsson,
Ithaca, N.Y., U.S.A.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson,
New York, N.Y., U.S.A.
Hr. Friðr. Swanson, málari,
Winnipeg, Man.
Próf. F. S. Cawley, Ph.D.
Harvard University,
Cambridge, Mass., U.S.A.
Dr. Henry Goddard Leach
New York, N.Y., U.S.A.
Próf. C. V. Pilcher, D.D.
Toronto, Ont.
Próf. Watson Kirkconnell
Wesley College,
Winnipeg, Man.

*B. Æfifélagar:*

Þorgils Þorgeirsson,
Winnipeg, Man.

*C. Ársfélagar:*

1. ÍSLAND

Einar Gunnlaugsson,
Stóra Sandfell,
Skriðdal um Reiðarfj.
Björg E. Johnson,
Reykjavík
Jónas Thordarson
Akureyri
Jónas Jónasson,
Reykjavík
Mrs. Jónas Jónasson
Reykjavík
Julius Jónsson,
Reykjavík
Halldóra Sigurjónsson,
Reykjavík
Séra Benjam. Kristjánsson,
Syðra Langalandi,
Eyjafjarðarsýsla
Séra Friðrik A. Friðriksson
Húsavík, S. Þing.sýsla
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rith.
Reykjavík, Ísland

2. CANADA

*Alameda, Sask.*

Hjörtur Bergsteinsson

*Antler, Sask.*

Guðmundur Davíðsson
Bergvin Johnson

*Árborg, Man.*

Björn Árnason
P. K. Bjarnason
Dr. S. E. Björnsson
Gerða Christopherson
Lúther A. Christopherson
G. O. Einarsson
Finnbogi Finnbogason
Tryggvi Ingjaldson
Böðvar H. Jakobsson
Eiríkur Jóhannsson
Marteinn M. Jónasson
B. J. Lífmann

Guðmundur Ó. Magnússon
Margrét G. Magnússon
Mrs. Sesselja Oddsson
Séra Sigurður Ólafsson
Magnús Sigurðsson
Gunnar Sæmundson

*Arnes, Man.*
Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Jónsson
Ólafur Jónasson
Jónas Ólafsson

*Baldur, Man.*
Sigurður Antoníusson
Björgúlfur Sveinsson

*Bifröst, Man.*
Hallur F. Þorvarðsson

*Beresford, Man.*
Thorsteinn Thorsteinsson

*Calgary, Alta.*
G. S. Grímsson
Sigurður Sigurðsson

*Cypress River, Man.*
Jón Th. Johnson
Magnús Nordal
M. J. Nordal
Sigurður Pétursson

*Elfros, Sask.*
Mrs. J. Magnús Bjarnason

*Eriksdale, Man.*
S. D. B. Stephanson

*Geysir, Man.*
Þórður Anderson
Einar Benjamínsson
Miss Margrét Bjarnason
Björn Bjarnason
Jónas Björnsson
Tímóteus Böðvarsson
Mrs. J. Böðvarsson
G. O. Gíslason
G. J. Magnússon
Gunnl. K. Oddson
Vilhjálmur Oddson
Friðfinnur Sigurðsson
J. G. Skúlason
Jón Skúlason

*Gimli, Man.*
Mrs. Christiana O. L. Chiswell,
Guðmundur Fjeldsted
Freeman Freemansson
Jón Guðmundsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
Elías Jóhannsson
Björn H. Jónsson
Lestrarfélagið "Gimli"

Mrs. Kristín Schram
Sigurður Sigurðsson
Séra Jóh. P. Sólmundsson
Thórður Thórðarson
Guðni Thorsteinsson
Hjálmur Thorsteinsson

*Glenboro, Man.*
Páll Anderson
Sigmar Bjarnason
Miss R. J. Davíðsson
Séra Egill H. Fáfnis
F. S. Frederickson
Guðbjörg Goodman
Jón Helgason
Hans Jónsson
Stefán Johnson
Stefán S. Johnson
G. Lambertsen
B. B. Mýrdal
Tryggvi Ólafsson
G. J. Oleson
J. K. Sigurðsson
Ingi Swanson

*Hayland, Man.*
Hávarður Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Geirfinnur Pétursson

*Hecla, Man.*
Finnur Bjarnason

*Hnausa, Man.*
Gunnar Helgason
Jón B. Snæfeld
Gestur S. Vidal
Mrs. Kristín Vidal
Sigvaldi Vidal
Miss Sigurrós Vidal
Miss Steina Vidal

*Hodgson, Man.*
Rögnvaldur S. Vidal

*Húsavík, Man.*
W. B. Arason

*Innisfail, Alta.*
Jóhann Björnsson

*Keewatin, Ont.*
Guðjón Hermansson
Bjarni Sveinsson
Mrs. Bjarni Sveinsson

*Langruth, Man.*
Jón Halldórsson

*Lundar, Man.*
Séra Guðm. Árnason
Gísli Grímsson
Eiríkur Hallsson
Philip Johnson
Guðmundur Sigurðsson
Mrs. S. Sigurðsson

*Lethbridge, Alta.*
Mrs. Knight

*Markerville, Alta.*
Mrs. Helga Stephansson

*Mozart, Sask.*
Jens Eliasson

*New Westminster, B.C.*
Loftur Goodman

*Norwood, Man.*
Magnús Pétursson

*Oak Point, Man.*
Andrés Skagfeld

*Oak View, Man.*
Sigurður Sigfússon

*Piney, Man.*
S. S. Anderson
Mrs. Guðrún Anderson
Jóhannes Jóhannsson
S. J. Magnússon
Kristinn Norman
Thorsteinn Petursson
Björn Stephanson
Guðmundur Thordarson
B. G. Thorvaldson

*Powell River, B.C.*
Jón Sigurðsson

*Red Deer, Alta.*
Ófeigur Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson

*Reykjavík, Man.*
Árni Björnsson
G. Erlendsson
Ingvar Gíslason
Ingim. Ólafsson
Árni Paulson
Óskar Sigurðsson

*Riverton, Man.*
Halldór Austmann
Jóhannes Helgason
Skúli Hjörleifsson
Pétur Jónsson
Séra E. J. Melan
Mrs. F. Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Jón Sigvaldason
Sveinn Thorvaldson
Mrs. Kristín Thorvaldson

*Saskatoon, Sask.*
Próf. T. Thorvaldson, Sc.D.

*Selkirk, Man.*
Ásgeir Bjarnason

*Siglunes, Man.*
Ásmundur Freeman
Guðmundur Johnson

*Silver Bay, Man.*
Jón Björnsson
Júlíus Gíslason
Jón Gíslason
Hallur Hallsson
Björn Jónasson

*Steep Rock, Man.*
Guðmundur Hjartarson
F. E. Snædal
Mrs. Ólafia Vigfússon

*Stettler, Alta.*
M. Steinsson

*Swan River, Man.*
Halldór J. Egilsson

*Vancouver, B.C.*
Ben. B. Bjarnason
Mrs. H. S. Le Messurier
Magnús Tait

*Victoria, B.C.*
Christian Sivertz

*Víðir, Man.*
V. Jóhannesson

Hjörtur Jónasson
Ingigerður Jónasson
Ingvar Th. Kristjánsson
Guðrún Magnússon
Franklin Pétursson
Guðrún J. Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Jón F. Sigurðsson
Gunnl. Hólm

*Vogar, Man.*
Björn Eggertsson
Lestrarfél. "Herðubreið"
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson

*White Rock, B.C.*
Th. G. Ísdal

*Winnipeg Beach, Man.*
Jón Kernested

*Winnipegosis, Man.*
Guðrún Friðriksson

*Winnipeg, Man.*
Jochum Ásgeirsson
Dr. Ágúst Blöndal, M.D.
John Christophersson
Ásbjörn Eggertsson
Mrs. Guðríður Agnes Gunnlaugsson
Halldór Halldórsson
Dr. M. B. Halldórsson
Mrs. Ólöf Halldórsson
Sveinbjörn Hjaltalín
Mrs. Jósefína Jóhannsson
Halldór Johnson
Guðm. F. Jónasson
Þorbjörn Magnússon
Magnús Markusson
Sigurður W. Melsted
Björn Lindal
Th. Kr. Kristjánsson
Dr. Ófeigur Ófeigsson
Mrs. Margrét Ófeigsson
A. B. Olson
Dr. B. H. Olson, M..D
Ragnar H. Ragnars
Jón Sigurðsson
Árni Storm
Capt. J. B. Skaptason
Fred Stephenson
J. J. Swanson
Jóseph Thomson
Mrs. Inga Thorlaksson

3. BANDARÍKIN

*Akra, N.D.*
Björn Sveinsson
Ásbjörn Sturlaugsson

*Anacortes, Wash.*
Margrét J. Benedictsson

*Badger, Minn.*
J. J. Vatnsdal

*Baltimore, Md.*
Stefán Einarsson, Ph.D.

*Bellingham, Wash.*
Séra V. J. Eylands

*Blaine, Wash.*
S. A. Anderson
Þórir Björnsson
Th. Goodman
Séra H. E. Johnson
Mrs. Kristín F. Lindal
Mrs. Sigríður Paulson
Gunnar Karvelson
Séra Albert E. Kristjansson

*Cavalier, N. Dak.*
J. K. Einarsson
Einar G. Eiríksson
Mrs. Sigríður Galbraith

*Chicago, Ill.*
Árni Helgason
Jóhannes Sveinsson
C. H. Thordarson, Ph.D.

*Duluth, Minn.*
Chris. Johnson
Mrs. Chris. Johnson

*Duxby, Minn.*
Jón Magnússon

*Edinburg, N. Dak.*
Hannes Björnsson
Margrét Guðmundsson
Kristján G. Kristjánsson

*Garðar, N. Dak.*
Gamaliel Thorleifsson
Sigmundur Laxdal

*Gloucester, Mass.*
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

*Grafton, N. Dak.*
Guðjón Ármann

*Grand Forks, N. Dak.*
Próf. Richard Beck, Ph.D.
University Library

*Hallson, N. Dak.*
Árni J. Jóhannsson
Halldór Björnsson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



SEYTJÁNDI ÁRGANGUR, 1935

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi íslendinga í Vesturheimi

1935

# Efnisyfirlit

## George V. Bretakonungur látinn



Fæddur 3. júní 1865. Dáinn 20. janúar 1936

Edward VIII. Bretakonungur



Fæddur 23. júní 1894. Tekinn til ríkis
20. janúar 1936

# Indriði Einarsson

*Elzta núlifandi leikritaskáld Íslendinga.*

*Eftir Stefán Einarsson.*

I.

Það er í rauninni furða, hve lítið menn þekkja leikrit Indriða Einarssonar. Eiginlega er það aðeins Nýjársnóttin hans, sem unnið hefir hylli almennings. Flest önnur leikrit hans hafa að vísu fengið góðar viðtökur, er þau komu fram, en síðan hefir verið hljótt um þau. Eg veit ekki til að nokkurn tíma hafi verið skrifað sérstaklega um þau á íslenzku, svo að þau fengju að njóta samhengis hvert við annað og við persónu höfundarins. Að vísu hefir þeirra verið getið að meiru eða minna leyti í æfiágripum, sem birst hafa um höfundinn við og við í blöðum og tímaritum.*) En þau hafa horfið á bak við höfundinn, kannske af því að hann er flestum Íslendingum svo vel kunnur og svo kær. Hvaða Reykvíkingur kannast ekki við hinn léttstíga og kinnrjóða öldung, sem, að minsta kosti til fárra ára, sleit skóm sínum daglega á götum bæjarins, kvikur og að því er virtist óbeygður undan oki áranna.

Það sem eg get sagt í þessari grein verður aðeins undan og ofan af æfistarfi þessa merkismanns. Fjármálamanninum, sem haldið hefir um slagæð þjóðlífsins í rúman þriðjung aldar, verður ekki lýst hér. Ekki heldur bindindisfrömuðinum, sem við getum þakkað eða kent aðflutningsbannið á Íslandi, — alt eftir því hversu það er metið. En leikritahöfundinum og starfi hans í þágu íslenzkrar leiklistar og leikhúss vildi eg reyna að gera nokkur skil í grein þessari.

II.

Indriði Einarsson er fæddur 30. apríl 1851 að Húsabakka í Skagafirði. Stóðu að honum góðar ættir. Faðir hans var Einar Magnússon, sonur séra Magnúsar prests í Glaumbæ og Sigríðar Halldórsdóttur frá Reynistað, systur þeirra Reynistaðarbræðra er úti urðu á Kili. Af merkum mönnum í framætt Einars föður Indriða má nefna þá Pál Vídalín lögmann og Arngrím lærða. En móðir Indriða var Efemía dóttir Gísla Konráðssonar mesta og merkasta fræðimanns af alþýðu á 19. öld. Bróðir Efemíu var Konráð Gíslason prófessor.

Indriði ólst upp hjá foreldrum sínum að Húsabakka, síðar í Krossanesi fram til fermingaraldurs. Hefir hann sjálfur nokkuð lýst heimilisbrag og venjum þar í skemtilegri grein: "Jól í Norðurlandi um og eftir 1860"*). En

---

*)"I. E., endurskoðari," Sunnanfari (1902) 10:73-74 (eftir H.); "I. E.," Templar 31. jan. 1904; "I. E." eftir Þ. Gíslason, Óðinn (1908) 3:79-80; "I. E." eftir O. B., Óðinn (1919) 13:89-92 (ítarleg grein). "I. E. sjötugur," Vísir 2. maí 1921; Lögrétta 4. maí 1921 (rifjar upp margt, sem um hann hefir verið skrifað). "I. E. áttræður," Vísir 30. apr. 1931 (eftir P.m.) Lögrétta 29. apr. 1931. Ennfremur: Mitteilungen der Islandfreunde (1922) 9:44-46 (þýðing á grein eftir Al. Jóh. Mbl. 30. apr. 1921).

*)Vísir 24. des. 1924.

höfuðatriði í uppeldi sínu telur hann sjálfur það, að hann var látinn vaka yfir vellinum á hverju vori frá því hann var átta vetra. "Það eykur hugmyndaflug unglingsins og hefir þann kost, að hann verður að komast töluvert af án annara."

Fjórtán ára var Indriði sendur suður til Reykjavíkur að læra undir skóla (1865). Þann vetur voru "Útilegumenn" Matthíasar Jochumssonar leiknir og var það stórkostlegur viðburður í lífi Indriða. "Eg gekk heim með það í huganum að þetta væri það mesta í heimi" *). Raunar var það fleira, sem hreif huga Indriða á þessum árum bæði í og utan skólans. Kvæði Virgils léðu sál hans vængi, og þegar hann las "Macbeth" í hinni nýju dönsku þýðingu Lembckes, þótti honum sem lengra yrði eigi komist í snildinni. Og þegar leikritin voru á aðra hönd héldu honum engin bönd: hann las Schiller og Goethe og dáðist einkum að Gretchen í fangelsinu; en hann las líka "Oidipous konung" eftir Sófokles á grísku og Plautus og Terentius á latínu **). Að sjálfsögðu las hann fjölda af höfundum Norðurlanda, má til þess nefna Holberg, og, af hinum yngri, Paludan Muller, sem hann kveðst hafa tilbeðið. ***).

Á skólaárum sínum eignaðist Indriði vini bæði utan og innan skólans, sem áhuga höfðu á bókmentum og leiklist. Carl Kuchler*) nefnir til fjóra af skólabræðrum Indriða er nokkuð fengust við leikritasmíð, þá Kristján Jónsson, Fjallaskáld (1842-69), Valdimar Briem (1848-1930), Jón Ólafsson (1850-1916) og Ólaf Bjarnarson síðar prest á Ríp í Hegranesi (1843-81), og getur tilrauna þeirra. Enn mun Gunnlaugur Einar Gunnlaugsson (1850-?), er síðar skrifaði leikritið "Maurapúkinn"**) hafa verið skólabróðir Indriða og þeir góðir kunningjar.***) Annars voru þeir Kristján Jónsson og Jón Ólafsson beztu vinir Indriða í skólanum, en utan skóla þeir Eiríkur Briem og Sigurður Guðmundsson málari. Eiríkur var þá nýorðinn stúdent (1864) og skrifari hjá Pétri biskupi, en "meðan hann var þar safnaðist kring um hann hópur náms- og mentamanna, sem komu heim til hans og töluðu um fagurfræði og landsmál; þeir helztu voru Sigurður Guðmundsson m á l a r i, Valdemar Briem, Jón Ólafsson, séra Jón Bjarnason o. fl. Í þeim hóp kyntust menn fyrst verkum Kristofer Jansens, Björnstjerne Björnsons, og einkum og sér í lagi Henrik Ibsens."****) En Sigurð-

---

*)Sbr. og: "Matthías Jochumsson, eins og hann kom mér fyrir sjónir." Eftir Indr. Einarsson, Skírnir 109:5-18.

**)Bréf 2. maí 1929.

***)Bréf 22. júlí 1935.

---

*)Geschichte der Islandischen Dichtung. Heft II. Dramatik. Leipzig, Herm. Haacke, 1892, bls. 29-30.

**)Prentað í Norðanfara 21. nóv. 1884 o. n. blöðum.

***)Sbr. grein I. E.: "Á Mælifellsdal" Morgunn 5:209-216.

****)I. E. "†Síra Eiríkur Briem" Vísir, 5. des. 1929.

ur Guðmundsson málari*) (1833-74) var, eins og kunnugt er, einn hinn mesti áhugamaður um íslenzka leiklist, annar en Jón Guðmundsson. Sigurður fann fljótt upplag Indriða og sparaði ekki að eggja hann á að gerast leikritaskáld, benti honum í því tilefni á "Stories" eða konungasöguleikrit Shakespeares sem fyrirmyndir.

Og Indriði lét eggjast. Á föstudaginn langa 1869 lifði hann það, að andinn kom yfir hann og blés honum í brjóst dansi álfanna í "Nýársnóttinni," svo að hann hafði varla undan að skrifa.***) Þetta var byrjunin, en upphaf og endi "Nýjársnæturinnar" hafði hann lengi í smíðum og lauk ekki við hana fyr en 1870 eða 1871 um haustið.

Nú var að vísu fjarri því, að Indriði tæki sér Shakespeare til fyrirmyndar, er hann reit þessa frumsmíð sína. Hitt var heldur, að dæmi Matthíasar fyrst og fremst og auk þess kannske smekkur annara höfunda, íslenzkra***) og erlendra vísaði honum í þjóðsögurnar til efnisfanga. Matthías hafði tekið útilegumannasögur, Indriði valdi sér huldufólkið til meðferðar. Raunar var það sagan af tröllskessunni Gellivör,****( sem varð uppistaða "Nýjársnæturinnar." Gellivör hafði tekið bóndann og húskarl hans á Hvoli í Borgarfirði eystra hvora jólanóttina eftir aðra, svo að ekkjan og fólk hennar þorði ekki að hafast þar við hina þriðju. En um haustið fyrir hin fjórðu jól vitraðist huldukona ekkjunni í draumi, bað hana um mjólk handa börnum sínum og bauð að kenna henni ráð að koma af ásóknum tröllkonunnar. Á jólanóttina kom tröllkonan og tók ekkjuna, en huldukonan kvaldi og drap króga hennar, svo hún varð að láta ekkjuna lausa; komst ekkjan með hjálp huldukonunnar í kirkjuna, en skessa hvarf frá, er hringt var klukkum. Í "Nýjársnóttinni" varð ekkjan að Guðrúnu, huldukonan að Áslaugu álfkonu og Gellivör að Álfakarlinum eða Álfakonginum. En ofsókn hans við Guðrúnu er skýrð svo, að amma hennar hafði neitað að fylgja honum til konu hans í barnsnauð, svo sem segir í mörgum sögnum*); en hann hafði til hefndar ært hana og dóttur hennar, konu á tvítugsaldri. Nú var röðin komin að Guðrúnu: nýjársnóttina sem hún yrði tvítug ætlaði álfakonungurinn að æra hana. Alla þessa forsögn fær Guðrún — og áhorfendurnir — að heyra, er hún les bréfið frá fóstru sinni nokkrum stundum fyrir miðnætti, og eykur það eigi lítið á örlaga þunga leiksins og æsingu áhorfenda. Að öðru leyti er efni leiksins að mestu tekið úr íslenzku þjóðlífi. Svo er um fólkið og athafnir þess; það spilar alkort, eins

---

*)Andvari 15:1-14 (eftir Pál Briem).

**)Kaflinn á bls. 32-45 í gömlu "Nýjársnóttinni," sbr. bréf 2. maí 1929.

***)Jónas Hallgrímsson notaði grasafjall og útilegumenn í "Grasaferð." Magnús Grímsson skrifaði sögur um útilegumenn ("Þórður og Ólöf") með keim af þýzkri rómantík. Kannske áttu "Ræningjar" (Die Räuber) Schillers sinn þátt í leik Matthíasar.

****)Ísl. þjóðs. og æfintýri I:154-158.

*)T. d. Ísl. þjóðs. og æfintýri I:13-20 og einkum 21-23: "Jón Árnason og huldukonurnar," "Huldumaðurinn og stúlkan."

og síðar var til á æsku-heimili Indriða*) um jólin, og þar kemur Gvendur snemmbæri, sem var alkunnur flakkari í Skagafirði á þeim dögum.**) Þó er eitt atriði af erlendum toga spunnið: samtalið milli húsbændanna, Önnu og Þorláks í fyrsta þætti á rætur sínar að rekja til einnar senu í "Tartuffe" eftir Moliere, er Indriði las um það leyti er hann var að semja leikinn.***)

Það er auðvelt að finna galla á þessari frumsmíð Indriða, einkum ef hún er borin saman við verk meistarans Ibsens, sem mjög hefir mótað smekk nútíðarmanna, ekki sízt á Íslandi. "Nýjársnóttin" hefir ekki annan boðskap að flytja en sigur hins góða yfir hinu illa, og hún er fátæk að sterkum persónum og fast mótuðum mannlýsingum. Eiginlega eru það þau álfakarlinn og Áslaug ein, sem hafa nokkurt tækifæri til að sýna hvað í þeim býr, milli þeirra stendur baráttan. Ástæður karlsins fyrir gerðum sínum eru ágætar og skýra hann til hlítar, síður sannfærir oss nútíðarmenn ástæða Áslaugar, að hún vonaði að eignast ódauðlega sál, en raunar er sú ástæða bæði skáldleg og fullgild frá sjónarmiði rétttrúaðs fólks um 1870. Hinu fólkinu er meinað að taka þátt í rás viðburðanna, nema Guðrúnu einni og þó að litlu leyti; það er eins og peð á skáktafli örlaganna, og peðin gleymast, nema þau sé eitthvað meira en lítið afkáraleg eins og Gvendur snemmbæri, eða ef þeim er leikið í uppnám eins og Þorláki, sem álfarnir æra. Styrkur "Nýjársnæturinnar" liggur í því hve laglega höfundi hefir tekist að smeygja uggi þjóðtrúarinnar í hug áhorfendanna, hve kænlega hann kann að skapa æsingu og halda henni við, og síðast, en ekki sízt, hve sýnt honum er um áhrifamiklar leiksýningar.

"Nýjársnóttin" var leikin í fyrsta sinn af skólapiltum í Langalofti Latínuskólans kvöldin 28.*) 29. og 30. des. 1871, ásamt smáleik, "Heimkomunni" eftir Ólaf Björnsson. Var bæjarbúum boðið til leikanna, en Þjóðólfur**) lauk lofsorði á skemtunina og einkum "Nýjársnóttina." Að dómi blaðsins var hún "efnisríkur leikur leiddur með skáldlegri meðferð og vandvirkni út af þjóðsögum vorum og þjóðlífi, og víðast hvar furðu vel niður lagður og lagaður fyrir leiksviðið eins og það er algjört í öðrum löndum. Allir þeir er léku, léku vel, nokkrir afbragðsvel." Þess má geta, að Indriði sjálfur lék Guðrúnu, og oftar lék hann stúlkur á skólaárum sínum, var hann manna bezt til þess fallinn sakir vaxtar síns og fríðleika.***) En Sigurður málari útbjó bæði tjöld og útlit leikendanna.

*)"Jól í Norðurlandi". Vísir 24. des. 1924.

**)Sbr. Íslenzkir þjóðhættir, eftir sr. Jónas Jónasson bls. 254.

***)Sbr. bréf 22. júlí 1935.

*)Þetta er sögn Þjóðólfs, en í leikskrá Leikfél. Rvíkur 1. apr. 1917: "Nýjársnóttin í fimtugasta sinn," er frumleikurinn talinn 27. des., eflaust eftir sögn Indriða sjálfs.

**)6. jan 1872.

***)Ísafold 21. marz 1917 ("Fágætur leikviðburður").

Hrifning fólksins yfir "Nýjársnóttinni" var sýnilega mikil og almenn. Álfadansinn í henni varð til þess, að sögn, að hrinda af stað hinum almenna sið að hafa álfadansa og brennur úti á þrettándanum. Var fyrsti álfadansinn haldinn á Tjörninni í Reykjavík fyrsta þrettándann eftir að "Nýjársnóttin" var leikin, og þá orti Jón Ólafsson "Máninn hátt á himni skín." Litlu síðar sendi einhver áhorfandi álit sitt um leikinn til Þjóðólfs.*) Dáist hann einkum að kvæðinu, sem ort var út af Kötludraumi "Inni Kári sat í sal." Loks gengust þeir Helgi E. Helgesen kennari og Magnús Stephensen landshöfðingi fyrir samskotum til höfundarins og námu þau 150 ríkisdölum; sjálfsagt góður skildingur í þá daga. Kannske hefir Indriði notað dalina til að koma Nýjársnóttinni á prent;**) að minsta kosti tileinkar hann þeim Helga og Magnúsi bókina.

Þessi gamla "Nýjársnótt" var síðan leikin í Glasgow, sölubúð E. Egilssonar 1873,***) á Skandínavíu, öðru nafni "sjúkrahúsi Reykjavíkur" 1882,****) og í Goodtemplarahúsinu 1891.*****) Auk þess gekk hún á Akureyri, í Hafnarfirði, Keflavík, í Winnipeg

*)23. jan. 1872.

**)Nýjársnóttin. Sjónleikur í þremur sýningum, eftir Indriða Einarsson. Akureyri 1872. — Þegar hún var leikin var hún í "fjórum flokkum" að sögn Þjóðólfs.

***)Þjóðólfur 3. 21. jan. 1873 (þrem sinnum).

****)Þjóðólfur 25. febr. 1882.

*****)Ísafold 28. febr. 1891; Fjallkonan 10. marz 1891.

og víst víðar, líklega alls um hundrað sinnum áður en hin yngri gerð leiksins kom til sögunnar.*)

Hylli "Nýjársnæturinnar" hlýtur að hafa ýtt undir Indriða að skrifa fleiri leikrit, og raunar hafði hann fleira en eitt í höfðinu áður en hann lyki stúdentsprófi vorið 1872. Fyrst og fremst voru það "Hellismenn." Þá hafði hann skrifað að mestu áður hann varð stúdent, en hann bætti um þá fyrsta veturinn sem hann var í Höfn (1872-73). "Hellismenn" eru miklu náskyldari "Útilegumönnum" Matthíasar og "Rængingjum" Schillers en "Nýjársnóttin." Eins og kunnugt er samdi Matthías "Útilegumennina" meðan minningarnar um öræfi landsins voru enn ferskar í hug hans eftir ferðalagið með kvekurunum.**) Á svipaðan hátt skrifaði Indriði "Hellismenn" upp úr áhrifum þeim, er hann varð fyrir vor og haust á leið sinni um Kalmannstungu. "Eg varð svo hrifinn af náttúrunni, hraununum, skóginum, Surtshelli og Vopnalág," skrifar hann, og frá einni slíkri ferð að vorlagi 1870, hefir hann skýrt í greinni "Á Mælifellsdal."***) Það er gaman að taka eftir því, að bæði Matthías og Indriði eigna íslenzkri náttúru upptökin að þessum verkum sínum. En "Hellismenn" voru annars ortir upp úr hinni borgfirzku þjóðsögu, "Hellismanna-sögu," er

*)Ísafold 31. marz 1917.

**)M. Joch.: Sögukaflar af sjálfum mér, bls. 159.

***)Morgunn 5:209-216.

lesa má í Þjóðsögum Jóns Árnasonar II:300-304. Hefir Indriði nálega í öllum atriðum fylgt sögunni, nema hvað ástaræfintýrið er hans verk og stúlkurnar tvær, fóstursystir og systir Guðmundar bóndasonar ásamt Gunnari, sem gerður er að andstæðu bóndasonar. Þeir Hellismenn voru, að sagan segir, upphaflega skólapiltar á Hólum, er fyrir strákapör urðu útlagir gerðir, og tóku sér átján saman bústað í Surtshelli. Nú þótt þeir væri drengir góðir, veittu þeir bændum þungar búsifjar í ránum og fjárnámi. Til að vinna þá gekk Guðmundur bóndason á hönd þeim og var með þeim árum saman, en slapp loks úr höndum þeim meiddur. Að lokum fékk hann og bygðamenn færi á þeim og réðu niðurlögum þeirra, nema hvað Eiríkur komst undan á handahlaupum upp Eiríksjökul. Segir sagan, að hann kæmist í skip og tæki síðar greypar hefndir á Guðmundi.

Hjá Indriða eru Hellismenn allir rómantískar hetjur, hver á sinn veg. Aftur á móti er Guðmundur illmenni, sem að mestu*) lætur leiðast af metnaðargirni sinni til að yfirstíga þá Hellismenn. Enda hefir hann lítt fylgi manna fyr en hann með svikum kemur því svo fyrir, að Eiríkur vegur unnustu sína, en fóstursystur Guðmundar, sem hann hefir raunar ætlað sjálfum sér. Við þetta "níðingsverk" Hellismanna fara bændur með Guðmundi að þeim. En sigur hans verður honum til lítillar ánægju. Systir hans sér pretti hans og hverfur frá honum, og þegar samvizkan virðist slá hann, kemur Eiríkur til hans, hellir eitri minninganna í sárin og lætur hann svo einan í leikslok.

Bygging leiksins er nokkuð flókin, og mannlýsingarnar býsna einhliða. Eiginlega gerir höfundur mest úr Guðmundi, en ekki nóg til þess að hann verði að ógleymanlegum erkifanti, enn síður tragisk hetja. Viðvaningsmörkin loða við leikinn. En leiksviðið og senurnar eru valdar með markvissum smekk listamannsins, og leikurinn saknar ekki skáldlegra tilþrifa.*)

"Hellismenn" voru fyrst leiknir af presta- og læknaskólanemum í Glasgow 30. des. 1873 ásamt fjórum leikritum eftir Moliere.**) Aftur voru þeir leiknir í Leikhúsi W. O. Breiðfjörðs 1895***) og lék Indriði sjálfur Guðmund. Í bæði skiftin munu leiktjöld Sigurðar málara hafa verið notuð. Í þriðja sinn voru þeir leiknir af glímufélaginu "Ármann" í Reykjavík 1923. Leikritið var prentað í Deykjavík 1897.****)

---

*)Hatur hans til þeirra er þó að nokkru skýrt með misþyrmingu þeirra við hann. Minnir það á sinnaskifti Sigurðar Slembis eftir Björnson.

*)Sbr. ummæli Algernon Swinburne prentuð á kápu "Sverðs og bagals." Frænka Swinburne's Miss Disney Leith þýddi leikinn á ensku, og segir Ó. B. í Óðni 1918 að hann muni hafa verið leikinn laust eftir aldamót í New York af Fromanns Society. Sbr. og Eimreiðin (1898) 4:236-238.

**)Þjóðólfur 7. jan. 1874. Sbr. og Stúdentafélagið fimmtíu ára. Eftir I. E. Rvík. 1921, bls. 13.

***)Fjallk. 4. febr. 1895. Þjóðólfur 25. jan. 1895.

****)Hellismenn. Sjónleikur í fimm þáttum. Reykjavík, Sig. Kristjánsson, 1897.

III.

Að loknu stúdentsprófi 1872 fór Indriði til Kaupmannahafnar og las þar stjórnfræði þar til vorið 1877 að hann tók próf og varð "kandidat með láði." Hann fór ekki alveg tómhendur til Hafnar, því auk "Hellismanna" hafði honum, vorið sem hann las undir stúdentspróf, dottið í hug "Dansinn í Hruna." Og er honum lánaðist ekki að setja þann leik saman svo honum líkaði, tók hann til við nýjan leik um "Tristan og Isold" og skrifaði allmikil drög að þeim leik sem enn liggja hjá honum í handriti; þótti honum það efni bera af "Dansinum í Hruna" eins og hin glæsilega riddaraöld bar af myrkustu tímum miðalda.

En honum varð ekkert ágengt. Hin rómantísku hugfóstur hans króknuðu beinlínis í gjóstri raunsæisstefnunnar, sem um það leyti var að verða allhvass kringum Brandes, og bráðum átti eftir að gefa þeim íslenzku Verðandimönnum byr í seglin. "Raunsæisstefnan hafði gufað inn í mig eins og mann, sem fær kvef af því að liggja úti um vornótt . . ., eg gat ekkert af því notað, sem eg hafði gert og verið að fást við, og þessvegna lagði eg "Tristan og Ísold" alveg á hilluna. Fyrir þetta hataði eg raunsæisstefnuna, og hata hana enn, og kenni henni um að allur skáldskapur er horfinn úr dönskum bókmentum."*) Þrátt fyrir alt hefir Hafnarveran orðið honum ekki ómerkur skóli, einnig utan háskólans, því hér kyntist hann mörgum góðum mönnum,**) og hér komst hann í fyrsta sinn í kynni við regluleg leikhús og sá þar margt bæði fagurt og lítilsvert. Eftir prófið 1877 fór hann til Edinborgar í Skotlandi og hlýddi þar vetrarlangt á fyrirlestra um þjóðmegunarfræði; þar gekk hann og á leikhúsin og sá meðal annars Sir Henry Irving leika Richard III., "og er það það mesta sem eg hefi séð á nokkru leikhúsi. Hann lagði áherzlu á dauða Richards, og eg gleymi því aldrei. Í annað sinn fór eg úr leikhúsi svo, að mér fanst þetta vera það mesta í heimi."***)

Haustið 1878 kom Indriði alfarinn heim og var rúmt ár****) á skrifstofu Árna Thorsteinson landfógeta. En í ársbyrjun 1880 var hann gerður endurskoðandi eða revisor landsreikninganna og var það þar til 1904 að stjórnarráðið var stofnað. Þá varð hann fulltrúi á fjármálaskrifstofunni til 1909, en eftir það skrifstofustjóri til 1918, er hann fékk lausn frá opinberum störfum og gat helgað sig allan áhugamálum sínum.

Embættisverk Indriða voru alt annað en auðveld. Landsreikningarnir veltust yfir hann eins og snjóflóð, sem minni maður en hann hefði sannarlega átt erfitt með að halda höfðinu upp úr. Um þrjátíu og fimm ára skeið sá Indriði um útgáfu á "Landshagsskýrslum fyr-

*)Bréf 2. maí 1929.

*)Sbr. I. E.: "Frk. Sigríður Helgadóttir"; Vísir 11. jan. 1928.

**)Bréf 2. maí 1929.

***)Það ár kom út eftir hann í þýðingu: M. Block: Aðalatriði þjóðmegunarfræðinnar. Rvík, Einar Þórðarson 1879.

ir Ísland" og lagði með þeim grundvöllinn að vísindalegri hagfræði landsins.*) Auk þess lagði hann af meiri þekkingu en flestir aðrir orð í belg um fjárhagsmál landsins, bæði þegar Landsbankinn var stofnaður (1885) og ekki síður þegar Íslandsbanka var komið upp 1904; en stofnun þessara banka hafa verið einhverjir hinir afdrifamestu atburðir í hagsögu Íslendinga á sínum tíma. Hér verður að nægja að benda á hinn drjúga þátt, sem Indriði mun hafa átt í henni. Hvorki verða hér rakin þingmenskustörf hans**) né afskifti hans af bindindismálunum; þess má þó geta að 1886 var hann einn af stofnendum Stórstúku Íslands og síðan ávalt einn af leiðandi mönnum hennar. Sjálfir templarar telja Indriða höfund bindindispólitíkurinnar á Íslandi, og má um það alt vísa til blaðs þeirra Templars 31. jan. 1904. Indriði var sjálfur ritstjóri þess blaðs eitt ár (3. árg. 1888); hann gaf og út 1. og 4. ár af "Þingtíðindum Stórstúku Íslands." Minna má og á starf Indriða fyrir Stúdentafélagið í Reykjavík; skrifaði hann sögu þess er það varð 50 ára.***)

Árið 1880 kvæntist Indriði Mörtu Pétursdóttur organleikara Guðjónssonar, og eignuðust þau brátt fult hús barna; dætur sex: Efemíu, Guðrúnu, Emilíu, Láru, Mörtu og Ingibjörgu og tvo sonu: Einar og Jens eða Gunnar, er báðir hafa tekið sér ættarnafnið Viðar. Þessi börn hafa erft söngelsku úr móðurætt, en áhuga á leikment úr föðurættinni. Flest munu þau hafa einhverntíma leikið, og þegar "Nýjársnóttin" yngri var leikin 1908, léku í henni a. m. k. fjórar, sumir segja fimm, dætur Indriða. Efemía giftist Jens B. Waage, einhverjum bezta leikara á sinni tíð, þeirra sonur er Indriði Waage, einn hinn ötulasti starfsmaður leikfélagsins í seinni tíð. Guðrún náði meiri frægð á leiksviði en nokkur íslenzk kona önnur en Stefanía Guðmundsdóttir. Hana átti Páll Steingrímsson ritstjóri Vísis og leikritahöfundur. Lára giftist Pétri Bogasyni, lækni í Danmörku, Marta Birni Pálssyni (Kalman), Ingibjörg Ólafi Thors, en Emilía er ógift. Einar átti Katrínu Norðmann, en um Gunnar er mér ókunnugt.

## IV.

Það væri lítil furða, þó að maður, jafn önnum kafinn og Indriði var eftir 1880, hefði lítinn tíma afgangs handa skáldgyðjunni. Á fyrstu árum hans heima sáust þó stöku sinnum kvæði eftir hann í blöðunum;*) en sjálfur segist hann hafa hætt með öllu að yrkja — það er að segja: kvæði — er Einar Benediktsson hóf skáldskap sinn.

---

*)1882-98 í C deild Stjórnartíðindanna, 1899-1912 sérstaklega. Af ritgerðum í landshagsskýrslunum má nefna "Yfirlit yfir mannfjölda, fædda og dána á 19. öldinni." Sérpr. Rvík. 1904.

**)Hann var um eitt skeið þingmaður Vestmannaeyja.

***)1871—14. nóv.—1921. Stúdentafélagið í Reykjavík 50 ára. Reykjavík, Guðm. Gamalíelsson, 1921.

*)T. d. "Borðið mitt," Skuld 7/7 1877; "Stökur," Skuld 11/10 1879; "Undir snjó," Skuld 2/7 1880; "Hárið rauða," Skuld 21/8 1880. Ekki er víst að hér komi öll kurl til grafar.

Fyrst um sinn lagði hann leikritaskáldskapinn með öllu á hilluna. Samur var þó áhuginn fyrir leiklistinni. Þannig gekkst hann með öðrum fyrir leiksýningum veturinn 1881-82. Þeir léku þá á Skandínavíu "Æfintýri á gönguför"*) (14 sinnum) Nýjársnóttina (8 sinnum) og "Milli bardaganna" eftir Björnson (5 sinnum) í þýðingu er þeir Indriði og Jón Ólafsson gerðu. Auk þess nokkra smáleiki, danska. Var góður rómur gerður að leik þeirra.**) Tveim árum síðar ætluðu þeir Indriði og Kristján Ó. Þorgrímsson að stofna til leikja, en þá fengu þeir hvorki húsnæði né leyfi bæjarstjóra, bar hann við fátækt bæjarbúa eftir hörðu árin, er hófust 1882. Svona var andrúmsloftið fyrir leiklist í Reykjavík það herrans ár! En er leið fram undir lok áttunda tugar aldarinnar létti kreppunni, og landsmenn fóru að rétta úr kútnum. Þetta sýndi sig meðal annars á sviði leiklistarinnar. Einkum batnaði hagur hennar eftir 1888, er Goodtemplarar höfðu komið sér upp myndarlegu samkomuhúsi með leiksviði, sem tók fram öllu eldra húsrúmi, er kostur hafði verið á. Eflaust hefir Indriði haft hönd í bagga með þeirri stefnu Goodtemplara að reyna að draga menn frá solli og drykk með saklausum skemtunum eins og sjónleikjum. En á síðustu árum áttunda tugarins fóru mörg félög að fást við leiksýningar með ólíkri vandvirkni og misjöfnum árangri;*) fóru þá að heyrast raddir um það í blöðunum, að örvænt myndi um íslenzka leiklist, nema menn tækju sig til og semdu alíslenzk rit fyrir leiksviðið. Raunar hafði Matthías Jochumsson löngu áður sett þá kröfu fram (26. febr. 1879) í Þjóðólfi: "Ef dramatisk konst á ekki að verða til tómrar, ef ekki tvíræðrar skemtunar, ef hún á að verða list, sem mentar, fegrar og fullkomnar þjóðlífið — eins og öll konst á að gjöra — þá verða menn að læra að leika sitt eigið þjóðlíf."

En þessar hræringar vöktu nýjan áhuga eins og sýndi sig í því, að 15. febrúar 1890 flutti Ísafold svohljóðandi auglýsingu: "Þjóðlegt leikrit! 500 kr. verðlaun! Félag eitt í Reykjavík býður 500 kr. verðlaun fyrir nýtt, vel samið íslenzkt leikrit í 3—5 þáttum, sem verið er hérumbil þrjár klukkustundir að leika." Átti leikritið að vera um efni úr sögu eða daglegu lífi þjóðarinnar og vera afhent Ísafold fyrir lok næsta októbermánaðar. Hugmyndina að þessum verðlaunum átti Þorlákur Ó. Johnson, og fékk hann 20 menn í félagið með sér, þar á meðal þá Björn Jónsson og Indriða, og standa nöfn þeirra undir auglýsingunni. En er í eindaga var komið, hafði komið inn eitt nauðlélegt rit, var því fresturinn lengdur enn um ár (til 31. okt. 1891). Komu þá inn fjögur rit "tvö fráleit að efni og formi, af

---

*)Um "Æfintýrið" sjá Leikendaskrá Leikfél. Rvíkur 2. 1932-33. Þar segir, að þetta væri í fyrsta skifti, að leikurinn væri sýndur í ísl. þýðingu eftir Jónas Jónasson. Síðar þýddi I. E. leikinn og hefir sú þýðing orðið vinsæl á Íslandi.

**)Þjóðólfur 25. febr. 1882.

*)Sbr. "Sjónleikar í Reykjavík" eftir I. E. Reykjavík 29. marz, 11. apr. 1900.

hinum tveim var annað vandað og vel samið rit — en getur ei kallast leikrit heldur kafli úr sögu landsins í samtali og eintalsformi, hið fjórða má að vísu sýna á leiksviði hér, en er gallað." Verðlaun voru því ekki veitt, en nú var heitið 1,000 kr. fyrir leik tilbúinn 31. marz 1893.*) Þessi tvö síðastnefndu leikrit, sem nokkurs þótti um vert voru "Gissur Þorvaldsson" eftir Eggert Ó. Briem (prentað í Draupni 1895-99) og fyrsta gerð af "Skipið sekkur" eftir Indriða. Ekkert af leikritum Indriða hefir átt sér jafnlanga uppruna-sögu og þetta. Í sjö ár (1891-97) skrifaði hann það upp aftur og aftur, og guð má vita, hvort honum hefir líkað það, þegar hans loksins lét það fara. "Þar gaf eg raunsæisstefnunni alt það sem eg gat til þess að hugsa aldrei um hana síðar," segir hann.**) En áður en þessu leikriti er lýst, er rétt að geta þess, sem Indriði gerði annars á þessum árum fyrir hina íslenzku leiklist.

J. C. Poestion getur þess í leiksögu sinni,***) að Indriði Einarsson hafi verið leiðbeinandi eða leikstjóri á árabilinu 1889-1897 og mun það vera rétt. Á þessu árabili mun hann hafa þýtt upp "Æfintýri á Gönguför" eftir Hostrup, það var leikið ásamt

*)Sjá Ísafold 22. febr. 1890; 10. jan. 1891; 18. nóv. 1891.

**)Bréf 2. maí 1929.

***)Zur Geschichte des isländischen Dramas und Theaterwesens Wien, Mayer & Ko. 1903 bls. 67. Sbr. og grein um Indriða eftir E. H. Kvaran í leikskrá Leikfél. Rvíkur. IV. 2. (1907-08).

"Nýjársnóttinni" og dönsku smáleikriti í marz 1891.*) Árið eftir færðust leikendurnir það í fang að sýna "Víkingana á Hálogalandi" eftir Ibsen, í þýðingu þeirra Indriða og Eggerts Ó. Briem, og þótti þrekvirki, enda var það fyrsta Ibsen-leikritið sýnt á Íslandi.**) Var frumleikurinn 26. febrúar 1892. Tveim árum síðar voru "Hellismenn" sýndir, eins og áður er getið; það gerði Stúdentafélagið með aðstoð Indriða.***) "Hellismenn" tókust vel, allvel tókst og, að sögn blaðanna, annað leikrit eftir Indriða, sem hann kallaði "Systkinin í Fremstadal."****) Það var fyrst leikið 6. janúar 1895 í leikhúsi Breiðfjörðs og gekk alls sex sinnum. Kuchler segir,*****) eflaust eftir sögn Indriða sjálfs, að hann hafi fengið hugmyndina að leiknum í Edinborg 1877, er hann sá þar "Pygmalion and Galatea" (eftir William Schwenk Gilbert, 1871). Seinna týndist leikritið, en Kuchler hefir gefið efni þess í leikritasögu sinni, virðist það eftir því ekki hafa verið mikils virði. Annars verður að vísa til þess, sem þar er sagt.

Veturinn 1896-97 markar tíma-

*)Ísafold, 28. febr. 1891; Fjallkonan, 10. marz 1891.

**)Ísafold, 2., 9. og 12. marz 1892. Þjóðólfur 4. marz 1892. Ben. Gröndal skrifaði rokna fellidóm um leikinn í Þjóðólfi 1. apr. 1892, sjá ennfr. Þjóðólf 29. apr., 28. nóv. 1892, 26. maí 1893.

***)Sjá I. E.: Stúdentafélagið fimmtíu ára bls. 25.

****)Þjóðólfur 11. jan. 1895.

*****)Geschichte der isl. Dichtung der Neuzeit II. Dramatik, bls. 57-59.

mót í íslenzkri leiksögu, því þá var Leikfélag Reykjavíkur stofnað (11. jan. 1897). Í bréfi (22. júlí 1935) kveðst Indriði hafa verið einn af stofnendum þess, en ekki er hann talinn með þeim í grein þeirri er Þorvarður Þorvarðsson ritaði um félagið 1904,*) né heldur í grein þeirri er hann skrifaði sjálfur í Lögréttu: "Leikfélag Reykjavíkur þrítugt,"**) svo þetta mun vera misminni. Ekki þarf þó að efa, að hann hafi haft hönd í bagga bæði þá og síðar með Leikfélaginu; fyrsta árið var hann auk þess leiðbeinandi við leikana. Síðar hafa börn hans og barnabörn verið hinir ötulustu starfsmenn í Leikfélaginu.

V.

En nú er mál til komið að víkja aftur að hinu realistiska leikriti Indriða: "Skipið sekkur." Að vísu kom það ekki fyrir almenningssjónir fyr en á eftir næsta leikriti hans, "Sverð og bagall," en það var þó fullgert á undan því leikriti, og er því rétt að taka það hér til meðferðar.***)

"Skipið sekkur" er fyrsta og eina nútíðar-drama Indriða. Leitast hann þar við að leggja þjóðfélagsmálin í dóm á líkan hátt og gert höfðu hin norsku skáld, einkum Björnson og Ibsen. Eins og "Gjaldþrot" (En Fallit) Björnsons er þetta saga af kaupmanni, sem verður gjaldþrota, en annars er kaupmaður Indriða lítils verður í samanburði við hinn norska grósssjera; hann er drykkjuræfill, sem á endanum fer frá öllu til Ameríku. Hetjan í leiknum er ekki hann, heldur frú Sigríður, kona hans, sem að nokkru leyti minnir á Nóru í "Brúðuheimili" Ibsens, að nokkru leyti á frú Ellida í "Frúnni frá hafinu" eftir sama. Hún vill skilnað við bónda sinn, ekki aðeins af því að hann er ræfill, heldur einnig af því að hún á unnusta, sem hún hafði farist á mis við í gamla daga, en sem nú fyrst býður henni hönd og hamingju. Að hún á síðustu stundu hafnar boðum hans og hamingju sinni kemur til af því, að dóttir hennar, Brynhildur, hefir mist unnusta sinn voveiflega og berst lítt af eftir missinn. Þar við bætist að Brynhildur lítur á ráðabreytni móður sinnar með augum almennings, sem fordæmir skilnað, ekki sízt skilnað til þess að taka saman við annan mann. Frú Sigríður stenzt ekki þunga almenningsálitsins þegar það kemur fram í fortölum dóttur hennar, en hún lætur undan því, án þess aó trúa á réttmæti þess. Í þessu heyrist rödd realistans Indriða. Þess kennir líka í orðum Brynhildar, þar sem hún er að öfunda karlmennina af frelsinu til að læra, til að sigla o. s. frv. "Ef við siglum," bætir hún við, "erum við sendar eins og koffort til einhvers manns eða konu utanlands." En þótt auðheyrt sé hér að Indriði talar máli

*) "Leikfélag Reykjavíkur 1897 - 1904." Reykjavík, 1904.

**) Sérpr. úr Lögr. (24. marz 1927) Prentsm. Acta, 1927. 20 bls.

***) Skipið sekkur. Sjónleikur í fjórum þáttum. Bessastaðir, Skúli Thoroddsen, 1902. Ritdómar: í Norðurlandi 15. nóv. 1902 (E. H. Kvaran? telur það aðalgallann að konan sé ekki neitt sympatisk).

kvenfrelsisins, þá virðist manni nú, að sú málafærsla sé mjög vægileg. Samt sem áður má ráða það af því hvernig Indriði lýsir almenningsálitinu í gerfi frú Thorkelín, að ekki hefir þurft á þessum árum harðari sókn af höndum framfaramanna til þess að kjaftakerlingarnar færu í ham út af því. Og ekki eingöngu kjaftakerlingar, heldur jafnvel betri borgarar, eins og t. d. ritstjóri Þjóðólfs,*) þegar ritið loks var leikið upp úr nýjári 1903. Annars fann Þjóðólfur leiknum það til foráttu, að fátt væri í honum sérkennilegt fyrir íslenzkt þjóðlíf og málið óíslenzkulegt, og þessar aðfinslur tók Poestion upp í greinargerð sinni um leikinn.**) Poestion var meira að segja helzt á því, að leikurinn væri hrein og bein bindindisprédikun! En Þjóðólfur gat alveg eins vel sakað heldra fólk Reykjavíkur um, að það væri ekkert sérkennilega íslenzkt við það. Að vísu kveðst Indriði ekki hafa tekið annað beint eftir atburðum í Reykjavík en drukknun Kristjáns, sem gerð er eftir druknun Sigurðar adjúnkts Sigurðssonar og annars manns á leið innan frá Elliðaám til Reykjavíkur. En því varð Indriða þessi atburður svo minnisstæður, að þeir höfðu boðið honum að vera með á bátnum, en hann kom þrem mínútum of seint!***) En þótt gjaldþrot Johnsens ætti sér enga beina fyrirmynd, þá vantaði það ekki að sumir menn tækju sögu hans til sín; sýnir það að ekki hefir verið langt til fyrirmyndanna. Frú Thorkelín er af sama tæi og kjaftakerlingar þær, er Einar H. Kvaran hefir oft lýst síðan, má geta nærri hvort þær hafi ekki fundist í Reykjavík. Væri nokkuð óíslenzkt í leiknum, þá er það auðvitað hugarfar Sigríðar, enda var að því fundið. En hver segir að ekki hafi getað fundist svo frjálslyndar konur í Reykjavík, úr því bæði Indriði og mývetnski bóndinn Þorgils Gjallandi fengu sér þær til yrkisefnis? Sjaldgæfar hafa þær auðvitað verið.

Mannlýsingarnar í þessum leik eru yfirleitt betri en í hinum fyrri. Þær mæðgur eru hugþekkar persónur, sömuleiðis þeir unnustarnir Kristján og Hjálmar. Einar, hálfbróðir Sigríðar, er allra-bezti karl og smáskrítinn, settur til að fjörga leikinn, og til að bjarga þeim mæðgum frá neyð gjaldþrotsins.

Að öllu athuguðu er leikurinn mjög sæmilegur, þótt hann geti ekki jafnast á við sínar frægu, norsku fyrirmyndir.

"Skipið sekkur" var leikið í fyrsta sinn 13. febrúar 1903, alls átta sinnum. Höfundur leiðbeindi sjálfur, en Lára dóttir hans lék Brynhildi. Blöðunum kom víst flestum saman um það, að leikurinn færi vel á leiksviði. En annars deildu þau um hann. Ísafold (21. febr. 1903), Reykjavík (Jón Ólafsson, 12. febr.) og Þjóðviljinn (Skúli Thoroddsen, 17. febr.) létu vel af leiknum og leikendum, en Þjóðólfur (20. febr. sbr. áður) og Kvennablaðið (18. febr.) töldu

*)Þjóðólfur 20. febr. 1903.

**)Zur Geschichte des isländischen Dramas, bls. 62-66.

***)Bréf 8. des. 1935.

hann gallaðan; einkum þótti Kvennablaðinu skapferli Sigríðar "óíslenzkt og óeðlilegt." Vera má að þessir dómar blaðanna hafi átt sinn þátt í því að leikurinn gekk ekki lengur, þó tala þau um góða aðsókn. En löngu seinna tók Dr. Alexander Jóhannesson drengilega svari leiksins í ítarlegri ritgerð í Ísafold 20. nóv. 1915.*) Þar bendir hann á það, að hin dularfullu fyrirbrigði, fyrirboðarnir, s t o r m u r i n n, hurðarskellirnir, mennirnir sem ganga fyrir gluggann — alt tákn annara og meiri hluta, eigi líklega rætur sínar að rekja til leikrita Maeterlinks (La Princesse Maleine 1889, L'Intruse, Les Avengles 1890). Þetta mun hann hafa frá Indriða sjálfum, og er því varla um það að efast, að hér komi fram hin fyrstu áhrif symbólsku stefnunnar í íslenzkri leikritagerð.

Það er mjög vafasamt, hvort Indriði hefði skrifað "Skipið sekkur," ef hann hefði hvorki þekt Ibsen né Björnson. Vafasamt má og þykja, hvort hann hefði lagt út í að skrifa "Sverð og bagal,"**) drama úr Sturlungu (skrifað 1897-98), ef hann hefði ekki haft hin sögulegu leikrit Norðmanna til eggjunar og leiðbeiningar. Í fyrstu virðist það merkilegt, að hann, með sínu rómantíska innræti, skyldi ekki fyrst fara í fornsögurnar og þaðan í nútíðarlífið. Yfirleitt mun útlendingum þykja það kynlegt, hve seint Íslendingar réðust í að yrkja leikrit upp úr sögum sínum, jafn há-dramatiskar að efni og þær venjulega eru. En skýringin er öllum Íslendingum augljós: þeir treystu sér sízt af öllu til að yrkja leikrit upp úr sögunum, því um þær var ekki hægt að bæta, gott ef hægt var að ná þeim. Þetta kemur skýrt fram í dómi Benedikts Gröndals um "Víkingana á Hálogalandi," sem áður getur, og þetta var Indriða ljóst. Ibsen hafði ráðist á garðinn þar sem hann var hæstur og hnuplað höfuð-dramanu úr fornbókmentunum, sögu Sigurðar og Brynhildar, Kjartans og Guðrúnar. Indriði tók lítt þekt atvik úr Sturlungu og skóp það eftir vild sinni, en í ströngum sögustíl.

Atvikið úr Sturlungu er víg Þórálfs Bjarnasonar.*) Þórálfur var utansveitarmaður, sem komist hafði í kærleika við Kolbein unga, framgjarn mjög, og því illa þokkaður af sveitungum og frændum Kolbeins. Fremstur í þeirra flokki var Brandur Kolbeinsson kaldaljóss, sá maður er Kolbeinn ungi mat mest sinna manna, enda gaf honum héraðið eftir sinn dag. Brandur var kvæntur Jórunni Kálfsdóttur en Þórálfur hafði verið að drápi föður hennar og bróður; þó latti hún atfarar við Þórálf. Brandur virðist hafa verið maður friðsamur, því Þórálfur hafði auknefnt hann og félaga hans "og kallað þá "dúnvöttu." Fleiri óvildarmenn átti Þórálfur, eru þeir tilnefndir Broddi, mágur Kolbeins

*) Þýdd á þýzku í Mitteilungen der Islandfreunde (1917) 4:59-67.

**) Sverð og bagall. Sjónleikur í fimm þáttum frá Sturlungaöldinni. Reykjavík, Prentsmiðja Dagskrár, 1899.

*) Sturlunga, útg. G. Vigf. I. bls. 382-384, VII, kap. 146.

og Álfur í Gröf, og eggjuðu þeir atfarar við hann, og þar kom, að Brandur réðst til farar með þeim. Tóku þeir hús á Þórálfi og drápu hann, eftir að hann hafði náð prestsfundi. Að því loknu fóru þeir til Hóla og tóku lausn af Bótólfi biskupi, höfðu síðan setur, meðan leitað var um sættir við Kolbein unga. Það réðst úr, að þeir sökudólgar gengu á hönd Kolbeini. Tók hann þeim all-þungliga, en lét þá þó ná sættum um síðir fyrir sakir Brands. En er Kolbeinn spurði, hví þeir færi að Þórálfi, kvað Brandur nógar sakir, "en eigi gerða ek þetta í hefnd eftir Kálf." Broddi kvaðst því hafa gert það, "at ek var skyldastur at reka svívirðingar þinnar; hafði hann þér lengi ótrúr verit ok lymsklega þjónað bæði hér ok utanlands."

Úr þessum orðum Brodda og því, sem segir á öðrum stað í Sturlungu,*) að þau Helga kona Kolbeins og Þórálfur skyti mönnum undan refsingu Kolbeins, hefir Indriði gert Þórálf að friðli hennar; lætur hann hana því í leiknum standa bak við hefndina á hendur Brandi. En "ótrúnað" Þórálfs gerir hann að fullum landráðum af hálfu þeirra Helgu, er hún gefur Þórálfi Eyjafjörð fyrir munn bónda síns, þá er hann ráðstafar ríkjum sínum í sótt sinni;**) neytir Helga þess, að hann missir ráð og rænu um stund. Eykur hún með því sakir við Þórálf, og ekki bætir hún um með því, að láta Brand selja honum æfintrygðir nauðugan.

*) I, vii, kap. 122.

**) Sbr. Sturlungu II, vii, kap. 185 og 199.

Þessar trygðir vill Brandur samt eigi svíkja, og því lætur Indriði hann sitja hjá, er þeir félagar hans vega að Þórálfi. Vígið lætur Indriði ekki fara fram á heimili Þórálfs, heldur í helli nokkrum, þangað sem Óðinn í gerfi Járngríms*) leiðir hann feigan, í foraðsveðri. Er sá kafli einn hinn áhrifamesti í leikritinu; Indriða bregst ekki bogalistin þar sem þjóðsagnablærinn kemst að. Hitt er aftur á móti nokkuð ótrúlegt, að Helga skuli koma að vegendunum, þar sem þeir standa enn yfir Þórálfi vegnum, Minnir sá fundur annars á víg Bolla, þar sem Helgi Harðbeinsson þerrar spjótið á blæju Guðrúnar. Helga er með öðrum orðum af sama bergi brotin og Guðrún í Laxdælu og Hildigunnur í Njálu; henni bregður lítt, en því greypilegri hefndarráð bruggar hún vegöndunum, einkum Brandi. Auk þess brennur henni það fyrir brjósti, að hún er barnlaus, vill hún fá annan son þeirra Brands og Jórunnar til fósturs og ala hann upp til höfðingja, en Jórunn, sem er sjálf mildi kristninnar holdi klædd, aftekur það með öllu. Helga hefir fengið Kolbein til að lofa sér að kjósa mann í hefnd fyrir Þórálf, og nú hótar hún Jórunni að kjósa Brand, nema einhver hans manna vilji gefa sig fram í hans stað. Jórunn býst við engu góðu, og þegar Brandur og hans menn ganga á hönd Kolbeini að leita um sættir, fer hún með honum dulbúin sem drengur. Þegar Helga krefst lífláts Brands, gefur hún sig fram

*) Sbr. Sturlungu I, vii. kap. 145 neðanmálsgr.

og lætur Helga sér það vel líka, er hún þekkir Jórunni. En sakarmennirnir slá hring um Jórunni, og er viðbúið að ný víg hljótist af. En þá kemur óvænt atvik fyrir. Bótólfur biskup, sem Kolbeinn hefir haft í haldi, hefir alt í einu upp bannfæringu á norrænu yfir þeim Kolbeini og Helgu. Það ríður bagga-muninn hjá Kolbeini svo að sættir takast.

Þetta er hið eina af leikritum Indriða, sem aldrei hefir verið leikið á Íslandi,†) en á hinn bóginn hefir það verið þýtt bæði á dönsku*) þýzku**) og ensku***) og hlotið góða dóma bæði heima og erlendis.****)

Öllum kom saman um að þetta væri bezta leikritið, sem enn hafði sézt á íslenzku ritað. Mjög eftirtektarverður var dómur Brandesar. Hann byrjar á því, að titillinn sé villandi, hér sé aðeins á yfirborðinu stríð milli kirkjunnar og höfðingjavaldsins á Íslandi. Aðalefnið sé blóðhefnd í fornískenzkum stíl. "Orðfærið og alt sem persónurnar taka sér fyrir hendur samsvarar svo vel tímanum, að því verður ekki nógsamlega hrósað. Það er ekki hægt að neita því, að þegar íslenzk skáld á vorum tímum . . . leiða fornsögurnar eða einstakar myndir úr þeim fram á leiksviðið, þá er þetta gert af svo mikilli þekkingu á sögunum og samhug við þær, að slíkt er ekki til í Danmörku, og jafnvel ekki í Noregi Hér er hvorki orð né atburður sem truflar, af því að það sé óviðkomandi, eða áhrif frá nútímanum; og þetta stranga samræmi hefir góð áhrif.

Gallinn hjá Indriða er sá, að hann heldur sér alt of fast við söguna. Í öllu leikritinu er ekki ein einasta setning, sem ber vott um, að það sé hugsað eða skrifað í fyrra eða hittifyrra; það snýr sér að engu leiti til manna, sem lifa nú á dögum, reynir ekki að vekja eftirtekt þeirra eða samhug með nokkurri grundvallarhugsun, sem nú á dögum laðar hugi okkar að sér. Persónurnar standa þarna eins og höggnar út í granít og leikurinn hefir sömu áhrif á okkur eins og gömul saga, gamlar fortíðarmenjar; menn og mannlíf, sem er löngu horfið og ekki snertir okkur öðruvísi en sem segja má, að alt mannlegt snerti okkur. Hvorki "kongsefnin" af norskum leikjum né "Ásgerður" af dönskum leikjum (E. Brandes) halda sér svo fast við söguna, þrátt fyrir það, þótt höfundarnir hafi gert sér alt far um að skilja hana. . . . Í saman-

†)Það var leikið í Ernst Drucker leikhúsi í Hamborg 1913 og var mætavel tekið. Óðinn (1918) 13:91.

*)Sværd og Krumstav . . oversat . . af Henrik Ussing. Med en Indledning af Holger Wiehe. Smaaskrifter udg. af Selsk. f. germansk Filologi Nr. 5. Kbhavn, J. Frimodt, 1901.

**)Swert und Krummstab . . Ubertr. . . von Carl Kuchler, Berlin, E. Ebering, 1900.

***)Sword and Crozier . . transl. . . by Lee M. Hollander. Poetlore, Vol. XXIV: 225-283. (Boston, 1912). Á næstu síðum (284-89) er ritgerð eftir Hollander: "I. E.: Icelandic Dramatist and His Saga Drama." Sbr. Breiðablik 7:143.

****)Ísafold 12. júlí 1899; Politiken 19. nóv. 1900 (Georg Brandes), tekinn upp í Bjarka 1901, og Sunnanfara (1900) 8:11. Eimreiðin (1900) 6:133-135 (Olaf Hansen); Litterarisches Centralblatt 3. febr. 1900, bls. 264 (Dr. Friedrich). Sbr. og rit þeirra Kuchlers og Poestions; K. lofar ritið mjög, P. dregur úr því, játar þó að það sé bezt þeirra ísl. leikrita, er þá voru kunn.

burði við þá virðist manni þetta leikrit þurt."

Þessi dómur lýsir auðvitað Brandesi alt eins mikið og leikritinu. Hann saknar hinna brennandi spursmála dagsins í því. Auk þess er hann, þrátt fyrir dálæti sitt á Íslesdingum og sögum þeirra, alveg utan og ofan við skilning Íslendinga á þeim. Eg get ekki skilið, að nokkrum Íslendingi, sem lesið hefir sögurnar, þyki leikur þessi þur. Hann er fullur af sama lífi og þær; mál þeirra og stílblær er stælt af mikilli list, — eins og Brandes raunar játar. Að mörgu leiti er dómur Hollanders um leikinn sanngjarnari, enda er það hið ítarlegasta og bezta, sem um leikinn hefir verið skrifað. Hollander þykir það hinn mesti galli á byggingu leiksins, að áhrif biskups á Kolbein í leikslok koma eins og skrattinn úr sauðarleggnum; en hitt verður hann að játa, að það sé í samræmi við hugsunarhátt aldarinnar. Í þá tíð létu menn ekki óhegnt ganga á heiður sinn og sóma; það var siðalögmálið, sem menn lifðu eftir, — ef menn annars lifðu samkvæmt nokkru siðalögmáli á þeim agasömu tímum. En með dauðann fyrir dyrum litu þó margir til kirkjunnar, því hún ein gat frelsað þá frá eilífum kvölum. Af þessu skýrist undanhald Kolbeins, sem fyrir skömmu hafði verið svo hætt kominn, að hann var talinn af. Hinu má heldur ekki gleyma, hvern þátt kirkjan á í hinu friðsama hugarfari Brands og Jórunnar.

## VI.

Varla verður annað sagt með sanni en að Indriða hafi heppnast vel að klæða nútíð og sögu í leikritsform. Samt fór hann ekki lengra á þeirri braut, en sneri aftur til æskuviðfangsefnanna, þjóðsagna-leikjanna. Eflaust hafa vindar tízkunnar í heimi bókmentanna ráðið nokkru um þetta afturhvarf hans til síns upprunalega eðlisfars. Þess er áður getið, að fyrstu gárar symbólismans höfðu snortið hann, er hann setti saman "Skipið sekkur". En alt frá því um 1890 hafði þetta afturkast frá realisma Brandesar fengið vaxandi fylgi danskra rithöfunda*) og norrænna höfunda yfirleitt. Sem dæmi upp á það, hve mjög hinir nýju straumar (symbolisme, impressionisme) gátu mint á hina fornu rómantík, þarf ekki annað en nefna "Gösta Berlings saga" eftir Selmu Lagerlöf. Hún kom út 1891-92. Upp úr aldamótunum varð stefnan auðugri að áhugamálum, hugsjónum, sem barist var fyrir (idealisme). Meðal annars fékk átthagaástin og þjóðræknistilfinningin byr í seglin.**)

En þetta tvent: djúp symbólík í efnismeðferðinni og virk þjóðræknisstefna sem undiralda leiksins, er hvorttveggja nýjungar, sem greina "Nýjársnóttina" yngri***) frá frumleiknum.

*)Sbr. t. d. grein H. Ussings: "Nútíðarbókmentir Dana" Eimr. 1898 4:161-225.

**)Sbr. t. d. "Idealismen" af Einar Skovrup, í Hovedtræk af nordisk Digtning i Nutiden I. bls. 247-252.

***)Nýjársnóttin. Sjónleikur í fimm þáttum. Reykjavík, Guðm. Gamalíelsson, 1907.

Yfirleitt er munurinn á gömlu og nýju "Nýjársnóttinni" mikill, þrátt fyrir það, þó að aðalþráður leikritsins sé óbreyttur, og þrátt fyrir það, þótt margar af persónunum, einkum í mannheimum, sé lítt breyttar. Munurinn liggur einkum í því, að Álfheimar hafa að miklu leyti verið umskapaðir. Sennilega hefir "Midsummer Night's Dream" eftir Shakespeare átt sinn þátt í þessari nýsköpun álfheima með erlendum gullsölum og konunglegri dýrð.*) Til merkis um það er hundshaus Gvendar snemmbæra, sem áþreifanlega minnir á asnahaus Bottoms í leik Shakespeares. Veruleg umbót í byggingu leiksins liggur í því, að Jón, unnusti Guðrúnar, er nú gerður að afsprengi álfkonu og mensks manns, og þannig settur milli tveggja heima sem báðir krefjast hans. Að vísu er hann sjálfur nálega sami leiksoppurinn og hann var í gamla leiknum, en þetta gefur þó tilveru hans dramatiskt gildi og dýpkar hlutverk þeirra Guðrúnar og Áslaugar álfkonu. Auðvitað þarf að skapa álfkonur til að heilla hann; það eru dætur hins volduga Álfakonungs: Ljósbjört, Mjöll, og hin óviðjafnanlega Heiðbláin, sem strax leggur alla ást sína við þennan endurborna Ólaf liljurós. Indriði hefir sagt frá því, hversu þessar þrjár álfkonur sköpuðust í hug hans. Set eg hér kafla úr bréfi hans um það:*) "Í páskafríi gekk eg suður í Hafnarfjörð, og hafði þar herbergi í friði. Í Fossvogi byrjaði snjórinn að falla þétt; upp í kálfa var hann. Eg heyrði til lóunnar niður við sjóinn og varð hryggur yfir því, að hún skyldi falla af kuldanum. Mjöll segir: "Eg kæfði þar nokkrar kindur í fönn. Þeim verður líka að líkna, sem guðir og menn hafa gleymt á hjarninu." Eg settist inn í Hafnarfirði og kem út um kvöldið; þá er komið frost og heiðríkja og norðurljós. Snjórinn og frostið= Mjöll. Heiðríkjan = Heiðbláin, og Norðurljósin = Ljósbjört og óstaðlyndið. Heiðbláin skrifaði eg svo með allri þeirri hjartahlýju, sem eg átti til, og ann alt af fígúrunni." Því er heldur ekki að leyna, að Heiðbláin er ein ágætasta persónan í leiknum, hún er persónugervingur konunnar, sem lifir fyrir ást sína eina, og deyr þegar henni verður ekki fullnægt. Systur hennar eru bleikar hugmyndir í samanburði við hana.

Álfakarlinn í gömlu Nýjársnóttinni er hér orðinn að voldugum Álfakonungi, en skap hans er óbreytt og það ekki aðeins í garð mannanna, sem hafa gert á hlut hans,**) heldur er hann líka argur harðstjóri með álfum, er stynja undir álögum hans og lögleysum. Kunna álfar því illa, en fáir þora þó í gegn að ganga þegna hans,

---

*) Álfakongurinn, kongsdóttirin og höllin í hömrunum kemur raunar alt fyrir í "Álfakóngurnn í Seley." Ísl. þjóðs. og æfintýri I. 89-93.

*) Sbr. og Leikskrá Leikfél. Rvíkur IV: 2 (1907-08) með grein um I. E. eftir E. H. (Kvaran). Segir þar, að þetta hafi verið á miðvikudag í dymbilviku 1907.

**) Um hegningu álfa tók Indriði sumt úr "Tungustapa," Ísl. þjóðs. og æfintýri I. 31.

nema Áslaug álfkona. Hún bjargar Guðrúnu undan ofsókn Álfakonungsins og hjálpar henni til að leysa Jón úr höftum þeirra. Hún er , raun og veru persónugerfingur réttlætis og frelsis meðal álfa, enda hylla þeir hana þegar sem drotningu sína, eftir að Svartur þræll hefir unnið á Álfakónginum. En um leið er hún heilladís landsins sjálfs, eins og sjá má af því, að töfrasproti hennar og merki er ekkert annað en hinn bláhvíti fáni, sem íslenzkir sjálfstæðismenn í þá daga börðust undir til fylsta stjórnmálafrelsis.*) Frá því sjónarmiði táknar Álfakóngurinn auðvitað veldi Dana á Íslandi; og er hér þá komið að því, sem nefnt var í upphafi, að undiralda leiksins væri þjóðræknisstefna höfundarins. Annars fær höfundurinn oft tækifæri til að leggja gagnrýni sína á mannheimum — og löndum sínum, — í munn álfanna og berst þannig oft fyrir hugsjónum einnig á öðrum sviðum en hinu pólitíska.

Eins og áður er að vikið eru flestar persónur í mannheimum lítið breyttar. Þó hefir skapgerð Guðrúnar fengið meiri festu í sig, en hinar kómísku persónur Sigga vinnukona og einkum Gvendur snemmbæri hafa verið bættar að mun. Enginn sem les eða sér Nýjársnóttina getur gleymt þessum gamla, skagfirzka flakkara og mathák né hinum hagkvæmu hyggindum hans og þurru fyndni.

Aðalstyrk "Nýjársnæturinnar" er þó hvorki að finna í glettum Gvendar snemmbæra né í hinum nokkuð flókna gangi viðburðanna, heldur í skáldskap þeim, sem höfundi hefir tekist að blása í alt leikritið eins og lifandi anda. Aldrei hefir hin lýriska æð Indriða verið skýrari en einmitt í þessum djarfa leik ímyndunaraflsins með álfa og menn, ástir og hugsjónir, íslenzka grá-hnjúka í mánaskini og erlendar skraut-hallir í klettunum. Það er því engin tilviljun að "Nýjársnóttin" hefir orðið vinsælust allra leikrita Indriða. Hún var fyrst leikin af Leikfélagi Reykjavíkur 26. desember 1907,*) alls 18 sinnum þá um veturinn, en tvisvar sumarið eftir (11. 18. ág. 1908 fyrir Paul Hermann professor). Næst var hún leikin 1910 um haustið (7 sinnum), og vorið 1911 (11. marz). Þá var hún tekin upp veturinn 1917 og gekk 25 sinnum. 1. apríl þann vetur var talið, að hún hefði verið leikin í 50. sinn, og byrjaði þá leiksýningin með "Formála í leikhúsinu" eftir Bjarna Jónsson frá Vogi,**) en að sýningu lokinni báru menn Indriða í gullstól um sviðið. Enn var hún tekin upp veturinn 1919-20 (alls 10 sinnum), veturinn 1923 (eftir jól, alls 12 sinnum, 1. marz í 75. sinn). Síðast

---

*)Knut Gjerset, History of Iceland, bls. 432.

*)Óðinn (1908) 10:79-80 (dæmd nokkuð einhliða frá realistisku sjónarmiði); Lögrétta 29. jan. 1908; Þjóðólfur 3. jan. 1908 (pólitíski liturinn á leiknum enginn galli); Ísaf. 28. des. 1907; Huginn 2. jan. 1908 (upplýs. um leiktjöld og dansa); Ingólfur 9. febr. 1908 (fjöldi leiksýninga, eins dæmi um ísl. leik). Sbr. og réttsýnan ritdóm eftir E. H. Kvaran i Skírni (1908) 82:87-88.

**)Formáli í leikhúsinu þá er Nýjársnótt Indriða Einarssonar var sýnd fimtugasta sinn 1. apríl 1917. Rvík, G. Gamalíelsson, 1917. 12 bls. Sbr. og blöðin: Lögréttu 4. apr. 1917; Ísafold 31. marz 1917 ("Fágætur leikviðburður"); Höfuðstaðurinn 2. apr. 1917; Ísafold 11. marz 1923.

var hún leikin veturinn 1928-29 þá alls 15. sinnum, og hafði þá 10. febrúar verið leikin 91 sinn. — Á Akureyri var þessi gerð leikin veturinn 1923-24, en hin eldri gerð hafði verið leikin þar um aldamótin.*) Nánar er ekki tækilegt að rekja sögu þessa vinsæla leiks.

Auðvitað er hætt við því, að pólitískum andstæðingum Indriða hafi lítt getist að "Nýjársnóttinni," en flestir munu þó hafa orðið að viðurkenna, að með því var ritinu á engan hátt spilt, enda mun hin pólitíska stefna ritsins síðar hafa farið alveg fram hjá mönnum. Man eg það, að eg hafði enga hugmynd um hana, er eg sá "Nýjársnóttina" 1917. — En það bezta sem um "Nýjársnóttina" hefir verið skrifað er formáli Paul Hermanns fyrir þýðingu hans: Die Neujahrsnacht. Islandisches Marchendrama in 5 Akten von Indridi Einarsson . . . Eingeleitet und erklart von Paul Hermann. Torgau, 1910.

Veturinn eftir að "Nýjársnóttin" yngri var leikin í fyrsta sinn tók Leikfélagið enn nýtt leikrit eftir Indriða til meðferðar. Nefndist það "Stúlkan í Tungu; sjónleikur í 5 þáttum"**) og var það í fyrsta sinn leikið 26. des. 1909 en alls 7 sinnum. Aðsókn var fremur lítil, leikurinn mun hafa þótt lélegur í samanburði við "Nýjársnóttina," auk þess gerðu snöggvar senubreytingar hann erfiðan á leiksviði.

*)Íslendingur 21. des. 1923.

**)Sjá leikskrá Leikfél. Rvíkur VI:2 1909-1910.

Leikurinn var saminn upp úr þjóðsögunni: "Bóndadóttirin í Hafrafellstungu" í Huld I:62-69. Er það eitt af mörgum afbrigðum af æfintýrinu um þær karlsdætur Ásu, Signý og Helgu. Partur úr leiknum hafði verið prentaður í Sunnanfara 1901,*) svo hann er að minsta kosti frá því um aldamót. Eftir þessum kafla að dæma virðist verkið hafa verið miðlungi gott aðeins.

## VII.

Þá er loks komið að síðasta leikriti Indriða: "Dansinum í Hruna." Þess er áður getið, að þetta efni tók að sækja á hann um það leyti sem hann var að lesa undir stúdents-próf. Eftir það lá það á kafi undir realisma, landsreikningum og fleiru, þar til 1916, að höfundurinn fór að draga það fram úr rykugu hugskotinu. Sumarið 1917 var hann suður í Hafnarfirði að fást við leikritið og hafði þá grindina tilbúna, "en myndirnar innan í umgerðinni voru sumar að skýrast en sumar voru langt úti í þokunni."**) Ræddi hann leikinn við húsmóður sína, og gaf hún honum nokkrar bendingar, meðal annars að hann skyldi hafa djákna í leiknum. Næsta sumar mun hann enn hafa fengist við leikinn, að minsta kosti var hann fullbúinn, nema síðustu tvær vísurnar, haustið 1918. Endirinn vildi samt ekki verða til, og nú var ekki að fara í smiðju til húsfreyju, því hún var

*)Sunnanf. IX:62-64, 68-70 ("Kafli úr óprenuðum sjónleik" eftir I. E.).

**)Sbr. "†Frú Kristiana Snæland" eftir I. E. Ísafold 12. okt. 1918. Á heimili hennar var I. E. vanur að búa. Hún dó 30. sept. 1918.

þá látin. Eftir hálfsmánaðar dvöl án árangurs kom þeim húsráðanda og Indriða saman um það, að hann skyldi sofa eina nótt í rúmi húsfreyju, ef ske kynni að hann dreymdi hana. Í stað þess að sofa varð Indriði andvaka og dreymdi nú í vökunni síðustu bænarvísurnar í "Dansinum í Hruna." Þessi einföldu stef til Maríu kyrra það hafrót tilfinninganna, sem sokknun kirkjunnar veldur í hugum leikenda og áhorfenda.

Af ofanskráðu sézt, að leikurinn hefir verið fullgerður í nóvember 1918, en hann kom ekki út fyr en þrem árum síðar, á sjötugsafmæli höfundarins.*) Ekki þóttust menn þó sjá ellimörk á leiknum, þvert á móti var það almannarómur, að hér hefði hann bæði lagst dýpst og hér hefði honum tekist bezt.**) Leikurinn er ólíkur hinum fyrri leikjum Indriða að því, að hann er mestallur í bundnu máli, rímlausu (blank verse), sem hann raunar hafði brugðið fyrir sig á stöku stað áður, t. d. í "Nýjársnóttinni." Er þetta atriði eitt af mörgum sem bendir aftur yfir realismann til daga rómantíkurinnar.

Eins og fleiri leikir Indriða, er þessi bygður úr efnivið þjóðsagnanna. Hér er notuð sagan af "Kirkjusmiðnum á Reyni,"***) sem býðst til að byggja kirkjuna fyrir bónda (hjá Indriða: prestinn í Hruna) gegn því, að hann segi sér nafn sitt að smíðinni lokinni, eða láti af hendi einkason sinn á sjötta ári að öðrum kosti. Þá er hér og notuð sagan um "Sveitadrenginn,"*) sem lízt vel á biskupsdótturina og fær hennar með tilstyrk ókunnugs manns, sem ekkert vill fyrir hafa — nema sjálfan hann eftir 20 ár. Til að bjarga honum lætur biskup hann standa fyrir altari þá stund, sem sá gamli á að sækja hann, og bjóða öllum sem birtast honum að bergja á messuvíninu. Samskonar er sagan "Kölski kvongast";**) þar má drengurinn ekki fara út fyrir hringinn, nema til þess manns, er réttir honum hönd sína inn fyrir hann í Jesú nafni. Eftir þessum sögum sníður Indriði freistingar Ógautans við Lárenz í kirkjunni í Hruna. En aðal-uppistaða leiksins er þó sagan um "Dansinn í Hruna,"***( þar sem presturinn og söfnuður hans dansa í kirkjunni á sjálfa jólanóttina, þrátt fyrir ítrekaðar viðvaranir móður hans, þar til kirkjan sekkur. Er sú saga ein af römmustu galdratrúar-sögunum í þjóðsögunum og er skemst frá því að segja, að hún hefir í engu tapað sér í meðförum Indriða.

Leikurinn er annars látinn gerast 1518, undir kvöld kaþólskunnar á Íslandi; hinar mildu plágur

---

*)Fyrst prentaður í Óðni 17:9-60, síðan í bókarformi: Dansinn í Hruna. Sorgarleikur í V þáttum úr íslenzkum þjóðsögum. Reykjavík, Prentsm. Gutenberg, 1921.

**)Sbr. Vísir 2. maí 1921, Ísafold 28. sept. 1921 og Mbl. 2. okt. 1921 (útdráttur úr dómum margra innan lands og utan); Austurland 11. júní 1921; Skírnir 95:163-165 (Á. Páls.).

***)Ísl. þjóðs. og æfintýri I:58.

*)Ísl. þjóðs. og æfintýri II:14-15.

**)Ísl. þjóðs. og æfintýri II:13-14.

***)Ísl. Þjóðs. og æfintýri II:7-8, sbr. og söguna um "Bakkastað," s. st. 6-7.

15. aldarinnar enn ferskar í minni manna. Að ytri makt og veldi hefir kirkjan aldrei verið eins sterk, en innviðir hennar eru feysknir orðnir, hún drotnar ekki lengur yfir hugum manna í mildi og kærleika, heldur með ágirnd og harðræðum. Fáeinir halda enn fast við kirkjuna meir af trygð en sannfæringu, aðrir reyna að drekkja minningum fortíðarinnar og ógnum framtíðarinnar í drykkjum og dansi, loks eru þeir sem rísa gegn kirkjuvaldinu leynt eða ljóst.

En á bak við menn og málefni gnæfir Ógautan, hinn "dæmdi fursti þess, sem fallið er, en misssist tíðast aftur" (bls. 37). Nafnið er úr fornaldarsögunum,*) en hann er raunar enginn annar en Kölski þjóðsagnanna á nýjum kjól, sniðnum eftir búningi Mefistófeles í Faust. Hann hefir bygt kirkjuna í Hruna og tilskilið sér son prests að launum, en þá, sem oftar, hefir hann orðið af kaupinu. Nú er hann kominn aftur í gerfi útlends skipherra á kavel-skipi, sem hann brýtur á söndunum fyrir sunnan land,**) en bjargar þó gullkistum sínum, vitandi vel, að auðurinn er afl þeirra hluta sem gera skal. Hann dregur enga dul á óvild sína til kirkjunnar og Stefáns biskups; hjálpar Lárenz, öðrum syni gamla prestsins í Hruna, til þess að ná í Fríði frændkonu biskups; móti vilja hans, en eggjar Þorgeir bróður hans, hinn þáverandi prest í Hruna, til opinberrar uppreistar gegn kirkjunni, svo að biskup setur hann og kirkju hans í bann. Eftir að hafa hjálpað glæpamanninum Gottskálk í Berghyl til að drepa biskup með svartagaldri, tekur hann að lokum hlut sinn með því að sökkva kirkjunni með þeim séra Þorgeiri, djákna hans og Gottskálki gamla, ærum og óðum af dansinum.

En eins og oftar er sigur hans aðeins hálfur. Hann missir Lárenz, eins og Pétur Gaut, af því að hann hefir konur að bakhjarli, sína góðu móður, Unu og konu sína, Fríði. Solveig, sem ann Þorgeiri presti, er alt of saklaus til að fylgja honum; en Hlaðgerði, þessa óhamingjusömu og hartleiknu stúlku, sem ekki fær þann sem hún elskar og ekki vill þann sem elskar hana, dregur unnusti hennar, dauður, út úr dansinum rétt fyrir leikslokin.

"Höfundur hefir af mikilli list fest leyniþráð millum hins feiknumfylda skuggaheims þjóðsagnanna og sögulegra atburða sem allir þekkja," segir Árni Pálsson um leikinn, og er það hverju orði sannara. En því má ekki gleyma um þennan leik, að hann er orðinn til meðan heiftarlogar stríðsáranna léku við himin sjálfan. Sá hildarleikur kipti grundvellinum undan trú fjölda manna, og jafnvel hinir bjartsýnustu menn komust ekki hjá nokkrum efa um tilgang tilverunnar. Eflaust hefir Indriða farið svo, en þó má sjá trú hans í svari Ógautans til Serapíels, er hann spyr: hvenær endar alt vort stríð?:

*) Örvar Odds saga.

**) Sögnin um þetta skipstrand í "Biskupaannálum Jóns Egilssonar," Safn til sögu Íslands I:46-47.

Eg veit það sumt, en sumt er vafið reyk.
Frá Jahve eitt sinn kom það kærleiks boð:
Menn, elskið yðar fjendur! Blessið þá
sem bölva yður mest! Ef sjálfur hann
þeim lögum vildi fylgja, er leggur hann
öðrum á herðar, sigrar alkærleikinn
og altilveran sameinast í sátt,
en englar og sálir halda leystar heim.—

Eins og fyrr er styrkur Indriða hér í byggingu leiksins og sýningunum; einna áhrifamestur er annar þáttur með særingunum í Berghyl. Þó eru sumar persónurnar ágætar, eins og Þorgeir prestur og Hlaðgerður. Bæði særingarnar og danskvæðin eru ágætlega stæld eftir fyrirmyndum hjá Ólafi Davíðssyni (Íslenzkar gátur, skemtanir, vikivakar og þulur. 1887-1903).

"Dansinn í Hruna" var leikinn í Reykjavík af Leikfélaginu 26. desember 1925 og síðan, alls 17 sinnum um veturinn.*) Við frumleikinn á annan í jólum var skáldinu fagnað með dynjandi lófaklappi og stóreflis blómsveig; en sókn var síðan ágæt að leiknum, þrátt fyrir það, þó blöðin teldu, að Leikfélagið hefði að sumu leyti reist sér hurðarás um öxl með sýningu hans. — Óskandi væri að hinn aldurhnigni höfundur lifði það að sjá leikinn enn á ný ganga yfir svið hins nýja íslenzka þjóðleikhúss.

"Dansinn í Hruna" er síðasta leikrit Indriða, en þó á hann enn eitthvað í skrifborðs-skúffu sinni bæði frá eldri og yngri tímum, þar á meðal heilt leikrit um Jörund hundadagakóng, hvort sem honum lízt að birta það eða ekki.

*)Sbr. leikskrá Leikfél. Rvíkur XXII:3 (1925-26), og blöðin: Mbl. 29. des. 1925; Alþbl. 2. jan. 1926; Vörður 4. jan. 1926. Dagblaðið 24., 28. des. 1925, 27. jan. 1926.

## VIII.

Ekki má skiljast svo við sögu Indriða að ekki sé rakin önnur störf hans, einkum í þágu leiklistarinnar á síðustu áratugum æfi hans. Þau greinast aðallega í tvo flokka: þýðingar á erlendum leikritum fyrir hið íslenzka leiksvið og störf til undirbúnings þjóðleikhúss-byggingar. En auk þess má nefna hér það, að hann hefir um langt skeið safnað gögnum til sögu leiklistarinnar á Íslandi, t. d. hefir hann með eigin hendi haldið dagbækur Leikfélagsins*) frá upphafi til 1930, safnað öllum leikskrám þess í bundnar bækur og skrifað ítarlegar blaðagreinar um það og leiklistina í landinu. Merkastar þessara greina eru "Leikfélag Reykjavíkur þrítugt" Lögrétta 24. marz 1927 og "Leikfélag Akureyringa" Óðinn (1927) 23:40-47. Hér má og nefna dánarfregn eftir frú Stefaníu Guðmundsdóttur, Vísi 8. febrúar 1926. Í því sambandi má einnig minna á það að hann hefir skrifað fjölda æfiminninga (einkum í Vísi 1926 og síðar) manna, sem hann hefir þekt á sinni löngu æfi. Þessar dánarminningar hafa sérstakt gildi fyrir það, að Indriði hefir einstakt lag á því að bregða upp svipleiftrum úr lífi mannanna er lýsa þeim betur en langar ritgerðir.

Þess er áður getið, að hann þýddi fyrir aldamót" Milli bar-

*)Acta Leikfélag Reykjavíkur frá 18. des. 1897—1. júní 1930.

daganna" (með Jóni Ólafssyni), "Víkingana á Hálogalandi" (með E. Ó. Briem) og "Æfintýri á gönguför."*) "Álfhól" (Elverhöj) eftir J. L. Heiberg mun hann og hafa þýtt snemma á árum, því hann talar um að vandi hafi verið að þýða vísurnar, þar eð flestar Reykjavíkur stúlkur hafi kunnað þær og sungið með gítar-undirspili.**) Vísurnar voru prentaðar 1912 ásamt hlutverkaskrá, þegar Leikfélagið lék leikinn. Miklu síðar þýddi hann "Kinnarhvolssystur" eftir Carsten Hauch, fyrst teknar upp af Leikfélaginu veturinn 1910-11, og enn miklu síðar "Dvölina hjá Schöller," gamanleik eftir Carl Laufs, er leikinn var fyrst haustið 1925.

En langmerkastar eru þó vafalaust þýðingar hans af leikjum Shakespeares, er hann tók að vinna að 1922, til þess að þjóðleikhúsið hefði þær við hendina er það tæki til starfa. Í því skyni reyndi hann að gera þýðingarnar svo úr garði að þær væri auðmæltar fram á leiksviði, en í því atriði þótti honum hinum eldri þýðingum helzt áfátt, einkum þýðingu Eiríks Magnússonar af Storminum. En þessa leiki hefir hann þýtt:

1. "Þrettándakvöld" (Twelfth Night).
2. "Sem yður þóknast" (As You Like It)
3. 4. "Henrik konungur, IV. Söguleikur, I. og II. partur."
5. "Kaupmaðurinn í Feneyjum" (Merchant of Venice).
6. "Jónsvökudraumur" (Midsummer Night Dream).
7. "Vetraræfintýrið" (Winters Tale).
8. "Mikil fyrirhöfn út af engu" (Much Adoo About Nothing).
9. "Júlíus Cæsar. Sorgarleikur."
10. "Líf og dauði Richard konungs III."
11-13. "Henrik konungur VI. I.-III. partur."
14. "Cymbeline."

Af þessum fjórtán leikjum hafa tveir verið leiknir. "Þrettándakvöld" var leikið á 362 ára afmæli Shakespeares 23. apríl 1926, og var það í fyrsta sinn að leikur eftir hann var sýndur á Íslandi, enda vel til sýningarinnar vandað.*) Gekk það alls 14 sinnum. Veturinn eftir var "Vetraræfintýri" tekið upp á annan í jólum (26. des. 1926) og gekk alls 16 sinnum,**) en síðan hafa báðir þessir leikir verið leiknir nokkrum sinnum, þótt hér verði ekki rakið.

Sama árið og "Nýjársnóttin" kom út — 1907 — skrifaði Indriði grein í Skírni (81:142-156), sem hann kallaði "Þjóðleikhús" og þar sem hann í fyrsta sinn, svo eg viti, vekur máls á því, að íslenzka þjóð-

---

*)Prentað í Rvík (G. Gamalíelsson) 1919; en "Söngvar og hlutverkaskrá úr Æfintýri á gönguför eftir C. Hostrup" var prentað í Rvík (Gutenberg) 1913.

**)Bréf 4. okt. 1934. "Kvæði úr Álfhól J. L. Heibergs." Þýtt hefir Indriði Einarsson. Gutenberg, 1912.

*)Sbr. leikskrá Leikfél. Rvíkur XXII:5 (1925-26) með ritgerðum um Shakespeare, leikhús á hans dögum, Söngvum úr "Þrettándakvöld," o. fl.

**)Sbr. leikskrá Leikfél. Rvíkur XXIII:4 (1926-27), með söngvum úr "Vetraræfintýri" o. fl. Sbr. og Vísi 23. des. 1926 (eftir I. E.).

in eigi að byggja sér leikhús til þess að kóróna menningu þá, sem sprottið hefir upp úr þjóðræknishreyfingu 19. aldarinnar. Greinin er prýðilega skrifuð og stórmerk, ekki aðeins sem hið fyrsta innlegg í þjóðleikhússmálinu, heldur, heldur líka sem skýring á "Nýjársnóttinni" og lykill að skoðunum Indriða sjálfs. Leiklistin, segir hann, er list listanna, blómin á menningargróðri þjóðanna, og leikritalistin er fjærsta takmark skáldskaparins, efsta rimin í stiganum. Hún er yngri en ljóðlist (lyric) og hetjukvæði (epos), hún verður til með þjóðunum, er þær hafa náð vissum þroska með fullkomnu þjóðar- og einstaklingsfrelsi. Svo var það hjá Grikkjum 500 árum f. Kr., svo var það og á endurreisnar- og siðbótartímunum í Evrópu.*) Svo kemur spurningin: erum við komnir svo langt á menningarbrautinni? Já, ljóðlistin hefir staðið í blóma síðustu 60-70 árin, hetjuljóðin höfum við að vísu ekki átt, en í stað þess skáldsagnalistina eftir 1848. Ræðulistin hefir átt kost á að þroskast síðan Alþingi var endurreist, en tónlist og málaralist hafa aldrei verið fjörugri á Íslandi en nú. Þar við bætist, að útlendir mentavinir hafa bent á það, að miðdepill bókmentalífsins sé alt af að færast norður á bóginn í álfunni. "Endurfæðingin byrjaði á Ítalíu og Spáni, settist að í Frakklandi; flutti sig þaðan til Englands. Var lengi í Þýzkalandi, síðan á Rússlandi, er nú í Noregi, — en hvert á miðdepill bókmentalífsins að flytja sig frá Noregi?"

Til Íslands! hugsar hann, þótt hann segi það ekki. Íslendingar eru einmitt mátulega þroskaðir til að veita viðtöku leikhúsi, leikritasmíð og leiklist. Bönd kirkjunnar hafa losnað af hugum manna, sömuleiðis veraldleg höft, eins og t. d. vistarbandið fyrir 14 árum(!). Og þjóðernistilfinningin hefir lifað, alt síðan Eggert Ólafsson vakti hana. Fjölnismenn vöktu málið, Jón Sigurðsson sjálfstæðistilfinninguna. 1873 fann þjóðernið sál sína í orðum skáldsins "Lyft vorri þjóðsál um þúsund ár, upp mót sólu," en síðasti votturinn um þjóðernistilfinninguna eru samþyktir um land alt að taka upp íslenzkan fána.

Svo sterk er trú Indriða á þjóðernistilfinninguna. Hann sér hana fyrir sér sem Áslaugu álfkonu með bláhvíta fánann eftir unninn sigur. "Allar listir og mentir, sem íslenzkir menn iðka, ber hún á herðum sér, og fyrir hennar aðstoð náum vér innan skamms efstu riminni í menningarstiganum, eða fáum þjóðleikhús, og fyr en það er fengið eru Íslendingar ekki orðnir mentaþjóð."

Það sem eftir er greinarinnar eru praktiskar áætlanir um leikhússbygginguna og má sleppa þeim, þó merkar séu. En hinu má ekki sleppa, að sýna hve draum-

---

*) Hér vitnar hann til Gustav Freytags "sem eg fyrir mitt leyti tek fram yfir alla þá, sem hafa ritað um list-reglur fyrir leikritagerð." (Ísafold 4. sept. 1915 í grein um Dr. Al. Jóhannesson).

spakur Indriði reyndist um leikritasmíðina. Ef til vill hefir hann skrifað í starfsgleði yfir "Nýjársnóttinni." Hitt gat hann ekki vitað þá, að fáum árum síðar mundu þeir Jóhann Sigurjónsson og Guðmundur Kamban skáka öllum, er þá fengust við leikritagerð í Danmörku.*) Hann gat bent með stolti á þá staðreynd í næstu grein, sem hann ritað um málið, í Óðni (1915, 10:73-84): "Íslenzkt leikhús." Þar við bættist, að efnahagur landsmanna hafði vaxið hröðum skrefum, svo nú þóttist hann geta eggjað landa sína lögeggjan:

"Í nafni listarinnar, vegna íslenzks þjóðernis og vegna heiðurs þjóðarinnar, krefst eg þess, að hér verði reist sæmilegt leikhús." Árinu áður hafði honum komið í hug hvernig hægt væri að afla fjárins á sem auðveldastan og réttlátastan hátt. Það var með því að leggja skatt — 10% — 20% — á skemtanir landsmanna, einkum Reykvíkinga.**) Með þeim hætti var hægt að láta jafnvel lélegustu skemtanir eins og Báruböll og lélegar kvikmyndir styðja gott málefni. Indriða tókst að vekja áhuga Alþingis fyrir hugmyndinni, enda var hún, mest fyrir atfylgi Jónasar Jónssonar, síðar ráðherra, tekin upp í lög um skemtanaskatt 22. nóvember 1918 og 20. júní 1923; en þau lög gengu í gildi 1. október 1923. Nefnd var skipuð af stjórninni til að hafa eftirlit með skemtanaskattinum og ráða leikhúsbyggingunni; átti Indriði að sjálfsögðu sæti í henni. Alt gekk að óskum, skemtanaskatturinn hringlaði í kassanum, og menn fóru að deila um það, hvar þjóðleikhúsið ætti að standa,*) en upp átti það að vera komið 1930. "Kemst þó seinna fari," sagði Indriði,**) en 1929 var þó svo langt komið málinu, að staðurinn var ákveðinn við Hverfisgötu á hægri hlið Landsbókasafnsins.***) Og þannig atvikaðist það að á því herrans og hátíðar ári 1930 var virkilega hafin vinna við grunn þjóðleikhússins,†) og Indriði gat a. m. k. lýst útliti þess fyrir Alþingishátíðargestunum.‡) Að vísu gekk hann þess ekki dulinn, að það yrði nokkur ár á uppsiglingu, "It is a long way to Tipperary" skrifar hann. En þrátt fyrir biðina og ýms vonbrigði önnur lætur hann ekki hugfallast, en heldur áfram að hvetja menn til starfa og ráða mönnum heilt í leikhúsmálinu, af sinni löngu reynslu og miklu þekkingu.§)

---

*) Svo segir t. d. H. Kjaergaard: Die dänische Literatur der neuesten Zeit. Kopenhagen, Levin & Munksgaard, 1934, bls. 184.

**) Sbr. "Þjóðleikhússhugmyndin" eftir I. E. Mbl. 8. apr. 1923 og "Þjóðleikhúsið." Viðtal við I. E. Mbl. 15. jan. 1925.

*) Sbr. I. E.: "Leikhúsið, sem er í fæðingu" Mbl. 27. jan. 1925, og I. E. "Þjóðleikhúsið nýja" Dagblaðið 12. febr. 1925.

**) "Leikhúsmálið" eftir I. E., Ísland 21 maí 1927.

***) Sbr. I. E. "Þjóðleikhúsið" Alþbl. 27. nóv. 1929 og Vörður 7. des. 1929.

†) Sbr. Ísaf. 27. ág. 1930.

‡) "Leiklist og leikhús," Fálkinn Alþ.hát.-blað, bls. 40-41.

§) I. E.: "Sjónleikir og þjóðleikhús" Eimreiðin 1932, 38. 285-295. Árið 1934 fór hann til Danmerkur og notaði þá tímann til að kynna sér alt um leikhús og skrifa um það í Vísi 2.-19. sept. 1924.

Og sumarið 1933 var þjóðleikhúsið fullbúið — að utan. Þar stóð það, á slæmum stað að vísu, en þó einkennilega íslenzkt í sniðunum, ólíkt öllum öðrum leikhúsum um víða veröld. Kreppan svarf svo að ríkissjóði, að hann ákvað að gleypa skemtanaskattinn, og gerir það enn í dag. Svo að enn bíður þjóðleikhúsið innviðanna, — hve lengi veit enginn.

Í "Endurminningum um Jón Sigurðsson"*) segir Indriði að lokum: "Og raunalegt er til þess að vita, að maðurinn sem hafði talað sögu landsins, lifað sögu landsins, og skapað sögu landsins, skyldi ekki endast til að skrifa sögu landsins."

Hitt væri ekki síður raunalegt, ef Indriði, sem hefir skrifað flest, ef ekki bezt, leikrit landsins, unnið manna mest að því að skapa leiklist landsins, og átt gildastan þátt í því að byggja leikhús landsins, skyldi nú ekki endast til að sjá þetta leikhús vígt með sínum eigin leik, leiknum af börnum og barnabörnum.

Það kostar engan neitt að óska hálfníræðu skáldinu langs lífs. Hitt væri drengilega gert ef landar hans létu svo ríflega af mörkum til þjóðleikhússins að djarfasti draumur skáldsins mætti rætast áður en tjaldið fellur fyrir síðasta þættinum í æfi hans.

---

*)Skírnir 1911, 85:290-301.

---

# Ættbróður heilsað

eftir *Próf. Richard Beck*

*Flutt á fyrirlestrar-samkomu Ásgeirs fræðslumálastjóra Ásgeirssonar að Mountain, N. D. 9. nóv.* 1935

Velkominn yfir haf af heima-slóðum!
Frá hjartakærum, björtum draumaströndum,
með tignum fjöllum, fjarða vinahöndum,
með frjórra sagna auð og gull í ljóðum.

Þar geymdist aldir langar öðrum þjóðum
ættstofnsins dýpsta speki, líf og saga;—
fræðin, er svefni hrinda, eggja, aga;
ylurinn kulnar seint í þeirra glóðum.

Velkominn heiman! Heill þú snúir heim!
Heilsaðu kærst frá sögulandsins börnum,
átthögum fögrum, vinum, landi, lýð.
Hafið er djúpt og langt um lagargeim:
létt er þó hug, sem vængja-fráum örnum,
djúpið að brúa, faðma fjörð og hlíð.

# George P. Marsh — Brautryðjandi íslenzkra fræða í Vesturheimi

*Eftir prófessor Richard Beck.*

Eigi all-fáir merkir andans menn í Bandaríkjum tóku þegar á fyrri hluta 19. aldar, að gefa sig við Norðurlandamálum og bókmentum, einkum fornaldarsögu Norðurlandabúa og íslenzkum fornbókmentum. Í þeim hóp voru öndvegisskáldið Henry W. Longfellow (1807 - 1882), sagnfræðingurinn George Bancroft (1800-1891), og sér í lagi fjölfræðingurinn og athafnamaðurinn George P. Marsh.

Ýmislegt studdi að vaknandi og vaxandi áhuga þeirra, og annara lærdómsmanna og rithöfunda þarlendis, á norrænum fræðum og íslenzkum. Rómantíska bókmentastefnan, sem beindi hugum manna að hinu forna, fjarlæga og óvenjulega, lá þá í loftinu í hinum enskumælandi heimi beggja megin Atlantshafs. Áhrifin af auknum kynnum enskra fræðimanna og skálda af íslenzkum fornritum náði einnig vestur um haf. (Smbr. ritgerð mína "Íslenzk fornrit og enskar bókmentir" í síðasta árgangi þessa tímarits).

Ekki mun það þó sízt hafa verið hin öfluga og víðtæka starfsemi C. C. Rafns háskólakennara, útgáfur Hins konunglega norræna Fornfræða-félags, undir handleiðslu hans, af fornritum vorum, sem dró athygli amerískra lærdómsmanna og skálda að þeim; sérstaklega hið mikla safnrit "Antiquitates Americanæ," 1837, er hann gaf út með aðstoð þeirra Sveinbjarnar Egilssonar og Finns Magnússonar, og hafði inni að halda frásagnir hinna fornu rita um Vínlandsferðirnar, á frummálinu og í dönskum og latneskum þýðingum, ásamt inngangsritgerð á ensku. Vakti rit þetta geysimikla athygli víðsvegar um lönd, ekki sízt í Vesturheimi, eins og vænta mátti. Jafnframt ber að geta þess, að framannefndir fræðimenn amerískir stóðu allir í bréfaskiftum við Rafn, Marsh árum saman, sem frekar mun getið verða, og hvatti Rafn hann ótrauðlega til íslenzkra og norrænna fræði iðkana.

Aldrei hefir þó þessa brautryðjanda fræða vorra vestan hafs verið getið á íslenzku, svo teljandi sé; er það samt meir en maklegt, og ræktarsemi, sem frjósöm er til sjálfsvirðingar, að varðveita nöfn slíkra manna frá gleymsku; nóg fer engu að síður í glatkistuna, á þessum tímum almenns mótlætis, um ætt og erfðir.

## I.

George Perkins Marsh var Ný-Englendingur (New-Englander) að ætt og uppruna, fæddur í bænum Woodstock í Vermont-ríki, 15.

marz, 1801, og ólst þar upp.*) Hann var af ágætu bergi brotinn, átti til gáfna- og merkisfólks að telja í ættir fram. Faðir hans, Charles Marsh, var mikilsmetinn lögfræðingur; var hann eindreginn hreintrúarmaður (Puritan) í skoðunum, strangur, sem slíkum mönnum var títt, og kröfuharður, en jafnframt gæddur næmri réttlætistilfinningu og ríkri sjálfsvirðingu. Móðir George Marsh var mildari að skapgerð en maður hennar, kona óvenjulega vel mentuð og prúð í framgöngu; engu miður en hann unni hún þó þeim skapeinkennum og dygðum, sem hreintrúarmenn skipuðu í öndvegi og töldu varanlega heill þjóðfélagsins grundvallast á. Enda varð heimili þeirra hjóna um fullrar hálfrar aldar skeið miðstöð mentunar og menningar.

Er því létt, að gera sér í hugarlund, hverskonar áhrifum George Marsh varð fyrir á uppeldisárum hans. Erfðir og æskuheimili hans tóku bersýnilega höndum saman um, að beina hug hans að mentandi og menningarlegum viðfangsefnum. Hann ólst upp við lífsskoðanir og siðkenningar, sem kendu honum, að sannmeta það, sem göfugt var og drengilegt, en jafnhliða, að víta óvægilega það, sem ilt taldist og sviksamlegt. Sjálfsvirðing, heilleiki í hugsun og athöfnum, og djúp réttlætistilfinning, þrýstust þannig inn í meðvitund hans snemma æfinnar og auðkendu hann alla daga. Og lítt er að kynja, þó maður svo skapi farinn heillaðist, er stundir liðu fram, af lífsskoðunum og menningu norrænna manna. Það var fleira en brennandi frelsisástin, sem sameiginlegt var hreintrúarmönnum í Nýja-Englandi og norrænum forfeðrum vorum; hálfvelgja og ódrengskapur voru hvorumtveggja löngum hvimleið. Með aukinni sagnfræðilegri þekkingu varð Marsh einnig ljós sameiginlegur uppruni Ný-Englendinga og Norðurlandabúa.

Landslag er fagurt og fjölskrúðugt á æskustöðvum Marsh; skiftast þar á fjöll, skógar, græn engi og gróðursæl akurlönd, en fljót og lækir auka á litagnægð nágrennisins og fjölbreytni. Hefir slíkt umhverfi, þar sem tilkomumikil fjallasýn fléttaðist saman við mýkri drætti í landsins svip, eflaust glætt meðfædda athyglisgáfu Marsh og ást hans á hinni ytri náttúru í ýmsum myndum hennar, en hvorutveggja gætir mjög í ritum hans, sérstaklega þeim, sem um jarðeðlisfræði fjalla.

Marsh var fremur heilsuveill í æsku, en snemma bókhneigður með afbrigðum; sótti hann lesturinn af svo miklu kappi, að sjón hans bilaði, og beið hann þess aldrei fullar bætur. Hélt hann þó áfram námi sínu bæði í heimahúsum og um hríð á undirbúningsskóla, og innritaðist sem nýsveinn í Dart-

---

*)Auk ýmsra rita Marsh og ritgerða, hefi eg einkum stuðst við þessar heimildir um æfi hans og störf: Caroline Crane Marsh: "Life and Letters of George Perkins Marsh," Vol. I, New York, 1888 (framhaldið kom aldrei); Samuel Gilman Brown: "A Discourse commemorative of the Hon. George Perkins Marsh, LL.D., 1883; og "Dictionary of American Biography," Vol. XII, New York, 1933, bls. 297-298. Góðvinur minn og kennari, Halldór prófessor Hermannsson, hefir, eins og svo oft áður, greitt fyrir mér með útvegun hjálparrita, og kann eg honum þakkir fyrir.

mouth College 1816. Stundaði hann námið með frábærri kostgæfni og lagði stund á margt utan skyldunámsgreinanna, einkum tungumál, svo sem frönsku, þýzku, spænsku, portúgölsku og ítölsku; nam hann mál þessi af sjálfsdáðum, því að þau voru eigi á kensluskrá skólans. Til eru einnig frásagnir um það, að hann hafi um svipað leyti byrjað, að leggja stund á Norðurlandamál, sem urðu honum hið hugþekkasta viðfangsefni. Áhugi hans á tungumálum, og sjaldgæfur hæfileiki hans til slíks náms, kom því eftirminnilega á daginn á mentaskólaárum hans; en mikið orð er gert á því, hversu létt honum hafi verið um, að tala og rita erlendar tungur jafnskjótt og hann var orðinn vel læs á þær.

Marsh lauk mentaskólanámi sínu með heiðri 1820. Þótti hann afbragð skólabræðra sinna að ástundun og námshæfileikum, og er það þeim mun frásagnarverðara, þegar í minni er borið, að þá var mannval mikið á skólanum, að vitni gagnkunnugra. Einnig átti Marsh, þó bókormur væri og fremur fáskiftinn, vinsældum að fagna á skólaárunum. Hann var gæddur þeirri skapfestu og höfðingslund, sem vekja hljóta virðingu og aðdáun heilskygnra manna og sannleikselskra.

Var Marsh nú um skeið kennari, en kenslustarfið var honum lítt að skapi, og sneri hann sér þá að laganámi hjá föður sínum. Var honum veitt málafærsluleyfi 1825 og hóf því næst lögfræðisstörf í Burlington, höfuðborg Vermontríkis; en jafnframt lögmenskunni hélt hann áfram bókmentaiðju sinni og bókasöfnun. Á þessum árum las hann einnig Norðurlandamálin af kappi, og bar sú viðleitni hans ávöxt í merkilegum ritstörfum, sem síðar mun lýst verða. Auðugt menningar- og athafnalíf í Burlington átti ágætlega við Marsh og undi hann þar því vel hag sínum, enda varð hann brátt mikilsmetinn bæði sem lögfræðingur og lærdómsmaður.

En þessi ár voru honum hvorutveggja í senn sigurvinninga- og sorga-tímabil. Í apríl 1828 kvæntist hann Harriet Buell, mentaðri og mætri konu af góðum ættum, en ekki fékk hann lengi að njóta hennar; hún andaðist í ágúst 1833, og fáum dögum síðar varð hann að sjá á bak eldra syni þeirra. Var honum ástavinamissir þessi hið mesta áfall, sem myrkvaði lífsgleði hans og dró drjúgum úr athafnasemi hans um langt skeið. Sex árum síðar kvæntist hann á ný, merkis- og gáfukonunni Caroline Crane, sem lifði hann og gaf út æfisögu hans og bréf, er sá maður var fallinn frá, sem tekið hafði það hlutverk að sér.

Vegur Marsh sem lögfræðings, athafna- og fræðimanns fór stöðugt vaxandi eftir því sem árin liðu. En ekki verða hér talin nema hin helztu trúnaðarstörf, sem honum voru falin í þágu ríkis- og landsstjórnar, og sýna hvert traust menn báru til hans. Árið 1835 útnefndi ríkisstjórinn í Vermont hann í stjórnarráð ríkisins (The Supreme Council of the State). Í tvö kjörtímabil (1843-49) var hann einnig þjóðþingsmaður (Congress-

man) Vermont-ríkis; þótti hann atkvæðamaður í þeim sessi, rökfastur og fylginn sér í málaflutningi, og lét sig skifta ýms þau stórmál, sem þá voru efst á baugi, eins og þrælahald og stríðið við Mexico. En hann snerist ákveðið gegn báðum, og var það í fullu samræmi við sannleiksást hans, frelsisást og samúð með þeim, sem minni máttar voru eða órétti beittir. Það kom einnig fram í þingmannsstörfum hans, að hann var fræðimaður eigi síður en stjórnmálamaður. Var hann djarfmæltur formælandi þeirra mála, er honum virtust horfa til aukinnar þjóðmenningar, og í þeim efnum langsýnni mörgum samþingmanna sinna.

Árið 1849 skipaði Taylor Bandaríkja-forseti Marsh sendiherra þeirra í Tyrklandi með aðsetur í Miklagarði (Constantinople). Valdist þar hæfur maður í vandasamt embætti, enda skipaði hann rúm sitt með sæmd og þjóð sinni til mikilla nytja. Kom honum nú að góðu haldi fjölþætt tungumálakunnátta og víðtæk lagaþekking; en þó leið ekki á löngu áður en hann fór að leggja stund á tyrknesku, arabisku og persnesku. Af afrekum hans á þessum árum, má sérstaklega geta þess, að sumarið 1852 sendi Bandaríkjastjórn hann til Aþenuborgar til þess, að rannsaka deilumál, sem risið hafði milli amerísks trúboða þar í borg og grískra stjórnarvalda. Eftir umfangsmikla og nákvæma rannsókn komst Marsh að þeirri niðurstöðu, að trúboðinn hefði ofsóttur verið að ósekju og ólögum beittur; hélt hann einbeittlega fram rétti hans, með þeim árangri, að farsællega réðist úr málum hans. Óx Marsh mjög af málaflutningi þessum, er vitnaði bæði um lærdóm hans, festu og gjörhygli. Ýms fleiri vandamál komu til hans kasta austur þar, af hálfu landsstjórnar hans, og leysti hann þau af hendi með rögg og réttsýni.

Stjórnarskifti urðu í Bandaríkjum árið 1853. Þrátt fyrir ágæta frammistöðu hans, var þá lokið sendiherrastarfi Marsh að sinni, og hvarf hann heim til ættjarðarinnar. Helgaði hann næstu ár að miklu leyti fræði-iðkunum, ritstörfum og fyrirlestrahöldum, en vann jafnframt á því tímabili ýms opinber störf í þarfir Vermont-ríkis, t. d. var hann um tíma umsjónarmaður járnbrauta. Átti hann og við þröngan fjárhag að stríða á þessum árum.

Árið 1861 skipaði Lincoln forseti Marsh fyrsta sendiherra Bandaríkjanna á Ítalíu, sem þá var nýorðin konungsríki, og gegndi hann því embætti til dauðadags, eða í samfleytt 21 ár. Naut hann mikillar virðingar og hylli bæði stjórnarvalda og alþýðu á Ítalíu fyrir drengilegan og röggsamlegan embættisrekstur sinn og samúð með málefnum hins unga konungsríkis. Einnig jók hann fræðimannsfrægð sína með margvíslegum ritstörfum, bókum, ritdómum og ritgerðum í alfræðibókum.

Marsh andaðist 23. júlí 1882 í sumarbústað sínum að Vallombrosa, nálægt Florence; og var grafinn, með honum sæmandi viðhöfn, í kirkjugarði Mótmælenda (prótestanta) í Rómaborg.

Hafði hann auðsjáanlega, þó hér hafi verið farið mjög fljótt yfir sögu, verið fæðingarríki sínu og ættjörðu hinn ágætasti sonur, og harla mikilvirkur. Fyllri og sannari verður þó myndin af lífsstarfi hans, og sjálfum honum, þegar vikið er nokkrum fleiri orðum að margþættum ritstörfum hans. Hann ritaði um náttúrufræði, heimspeki, þjóðmegunarfræði, fornfræði, málfræði og bókmentir. Auk þess hafði hann ýmsa merkilega söfnunarstarfsemi með höndum. Áhugaefni hans voru því með fágætum víðtæk og fjölhæfni hans að sama skapi. Enginn var hann þó gutlari í fræðimensku sinni; samvizkusemi og djúpstæður lærdómur einkendu hana. Er það órækur vottur um álit hans sem fræðimanns, að fjöldi vísindafélaga í Vesturheimi og Norðurálfu kusu hann heiðursfélaga. Ýmsir amerískir háskólar gerðu hann einnig að heiðursdoktor sínum í viðurkenningarskyni fyrir fræðimensku hans og opinber störf.

Rita hans og ritgerða um Norðurlandamál og bókmentir verður getið í sérstökum kafla. Engu ómerkilegri, nema hvað síður sé, voru ritgerðir hans og bækur um málfræði enskrar tungu. Hann var einn af fyrstu starfsmönnum, sem unnu að samningu Oxford-orðabókarinnar miklu. (Smbr. formála fyrsta bindis). Fyrirlestrar hans um enska tungu og sögu hennar, sem fluttir voru við Columbia University í New York og Lowell Institute í Boston, og síðar voru gefnir út í bókarformi, "Lectures on the English Language" (1860) og "Origin and History of the English Language" (1862), voru ágætis fræðirit á sinni tíð. Mikið verk var einnig hin aukna og endurskoðaða útgáfa hans af riti H. Wedgewood um enska orðmyndunarfræði, "A Dictionary of English Etymology" (1862).

Rit Marsh um jarðeðlisfræði, bygð á víðtækum athugunum á lögum um Norður, Austur og Vesturálfu, voru einnig hin merkilegustu, rituð af skarpskygni og afburða þekkingu, enda höfðu þau áhrif bæði vestan Atlantshafs og austan.*)

Af fyrirlestrum Marsh, sem jafnan voru vel í letur færðir, þrungnir fróðleiks og umhugsunarefnis, má sérstaklega nefna "The Goths in New England," sem ástæða er til að ræða nánar síðar, og "Human Knowledge" (1847), þar sem hann rökræðir, með djúpskygni, þekkingarleit manna og markmið hennar. Segir hann þar á einum stað: "Sá, sem leitar þekkingar með það fyrir augum, að hefja sig yfir náunga sinn, eða til þess, að gera sér lifandi verur eða dauða hluti undirgefna í hagsmunaskyni, finnur hana aldrei." Eftirtektarverð eru

---

*)Smbr. framannefnt bindi af "Dictionary of American Biography," bls. 298. Um náttúrufræðileg rit Marsh sjá einkum: Bennett H. Nash and Francis P. Nash: "Notice of George Perkins Marsh," Proceedings of the American Academy of Arts and Sciences, Vol. XVIII, Cambridge, 1883; einnig W. M. Davis: "Biographical Memoir of G. P. Marsh, 1801-82," National Academy of Sciences, Biographical Memoirs, Vol. 6, 1909, Washington, D.C. Um ritstörf Marsh í heild sinni vísast til "Bibliography of George P. Marsh," compiled by H. L. Koopman, Burlington, 1892.

einnig þessi orð hans í einu rita hans um náttúrufræði: "Sjónin er hæfileiki, *að sjá* er list." Því að víðar en í trúarefnum á það heima, að "sjáandi sjá þeir eigi."

Loks er að geta hins mikla og ágæta bókasafns Marsh, sem síðar varð eign Vermont University. Hafði hann byrjað að safna til þess snemma á árum, og jók stöðugt við það, þangað til það var orðið 12,000 bindi við dauða hans. Var þar margt úrvalsrita og gamalla bóka, verðmætra og sjaldgjæfra. Bókmentir Norðurlanda, ekki sízt fornbókmentir vorar, skipa þar mikið rúm, ásamt ritum um Norðurlandamál, sögu Norðurlandabúa og menningu.

II.

Það var ofur eðlilegt, að fræðimaður, sem gaf sig jafn mikið við enskri málfræði og málssögu eins og Marsh gerði, tæki fyr eða síðar að leggja stund á íslenzka tungu og norræn fornfræði. Caroline Marsh getur þess einnig í æfisögu hans ("Life and Letters," bls. 22), að það muni hafa verið áhugi hans á fyrri alda sögu Englands og bókmentum, sem dró athygli hans að Norðurlandamálum.

Í elzta bréfi hans til Rafns, sem varðveizt hefir (21. október 1833), og hinu fyrsta, lesi eg það rétt, farast Marsh sjálfum svo orð um þetta efni: "Í lagalestri hefi eg, eins og hver sá, sem leggur stund á ensk lög, oft haft ástæðu til að rekja lagaákvæði til norræns uppruna. Af þessum og öðrum orsökum, vaknaði snemma hjá mér mikill áhugi á sögu og lyndiseinkennum Norðurlandabúa, og ákvað eg því fyrir nokkrum árum, að kynna mér tungumál og bókmentir Norðurlanda."*)

Benda þau ummæli til þess, að það hafi ekki verið fyr en á Burlington-árum hans (eftir 1825), að Marsh fór fyrir alvöru að leggja stund á Norðurlandamál og bókmentir. (Smbr. "Life and Letters," bls. 22). Ekki er þó þar með loku fyrir það skotið, að hann kunni, að hafa fengist eitthvað við þau fræði þegar á laganámsárum sínum (1820-25), eins og Dr. S. G. Brown segir í fyrnefndu minningarriti sínu um hann (bls. 10). Hvað sem því líður, mun óhætt mega fullyrða, að Marsh hafi fyrstur amerískra lærdómsmanna farið að gefa Norðurlandamálum og norrænum fræðum verulegan gaum.

Svo mikið er einnig víst, að áhugi hans á þeim fræðum er glaðvaknaður þegar hann ritar Rafn ofannefnt bréf. Kvartar hann þar sáran undan því, hve örðugt sé, að afla sér rita um þessi efni, og jafnvel upplýsinga um hvar slíkra rita sé að leita; og hafi hann orðið, að fá þau frá Þýzkalandi. Kveðst hann í bráð hafa brýnasta þörf á gögnum um bókmentasögu Norðurlanda og ritdómum, sér til leiðbeiningar í bókakaupum, og biður hann Rafn, að senda sér skrá yfir nýjustu bækur þess efnis, ásamt nöfnum á ritum vísindafélaga, er vinni að þeim fræðum, og

---

*)Þetta og önnur prentuð bréf, sem fóru milli Marsh og Rafns, eru í ritinu "Breve fra og til Carl Christian Rafn," Kbhavn, 1869, bls. 295-305.

hin beztu dönsku og sænsku tímarit, er um þau fjalla.

Lýkur Marsh bréfinu á þá leið, að alkunnur áhugi Rafns á, að útbreiða þekkingu á sögu Norðurlanda og bókmentum, hafi komið sér til, að leita aðstoðar hans til eflingar samskonar viðleitni í Vesturheimi, þar sem bókmentir Norðurlanda séu algerlega ónumið land.

Svar Rafns við bréfi þessu mun nú glatað; en vafalaust hefir hann brugðist vel við beiðni Marsh, og kemur það fram í bréfi, sem Rafn ritar honum frá Kaupmannahöfn rúmu ári síðar (29. nóvember, 1834). Fer hann þar einkar vinsamlegum hvatningarorðum um fyriræltanir Marsh viðvíkjandi útbreiðslu á íslenzkum fræðum vestan hafs, ekki sízt fyrirhugaðri íslenzkri málfræði hans á ensku, enda var Rafn honum hjálplegur með hana á ýmsan hátt. Hafa þeir síðan sýnilega skifst á bréfum öðru hverju meðan báðir lifðu, þó að flest þeirra muni nú glötuð, því að Marsh ritar Rafn frá Turin í ársbyrjun 1864, en hinn síðarnefndi andaðist í október það ár. Í bréfi þessu þakkar Marsh Rafn fyrir, að hafa sent sér síðasta heftið af "Lexicon Poeticum" Sveinbjarnar Egilssonar, og segist hann nú eiga ritið í heild sinni. Þetta bréf Marsh er ritað á dönsku, eins og annað bréf hans til Rafns, sem enn er við lýði, og sýna þau, að hann ritaði danska tungu merkilega vel, enda tekur Rafn til þess í einu bréfa sinna til hans.

Ekki lét Marsh heldur lenda við orðin tóm hvað snerti starfsemi í þá átt, að útbreiða vestan hafs þekkingu á íslenzkum fræðum og norrænum. Á árunum 1834-35 samdi hann hina íslenzku málfræði sína: "A Compendius Grammar of the Old-Northern or Icelandic Language. Compiled and Translated from the Grammars of Rask, by George P. Marsh." Er hún, eins og heiti hennar gefur í skyn, og ítarlegar er tekið fram í formálanum, að mestu sniðin upp úr málfræðisritum R. C. Rasks um íslenzka tungu, einkum bók hans: "Kortfattet Vejledning til det oldnordiske eller gamle islandske Sprog, Kjöbenhavn, 1832." Þó hefir Marsh bætt nokkru við frá sjálfum sér, einkum í köflunum um beygingar orða og orðskipun. Af ýmsum ástæðum drógst prentunin á málfræði þessari þangað til árið 1838, og var það, að sögn Marsh, hið mikla rit Rafns og þeirra félaga, "Antiquitates Americanæ," þá nýútkomið (1837), sem ýtti undir hann, að koma málfræði sinni f y r i r almenningssjónir. Hugði hann, að hún myndi nú falla í frjórri jarðveg en áður, þar sem Rafn hafði með nefndu riti vakið athygli amerískra fræðimanna á íslenzkum fornritum og norrænni tungu. En ekki tókst þó eins vel með prentun á málfræðinni og æskilegt hefði verið. Hún var, að minsta kosti að miklu leyti, prentuð í fjarveru höfundarins, og prófarkalestri svo ábótavant, að sægur er í henni af prentvillum. Varð það til þess, að Marsh sendi hana

eigi til bóksala, en lét hana þó fræðimönnum í té með leiðréttingum sínum. Fékk bókin af þessum ástæðum harla takmarkaða útbreiðslu. Engu að síður er hún merkileg. Hún var brautryðjandarit—fyrsta íslenzk málfræði gefin út utan Norðurlanda og fyrsta málfræði tungu vorrar samin á ensku.

Ást Marsh og áhugi hans á íslenzkum fræðum komu einnig fram í frumsömdum og þýddum ritgerðum hans um fornbókmentir vorar. Hann ritaði all-langa grein um þær undir fyrirsögninni, "Old Northern Literature," í "American Whig Review, I. bindi, 1845; var hún samin sem inngangur að greinaflokki um það efni, en framhaldið kom ekki, hvað sem valdið hefir. Nokkrum árum áður hafði hann þýtt á ensku, með athugasemdum, fyrri hlutann af ritgerð P. E. Mullers, Sjálandsbiskups, um uppruna, þróun og hnignun íslenzkra sögu bókmenta, "The Origin, Progress, and Decline of Icelandic Historical Literature," og var sú þýðing prentuð í tímaritinu "American Eclectic," I. og II. bindi, 1841, en það fjallaði um heimsbókmentir að fornu og nýju. En ritgerð Mullers hafði upprunalega komið út í "Nordisk Tidskrift for Oldkyndighed." Marsh ritaði einnig um sænskar bókmentir í "American Eclectic," en hann var vel að sér í sænsku, eigi síður en íslenzku og dönsku.

Þá koma kynni Marsh af íslenzkum fornbókmentum og aðdáun hans á norrænum mönnum ótvírætt í ljós í fyrirlestri hans "The Goths in New England" (Gotarnir í Nýja-Englandi, 1843). Með "Gotum" á hann þar við germanska menn og norræna, og vakti það fyrir honum, að sýna fram á áhrif hins germanska (norræna) kynstofns — Engil-Saxa — á skapgerð og hugsunarhátt enskra forfeðra þeirra Ný-Englendinga, hreintrúarmannanna. Hélt hann því fram, að hið göfugasta í ensku lundarfari og erfikenningum væri af germönskum (norrænum) toga spunnið. Vakti fyrirlestur þessi mikla athygli, en mæltist vitanlega mjög misjafnlega fyrir. En mælskur er hann og magni þrunginn, og hinn íhyglisverðasti.

Hvað merkilegasti þátturinn í útbreiðslustarfi Marsh í þágu fræða vorra er hið íslenzka bókasafn hans, sem, ásamt öðrum bókum hans, hefir verið eign Vermont University síðan 1883. Auðsætt er af fyrsta bréfi Marsh til Rafns (1833), sem að ofan var vitnað í, að hann er þá þegar farinn að afla sér rita um bókmentir Norðurlanda og norræn fræði, og hélt hann því áfram fram á síðustu ár.

Í hinni prentuðu bókaskrá yfir safn hans ("Catalogue of the Library of George Perkins Marsh," Burlington, 1892) tekur upptalningin á ritum um Ísland og íslenzkar bókmentir yfir nærfelt sjö blaðsíður, í stóru broti (337-343). Er þar að finna allar helztu útgáfur af íslenzkum fornritum, Eddunum og sögunum, sem prentaðar höfðu verið fram yfir miðja 19. öld; einnig margar merkustu bækur um þau, norræna tungu, fornfræði og goðafræði, sem út

höfðu komið til þess tíma. Fjölskrúðugt er safnið að orðabókum íslenzkrar tungu; allmargt er þar einnig af málfræðiritum, ferðabókum um Ísland, og helztu lögbækur íslenzkar: Grágás, Jónsbók og Járnsíða. Auðugt er safnið einnig af eldri ritum um bókmentir Norðurlanda utan Íslands. Í heild sinni var það því, á tíð safnandans, einstætt í sinni röð vestan hafs; og er enn, að ýmsu leyti, meðal merkustu bókasafna af sama tagi þarlendis. Eitthvað mun og hafa verið bætt við það af nýrri bókmentum Norðurlanda og ritum um norræn fræði.

Útbreiðslustarfsemi Marsh í þarfir fræða vorra og bókmenta var því hreint ekki lítilsverð. Hinsvegar er nú eigi auðvelt, að festa hendur á því, hve víðtæk áhrif hennar hafa verið; hitt má þó fullyrða, að þau hafa nokkur verið, því að kunnugt er, að ritgerðir hans um þau efni vöktu athygli manna og öfluðu honum álits sem sérfræðings í þeim greinum. Og um eitt merkilegt dæmi áhrifa rita hans vitum vér með fullri vissu. Willard Fiske segist svo frá, að það hafi verið bók Carlyles "Heroes and Hero Worship" (Hetjur og hetjudýrkun) og sum rit Marsh, sem beindu huga hans að Norðurlandamálum og bókmentum.*)

Hið íslenzka bókasafn Marsh í háskólasafni Vermont University mun einnig, ekki ólíklega, eiga sinn þátt í því, að þar er haldið uppi næsta merkilegri kenslu í norrænum fræðum, Sæmundar-Edda og sögurnar lesnar í enskum þýðingum ásamt verkum helztu rithöfunda Norðurlanda á 19. og 20. öld.**)

Megum vér því með þakklátum huga minnast George Perkins Marsh sem velunnara og málsvara menningar vorrar og fræða vorra hinna fornu, brautryðjanda þeirra vestan hafs. Og þegar vér minnumst þess, hversu mikilhæfur maður hann var og gagnmerkur, og fjölmentaður um flesta fram, ætti dæmi hans, að verða oss kröftug áminning um ágæti og menningargildi þjóðernislegs arfs vors: — tungu vorrar og sígildra bókmenta vorra.

---

*)Í fyrirlestri sínum um "Swedish Student Life." Sjá æfisögu hans: Willard Fiske. Life and Correspondence, A Biographical Study. By Horatio S. White, Oxford University Press, 1925, bls. 12.

**)Samkvæmt skólaskýrslu háskólans, "The Vermont Bulletin," 1934-35. Smbr. ritgerð dr. Stefáns Einarssonar "Íslenzku-kensla í háskólum Bandaríkjanna" í síðasta árgangi þessa tímarits).

# Prófessor Watson Kirkconnell

*Eftir Sig. Júl. Jóhannesson.*

"Því lætur það börnin sín blessa þann mann og bera sér nafn hans á munni."

Þ. E.

Um það hefir oft verið deilt, hvort íslenzku þjóðinni heima hafi meira græðst eða tapast á vesturflutningunum.

Allar mögulegar reikningsaðferðir hafa verið notaðar frá báðum hliðum; en engum hefir enn tekist að reikna dæmið alt, svo greinilega eða sannfærandi, að öllum þætti fullnægjandi; og um mörg einstök atriði hefir mönnum alls ekki komið saman.

Eitt er það samt, sem allir viðurkenna: það er gildi og gróði þeirra auglýsinga og kynninga, sem heimaþjóðin hefir hlotið í Vesturheimi — og yfir höfuð í öllum hinum enskumælandi heimi — með athöfnum og f r a m k o m u þeirra, sem flutt hafa til Canada og Bandaríkjanna.

Áður var þjóð vor allsóþekt í Vesturálfunni, og hugmynd almennings sú — ef hún annars var nokkur — að Ísland bygði ómönnuð ruddaþjóð, eftirbátur allra í flestu.

Nú hafa þeir Íslendingar, sem hér búa, snúið svo rækilega við blaðinu að öll þessi álfa veit og viðurkennir að litla landið með kalda nafnið er bygt framtakssamri menningarþjóð.

Og þetta er að miklu leyti að þakka athöfnum og framkomu Vestur-Íslendinga. Það er ekkert skrum að þeir hafa yfir höfuð skarað hér fram úr í ýmsum greinum, sérstaklega þegar tillit er tekið til þess hve sárafáir þeir eru hér á meðal miljónanna.

En glæsilegasta hliðin á menningar tilveru Íslendinga hefir til skamms tíma verið myrkrum hulin að mestu leyti hér í álfu — það er skáldskapurinn og bókmentirnar.

Íslendingar hafa í liðinni tíð ekki notið sín hér í landi á því sviði. Þeir hafa ekki, svo nokkru nemi, getað kynt eða auglýst íslenzku þjóðina með verkum, sem skarar fram úr að skáldskapargildi. Hinir eldri voru of gamlir þegar hingað kom, til þess að geta notið sín á máli þessa lands, og þeir sem hér eru fæddir hafa enn ekki skarað fram úr þeim beztu á sviði skáldskaparins, þótt þeir hafi við nám og íþróttir staðið öllum fremri á ýmsum tímum.

Vonandi er að nú verði þess ekki langt að bíða, að einhver hinna yngri manna rísi úr rekkju þagnarinnar og mæli spámannsorðum, þar sem íslenzk sál sé klædd enskum búningi.

Tilraunir hafa verið gerðar í seinni tíð til þess að kynna hérlendu fólki íslenzk ljóð í enskum þýðingum; má þar til nefna frú Jakobínu Johnson, prófessor Skúla Johnson, Paul Bjarnason, E. E. Gillies, Dr. Gísla J. Gíslason, séra Rúnólf Fjeldsted, prófessor Richard Beck og fleiri.

Er það góðra gjalda vert og gleðilegt að vort eigið fólk leysi

slík verk af hendi og vonandi að meira verði gert að því hér eftir en hingað til.

En það, sem eg vildi minnast á hér eru þau gleðilegu fyrirbrigði, að hérlendur mentamaður hefir risið upp og tekið sér það fyrir hendur að kynna íslenzkan skáldskap og halda honum á lofti fyrir enskumælandi fólki sem verulegum og varanlegum bókmentum.

Þessi maður heitir Watson Kirkconnell og er prófessor við Wesley skólann í Winnipeg. Eg hefi tvisvar áður skrifað stutta grein um hann í Lögbergi og getið þess hvað hann er að gera. Gat eg þess þá, að hann lét prenta bók með enskum þýðingum af kvæðum eftir fjölda mörg íslenzk skáld að fornu og nýju; var það þjóðhátíðarárið 1930 og gert í heiðursskyni íslenzku þjóðinni við það hátíðlega tækifæri. Sjálfur er maðurinn skáld og hefir ort allmikið; orti hann einkar fallega kveðju til Íslands 1930, sem eg hefi lauslega snúið á íslenzku. Það kvæði er prentað í bók hans, 1930, sem eg mintist á.

Síðastliðið ár birtist bók eftir þenna sama mann, sem hann nefnir "Canadian Overtones." Eru það enskar þýðingar á kvæðum eftir höfunda ýmsra erlendra þjóða hér í Canada. Sézt það glögt á þessari bók hversu hátt hann setur Íslendinga gagnvart öðrum þjóðbrotum hér sem skáld; því hann hefir þar þýtt nálega eins mikið eftir þá og alla hina til samans. Í þessari bók kemst hann að orði sem hér segir: "Íslendingar skara svo langt fram úr öllum öðrum þjóðbrotum hér sem skáld, að þeir skipa þar að sjálfsögðu öndvegissæti. — Landnámsmenn í Canada frá Frakklandi og Englandi léti ekkert — eða jafnvel verra en ekkert — til sín heyra, er skáldskapur gæti talist. Sá mikli heiður heyrir til Íslendingum, að hafa arfleitt þessa þjóð að þeim skáldskap, sem fullkomlega jafnast á við það, sem hér hefir verið bezt ort í þrjú hundruð ár."

Við þessa bók er ýmislegt að athuga, en þetta á ekki að vera ritdómur um hana, en hún sýnir tvíllaust mikið álit og hlýjan hug til Íslendinga.

Nú fyrir nokkru síðan kom út bók eða bæklingur eftir þennan sama mann; er það sérprentun úr tímariti: "University of Toronto Quarterly" og heitir: *"Canada's Leading Poet: Stephan G. Stephansson."*

Þessi ritgerð er einkar merkileg; er skýrt frá æfi og kjörum Stephans rétt og nákvæmlega og sá sannleikur dreginn fram í dagsljósið að Stephan er einstæður í sögunni þar sem hann var alla æfi önnum kafinn við baráttu tilverunnar fyrir sér og skylduliði sínu, en afkastaði samt í hjáverkum og á hvíldarstundum því stórvirki, sem eftir hann liggur.

Mig langar til þess að þýða inngangsorðin í þessari ritgerð: "Canada á, enn sem komið er, fátt þeirra helgu staða, sem í öðrum löndum mæta auganu hvar sem farið er; eins og t. d. Stratford on Avon — — — En þegar þeir tímar koma hér í landi að samskonar helgistaðir skapast, eða komið

verður auga á þá, spái eg því að einn meðal þeirra fyrstu og merkustu verði litla þorpið Markerville í Alberta, þar sem Stephan G. Stephansson, eitt mesta íslenzka skáldið sem uppi hefir verið fyr og síðar, helgaði um fjörutíu ár æfi sinnar — maður, sem skipað verður í heiðurssæti meðal skálda vorra. Það var við Markerville, sem hann tók sér bólfestu með börn og konu þegar hann var 36 ára að aldri, fullur af framtíðarvonum og gæddur óþrotlegum viljakrafti. Það var við Markerville sem hann lagði fram alla sína krafta um langa og sigursæla æfi; það var þar sem hann ávaxtaði pund sitt með svo miklum árangri og það var þar sem hann lagðist til hinztu hvíldar 10 ágúst 1927, hvíthærður og starflúinn."

Og svo lýsir hann Stephani svo vel að ytra útliti að jafnvel þótt maður hefði aldrei séð hann, stendur hann manni sem lifandi fyrir hugskotssjónum. Lýsingin er þannig:

"Stephan var fimm fet og sjö þumlungar á hæð; grannur að vexti en þróttlegur og snarlegur með afbrigðum; augun voru djúpblá (Norðurlanda-blá), afar skær og hrífandi, en svarta hárið tilkynti keltneska upprunann að öðrum þræði, sem blandast hafði blóði Skandinavans og aðgreinir hinn sanna Íslending frá Norðmanninum frænda hans. Stephansson hafði þykt yfirvararskegg en ekkert kjálka- né hökuskegg. Hann var grannur í andliti og góðlyndis hrukkur í munnvikjum og augnakrókum."

Þessi ritgerð hefir svo margt að geyma, sem freistandi er að geta um, en aðeins á fáein atriði verður minst. Þannig má geta þess, að Kirkconnell telur þrent aðallega einkenna skáldskap Stephans G.: það er takmarkalaust hugmyndaflug, tröllaukið tilfinningalíf og óvenjuleg speki.

Undir þann dóm munu flestir Íslendingar skrifa.

Seinustu orð ritgerðarinnar eru þessi:

"Það er ef til vill of snemt að spá fram í tímann, en geta mín er sú að það verði einhvern tíma viðurkent að Stephan G. Stephansson hafi verið fyrsta stórskáld sem á nokkru máli hefir ort í Canada."

Þessi ritgerð er Íslendingum hér álfu og heima mikil auglýsing og álitsauki. Þær kenningar, sem hún flytur eru ekki skrifaðar af neinum meðalmanni; þær eru skráðar af þeim, sem vald hefir til þess að tala um þessi efni, og langar mig til þess að bæta við þessar línur nokkurri greinagerð á höfundinum, svo menn sjái að hér er um þann að ræða, sem ekki á sér marga líka.

Prófessor Kirkconnell er gæddur svo miklum tungumálahæfileikum að undrum sætir, og hefir þýtt kvæði á ensku af fimtíu tungum. Hann er gæddur frábæru andlegu víðsýni og hefir þá skoðun að allir eigi að lifa saman í sátt og samvinnu. Hann telur óvináttu þjóða, flokka og manna mestmegnis eða einvörðungu sprotna af þekkingarleysi; ef menn skildu hverir aðra, þá heldur hann að þeir tækju oftast

vinahöndum saman í flestum efnum.

Hann telur skáldskapinn sálina í lífi þjóðanna; skáldin túlka þjóðasálirnar, segir hann; ef þjóðirnar skilja sálareinkenni hver annarar þá sættast þær og vinna saman; ef þjóðbrotin í Winnipeg t. d. geta gert sálir sínar skiljanlegar hvert fyrir öðru í gegn um ljóð skálda sinna, þá er friður og sætt örugg í þessum bæ. Þetta á einnig við umheiminn í stærri stíl.

Prófessor Kirkconnell er fæddur árið 1895 í Port Hope, Ontario; er skólaferill hans svo merkilegur, að einsdæmi mun. Hann las aðallega málfræði og útskrifaðist sem meistari í gömlum málum. Á háskólanum í Lindsay hlaut hann þau verðlaun, er hér segir: Hin svokölluðu ráðherraverðlaun fyrir frábæra kunnáttu í stærðfræði; Mowat verðlaunin fyrir kunnáttu í stærðfræði; Williams verðlaunin fyrir kunnáttu í enskum fræðum og sagnfræði; Ellen M. N. Nikle verðlaunin fyrir kunnáttu í stærðfræði og ensku; Forbes McHardy's verðlaunin fyrir kunnáttu í stærðfræði og nýju málunum; Nicholls verðlaunin fyrir kunnáttu í ensku, frönsku og þýzku; McLaughlin verðlaunin fyrir kunnáttu í ensku, latínu, þýzku og frönsku og skrásetjara verðlaunin fyrir kunnáttu í latínu, ensku, sagnfræði, stærðfræði og náttúruvísindum.

Að þessu búnu hóf hann framhaldsnám við Queens háskólann, stundaði þar sérstaklega gömlu málin og útskrifaðist þaðan með meistaranafnbót eftir 3 ár; tæplega tvítugur hlaut hann þar fjölda verðlauna og heiðurspeninga og sérstakan heiðurspening úr gulli fyrir framúrskarandi kunnáttu í latínu og grísku.

Kirkconnell hefir auk annars, bæði í skóla og síðan, tekið mikinn þátt í öllu félags og samkvæmislífi; hann hefir ritað ósköpin öll í blöð og tímarit. Hann hefir ferðast um ýms lönd í Evrópu, Asíu og Afríku. Að öðru leyti vísa eg til minna fyrri ritgerða um þenna einkennilega mann; þar er nokkurn veginn greinilega skýrt frá æfi hans og störfum.

Sökum þess hversu mikinn skerf hann hefir lagt til heimsbókmenntanna hefir hann hlotið alls konar heiðursmerki frá ýmsum stjórnum í Evrópu og verið gerður heiðursfélagi í ótal vísinda- og bókmentafélögum.

Prófessor Kirkconnell hefir tekið ástfóstri við Íslendinga; hann hefir aukið heiður og álit íslenzku þjóðarinnar:

'Því lætur hún börnin sín blessa
þann mann
og bera sér nafn hans á munni.''

# Þrjú kvœði

*Eftir P. S. Pálsson.*

## SÖKNUÐUR

Þú varst mín eina von og trú
og vegarstjarnan mín.
Það birtir æ í hjarta og hug
er hugsa eg til þín.
Um vetrar-kvöldin köld og löng
er kvíði að dyrum ber,
við minninganna arin-eld
eg orna mér hjá þér.

Eg kveð til þín er sígur sól
að sæ um fögur kvöld,
og litar skarlats-skrúði fjöll
og skóg og himin-tjöld.
En rúm og tími tefja ljóð
svo til þín ei það nær,
því okkur skilja skógar, fjöll
og sker og úfinn sær.

En ef að litla ljóðið mitt
að landi þínu ber,
þá skilur þú að ást mín öll
er einni helguð þér:
í hending hverri er hulið tár
og heilög von og þrá
að mega aftur mæta þér,
—ef morgunn rís úr sjá.

## SKILNAÐUR

Eg kom til að kveðja þig vina,
að kveðja þig hinsta sinn.
Mót sólu og sumri er þín ganga,
—í svartnættið vegur minn.
En taktu ekki hart á þó hrjóti
mér höfug tár um brá,
því nú er eg nálgaðist bæinn
eg nóttina gráta sá.

Eg heyrði að brim-aldan bólgna
brotnaði er kendi hún lands,
og sogið var sárt og napurt
sem síðasta andvarp manns.
En hafmeyjan strengina stilti,
um storð og loft og höf
þá tónarnir titrandi liðu
sem tár á vinar gröf.

Og blástjarnan brosinu týndi,
—en blikuðu í augum tár.
Eg sá hvernig sorgin var máluð
á svip og heitar brár.
En léttfættu norðurljósin
sem léku um himininn,
með stirðnuðu brosi störðu
er steig eg hingað inn.

Þú tekur ei hart á þó hrjóti
mér höfug tár um kinn,
því eg hefi komið að kveðja,
að kveðja þig hinsta sinn.
Hið eina sem veita má yndi
að æfinnar hinstu stund,
er mynd þín í muna falin
og minning um liðinn fund.

## ENDURFUNDIR

Í ástarsælu hlið við hlið,
við hlýddum saman vorsins klið,
og sálir okkar saman runnu
því sömu ljóðin bæði kunnu.
Og lífið varð sem eilíf eining.
—Við áttum bæði sömu meining.

En lýgi og rógur lágu þar
í leyni, er okkur framhjá bar,
og eplið til þín réttu rauða.
Með rós á kinn, í augum dauða
eg sá þig ljúka lífi þínu.
—Eg lík þitt gróf í hjarta mínu.

Svo liðu ár. Mig aftur bar
einn aftan þar sem lík þitt var.
Og hugur þreyttur hvíldir þráði,
við hjartarætur mínar áði.
Þá leit þar inn,—sá ljós á skari,—
hinn lúni, þreytti nætur-fari.

Sjá, öll varð hvelfing hjartans björt
þótt haustnótt úti biði svört.
Eg sá að vonin sat þar inni
með særðri ást, hjá kistu þinni.
Og gleymdu ljóði ljósið nærði
sem líf að nýju í skarið færði.

Og þú varst enn svo ung og rjóð,
svo unaðsfríð, eg hrifinn stóð.
Hvort var það aðeins endurminning
um ástir horfnar, liðna kynning?
Hvort endurspeglan fyrri funda,
og fjarhrif löngu gengnra stunda?

Það skiftir minstu, meiru hitt
að mega horfa á andlit þitt,
og eiga stað í eigin barmi
er athvarf sé í hverjum harmi.
—Það breytti hjarta úr hvelfing grafar
í höll, er sólin geislum stafar.

---

# Guðbjartur Glói—brot úr Kötludraum

*Eftir St. G. Stephansson.*

Skáldið var með efni þetta í smíðum er hann andaðist og lauk aðeins við brot þau er hér birtast.—*Ritstj.*

*Glói: — eftir sýnina á krossgötunum.*

"Eg hefi bundinn siglt með Odysseifi
Undir seið-söng hafdísa sem heilla,
Sjálfviljugum fjötrum fasta reirður,
Svo eg gat ei sökt mér niðr'í glötun.
Og þeir fjötrar voru ættar erfð mín,
Riðnir sterkt úr reynslu forfeðranna,
Siðmenningu óra-langra alda,
Skapaða inn í skyn og trú, af þúsund
Foreldrum en fært sé mér að nefna
—Aðeins lítil tengd á taug í hverja
Nú svo styrkri', að það var hún sem hélt mér — — —

Heldurðu eg trúi heimsku þeirri, vinur,
Út að geti skrifað gamlar skuldir
Skyldu mína nýja með að gjöra?
—Engin góðverk gjalda eldri syndir
Batandi manns. Þær haldast við sem harmur
Promeþeifs, í prísund Olymps-goða.

Góðverk eru aðeins forðun sjálfs manns
Frá að vita vitund sína naga,
Á að hafa svikið sína getu
Við helgan málstað enn þá einu sinni.
— — —

Þú hefir framið villitrú og veitt
Dauðvona sjúkling Sakramenti kaþólskt,
Fáráða sálu sent í eilíft víti.

* * *

*Glói*—
Við því eg gengst, að veitta eg aðframkomnum
—Friðvana hreldri samvizku — að siðum
Páfamanna, síðsta sakramenti,
Einu fró, í angist hans við dauða.
Gat eg synjað honum hinnar síðstu
Líknar — syndaranum, sem að engan hafði
Tíma til að átta sig né iðrast?—

Hjátrú verður miskunsemi, maður!
Þannig stöddum — veiti hún líkn og linun.

# Nokkur orð um Tunglöld og Pakta, og fleira

*Eftir Svein Árnason.*

Framan við flest Almanök má sjá gyllinital, sunnudagsbókstaf, pakta og nokkur fleiri orð, svo sem sólaröld, tunglöld, skattöld (Roman Indiction), o. s. frv., sem öll eru að einhverju leyti bendluð við tímatalið. Nú þótt Almanök séu, að jafnaði, full af ýmislegum fróðleik, þá minnist eg ekki að hafa séð þessi heiti, sem eru þó svo náskyld tímatalinu, útskýrð í nokkru Almanaki. Með því að þorri almennings mun, nú orðið, næsta ófróður um merkingu þeirra, flestra, þá hefir mér komið til hugar, að birta hér stutta lýsingu og frásögn um það efni, ásamt nokkrum einföldum reikningsformálum, sem nota má til þess, að finna með gyllinital, pakta, o. s. frv., bæði í liðinni og komandi tíð.

*Tímatal Forn-Grikkja.*

Flestar fornþjóðir, sem vér höfum sögur af, miðuðu tímatal sitt við tunglið. Það var í alla staði mjög eðlilegt; menn höfðust þá meira við úti undir berum himni en nú gerist; og það gat naumast hjá því farið, að tunglið, þessi stóri, lýsandi hnöttur á næturhimninum, vekti aðdáun og undrun. Breytingarnar á því voru líka svo áberandi: það eyddist og hvarf, kom svo aftur í augsýn, eins og nýtt tungl, stækkaði smám saman, unz það hafði náð sinni fullu stærð aftur. Og þessi umskifti voru svo reglubundin, að aldrei skeikaði svo mikið sem einum degi.

Það er mjög líklegt, að fyrst framan af hafi fornmenn talið 30 nátta tungl. En mjög snemma á öldum hafa þeir þó hlotið að sjá, að það var heldur mikið og fundið að 29½ dagur myndi vera nærri lagi. Sólon hinn spaki (639 til 559 f. Kr.), löggjafi Aþenumanna, skifti árinu í 12 mánuði (tunglmánuði); voru 29 dagar í öðrum hvorum mánuði en 30 dagar í hinum mánuðunum sex, eða alls í árinu 354 dagar. Þetta ár var því 11¼ dögum styttra en sólarár. Munurinn var svo mikill, að það hlaut fljótt að vekja eftirtekt. Var þá tekið upp á því, að skjóta inn 30 daga mánuði annaðhvort ár. En það bætti lítið úr skák, því það var 7½ degi of mikið, eða 3¾ degi til jafnaðar hvert ár. En þá kom Cleóstratus frá Tenedos Grikkjum til bjargar; hann gaf það ráð, að sleppa aukamánuðinum 8. hvert ár. Þetta fyrirkomulag virtist að koma á fullkomnu samræmi milli tungls- og sólarára, því að, $354 \times 8 + 30 \times 3 = 365\frac{1}{4} \times 8 = 2922$. En nú uppgötvuðu Grikkir, að tunglmánuðir þeirra, með 29½ dag hver, til jafnaðar, voru dálítið of stuttir; reiknaðist þeim, að það munaði 1½ degi á 8 árum, eða heilum 30 daga mánuði á 160 árum. Þegar hér var komið gáfust þeir algerlega upp við að fastsetja frekari tímatalsleiðréttingu, en kom nú

saman um, að leiðrétta átta ára hringinn hvenær sem nauðsyn krefði, til þess að halda við jafnvægi milli tímatalsins og gangs himintunglanna. En þá fyrst komst verulegur glundroði á tímatalið, bæði sökum skeytingarleysis og vanþekkingar þeirra, sem þar um áttu að sjá.

Þótt hér hafi sérstaklega verið skýrt frá þeirri baráttu, sem Grikkir áttu í, meðan þeir fóru eftir tunglinu með sitt tímatal, þá var reynzla annara þjóða í því efni engu betri. Rómverjar, t. d. urðu svo mikið "á undan tímanum," að vorjafndægrið, sem féll á 25 marz í tíð Núma konungs (715-672 f. Kr.) var komið fram í júní á fyrstu öld fyrir Krist. Þegar Júlíus Cesar endurbætti tímatal Rómverja, þá jók hann 90 dögum í árið 47 f. Kr. svo að vorjafndægrið skyldi aftur lenda á 25. marz. Í þessu ári voru 455 dagar og mun vera hið lengsta ár, sem sögur fara af.

*Tunglöld Metons. Gyllinital.*

Á fimtu öld f. Kr. var uppi á Grikklandi maður að nafni Meton. Meton þessi var nafnkunnur á sinni tíð og stjarnvitringur mikill. Gang himintungla athugaði hann með stakri nákvæmni í fleiri tugi ára. Með athugunum sínum leiddi hann í ljós, að tungl kviknar allajafna á sama dag, einu sinni á hverjum 19 sólarárum. Hann fann, ennfremur, að það verða 235 tungl á þessu tímabili, en það gerir 12 tungl á ári og 7 að auki. Þessum 7 aukatunglum var nú dreift yfir 19 ára öldina þannig, að 3., 5., 8,, 11., 13., 16. og 19. ár hafði 13 tunglmánuði, en hin öll 12 mánuði. Nú var það þegar kunnugt, að tunglaldurinn er ofurlítið meira en 29½ dagur. Reiknaðist Meton svo til, að réttast mundi að láta 125 tungl af hverjum 235 hafa 30 daga en 110 hafa 29 daga. Þessi 19 ára tunglöld Metons var þegar í stað viðtekin á Grikklandi, og fluttist svo þaðan, nokkuð löngu síðar til Rómverja, en frá þeim aftur út um alla Evrópu og hinn kristna heim. Eftir þessari tunglöld hefir verið farið með allar tunglkomur, nálega fram á vora daga, eða þangað til að stjörnufræðinni hafði farið svo fram, að menn gátu reiknað út tunglkomur og tunglfyllingar upp á klukkutíma og mínútur. Þó er enn farið eftir Metons tungli með páska í hinni kristnu kirkju.

Hvert ár tunglaldar hefir á íslenzku verið nefnt gyllinital (lat. aureus numerus). Þetta nafn sézt fyrst í rómverskum ritum (tímatalsskrám) um 530 e. Kr. Segja sumir, að nafnið muni þannig tilkomið, að klerkar urðu að vita ár tunglaldar til þess að ákveða páska; var tala hvers tunglaldar árs þeim þessvegna gullvæg í því tilliti.

Fyrsta ár eftir Krist var 2. ár tunglaldar. Er því auðvelt að finna gyllinital hvers árs með því að bæta einum við ártalið og deila svo með 19, afgangurinn er gyllinital þess árs; ef ekkert gengur af, er gyllinitalið 19. Formálinn verður þannig:

$G=\left(\frac{X+1}{19}\right)_a$, þar sem $G$ merkir gyllinitalið, $X$ ártalið cg $a$ afganginn. T. d.: Hvað er gyllinitalið 1935?

Formálinn segir, $G=\left(\frac{1935+1}{19}\right)_a=17.$

Hvað verður gyllinitalið 1956?

$G=\left(\frac{1956+1}{19}\right)_a=0$, það er að segja, það gengur ekkert af; gyllinitalið verður því 19 árið 1956. Hvað verður gyllinitalið árið 4356? $G=\left(\frac{4356+1}{19}\right)_a=6$, sem verður gyllinitalið ár 4356.

### *Paktar og Nýi Stíll.*

Eins og kunnugt er, leiðrétti Gregóríus páfi XIII. júlíanska tímatalið 1582. Boðaði hann tvo sérfróða menn í þeirri grein á sinn fund; hét annar þeirra Clavíus en hinn Lilíus, hálærður stjörnufræðingur og læknir frá Neapel á Ítalíu. Er Lilíus að mestu leyti höfundur hins nýja tímatals, sem Gregóríus innleiddi það ár (1582). En hann dó áður en verkinu var lokið, svo Clavíus lauk við það einn og reit síðan einkar nákvæma og fróðlega skýrslu yfir gerðir þeirra félaga. Er sú syrpa 800 blaðsíður í arkarbroti og var gefin út á prenti 1603.

Eftir miklar bollaleggingar og heilabrot komst Lilíus loks að þeirri niðurstöðu, að bezt væri að hætta alveg við tunglöld og gyllinital. Gyllinitalið var bygt á því, að 235 tungl væru í 19 árum, og 365¼ dagar í árinu. Framfarir í stærðfræði og stjörnufræði höfðu nú leitt í ljós, að hvorugt var rétt. Þetta átti nú að leiðrétta. Og ekki nóg með það: það átti ennfremur að sleppa 10 dögum úr árinu 1582, vegna þess, að júlíanska árið var dálítið of langt. Skekkjan, talin frá Nikeu kirkjuþinginu, er var háð 325 (e. Kr.), var nú orðin 10 dagar. Lilíus hugði, að breytingar þær, sem þyrfti að gera á gyllinitali og öllum tunglreikningi sökum þessara leiðréttinga, myndi valda mikilla óþæginda og truflunar, og því bezt að hætta við gyllinitalið. Í þess stað fann hann upp nýja aðferð að finna tunglkomur. Kallaði hann það *Epactis* (paktar, lagningartala). Paktar er viss tala fyrir hvert ár tunglaldar, sem sýnir hve gamalt tunglið er á áramótum. T. d. 1935, eru paktar 25; það merkir að tungl er 25 nátta þegar árið byrjar, 1. janúar. Nýtt tungl hlýtur þá að koma 6. janúar, og svo aftur 5. febrúar (30 dögum síðar), og þar næst 6. marz (29 dögum síðar), o. s. frv. Tunglárið er 11 dögum styttra en sólarárið, eins og áður er sagt; færist því tunglkveikingin 11 daga aftur á bak á hverju ári. Með öðrum orðum: Tunglið er 11 dögum eldra 1. janúar þessa árs en það var 1. janúar í fyrra. 1933 voru paktar 3, 1934 voru þeir 3+11=14, og 1935 eru þeir 14+11=25. 1936 verða paktar 25+11—30=6, o. s. frv.

Ef engin leiðrétting hefði verið gerð, hvorki á júlíanska tímatalinu né tunglöldinni, þá hefðu paktar líka haldið áfram óbreyttir frá því sem þeir voru frá 1582 til 1699. En nú minka paktar um einn fyrir hvern hlaupársdag, sem feldur er úr á aldamótum. Það má kalla sólarársleiðréttingu. Og svo er tunglaldarleiðrétting; hún er fólgin í því, að einum er bætt við paktana á hverjum 300 árum. Þessi aukning varð fyrst árið 1800, og verður svo 2100, 2400, 2700, o. s. frv.

þangað til að búið er að auka 7 sinnum, eða alls í 2100 ár, þá er næsta viðbót ekki fyr en að 400 árum liðnum, með öðrum orðum: Paktar aukast um einn 8 sinnum á hverjum 2500 árum. Lilíus vissi nefnilega, að einn dagur á 300 árum var heldur mikið og lét þessvegna 8. bilið vera 100 árum lengra. Þessi 2500 ára hringur hófst árið 1800; verður þá tunglaldarleiðrétting árið 4300 en ekki 4200, sem hefði átt að vera, ef alt af hefði verið hlaupið á 300 árum. Árið 1600 varð engin breyting á pöktum, því að þá var hlaupár; 1700 var ekki hlaupár, svo paktar minkuðu um einn. 1800 var heldur ekki hlaupár, og paktar minkuðu um einn; en þá var líka tunglaldar leiðrétting, svo paktar jukust um einn. Þessar tvær leiðréttingar, hin fyrri mínus, sú síðari plús, eyddu hvor annari, og paktar breyttust ekki. Árið 1900 var ekki hlaupár, paktar minkuðu um einn; ár 2000 verður hlaupár og paktar breytast ekki; ár 2100 ekki hlaupár, paktar minka um einn, en þá er einnig tunglaldar leiðrétting, sem eykur paktana um einn; og útkoman verður: engin breyting. Árin 2200 og 2300 verða hvorugt hlaupár, paktar minka því um einn í bæði skiftin. Ár 2400, hlaupár; þá verður engin sólarárs leiðrétting, en aftur á móti verður tunglaldar leiðrétting það ár, svo paktar verða nú einum meiri en næstu öld á undan. Þessi skýring ætti að nægja hverjum þeim, sem hefir löngun til að fræðast um paktana og breytingar þær, sem á þeim verða á komandi öldum.

Vilji maður finna pakta á hvaða ári og öld, sem vera skal, þá má nota til þess eftirfylgjandi formála. Þessi formáli er samansettur af þremur setningum eða jöfnum: 1. Paktar eftir júlíanska tímatali frá 1582 til 1699, samkvæmt reikningi Lilíusar. 2. Sólarársleiðrétting. 3. Tunglaldar leiðrétting.

1. Árið:

| | | |
|---|---|---|
| 1582 | gyllinital 6 | paktar 26. |
| 1583 | gyllinital 7 | paktar 26+11—30= 7 |
| 1584 | gyllinital 8 | paktar 7+11 =18 |
| 1585 | gyllinital 9 | paktar 18+11 =29 |
| 1586 | gyllinital 10 | paktar 29+11—30=10 |

Og svo koll af kolli, 11 bætt við, árlega, tunglöldina á enda; en hvenær sem paktatalan fer yfir 30, verður að varpa burt 30, afgangurinn er paktar þess árs. Ef vér nú köllum þessa júlíönsku pakta $J$, þá er auðsætt, að

$$J=\left(\frac{11(G-6)+26}{30}\right)_a=\left(\frac{11G-40}{30}\right)_a$$

þar sem $G$ merkir gyllinitalið og $a$ afganginn. Nú má breyta síðara brotinu svo það verði léttara að nota, sem formála, og sömuleiðis má varpa burt 30, því það hefir engin áhrif á afganginn, sem leitað er að. Jöfnurnar verða þá,

$$J=\left(\frac{G+10(G-1)}{30}\right)_a.$$

2. Sólarársleiðréttingin. Úrfelling hlaupársdaganna á aldamótum má tákna þannig:

$S=-(c-16)+\left(\frac{c-16}{4}\right)_h$. $S$ merkir sólarársleiðréttingu, $c$ aldatalið og $h$ heila tölu, ef nokkur er.

3. Tunglaldarleiðrétting. Aukning paktanna um einn dag 8 sinnum á hverjum 2500 árum, svo sem nánar er skýrt frá hér að framan, má tákna þannig:

$T=\left(\frac{c-15-d}{3}\right)_h$ þar sem $T$ merkir tunglaldarleiðrétting, $c$ aldatalið, $d=$

$\left(\frac{c - 17}{25}\right)_h$, og $h$ merkir heila tölu, ef nokkur er. Formálnn allur í heilu lagi, þar sem $P$ táknar paktana, verður þá:

$$P=\left(\frac{G+10(G-1)}{30}\right)_a - (c-16)+\left(\frac{c-16}{4}\right)_h + \left(\frac{c-15-d}{3}\right)_h$$

Með þessum formála má finna pakta fyrir hvaða ár sem vill í tímatali Gregóríusar (nýja stíl).

Dæmi: Hverjir eru paktar árið 1936, gyllinital 18?

$$P = \left(\frac{18+10(18-1)}{30}\right)_a - (19-16) + \left(\frac{19-16}{4}\right)_h + \left(\frac{19-15-0}{3}\right)_h$$

$$= \left(\frac{188}{30}\right)_a - 3 - \left(\frac{3}{4}\right)_h + \left(\frac{4}{3}\right)_h$$

$= 8 - 3 - 0 + 1 = 6$, sem eru paktar ársins 1936.

Það er auðsætt. að þar sem $d=\left(\frac{c-17}{25}\right)_h$ þá muni útkoman úr því eigi nema heilli tölu fyr en $c=42$. Það má því sleppa $d$ úr reikningnum á öllum árum fyrir 4200.

Annað dæmi: Hverjir munu paktar verða árið 4356, gyllinital 6?

Í þessu dæmi er $d=\left(\frac{43-17}{25}\right)_h = 1$. Þá er

$$P = \left(\frac{6 + 10(6-1)}{30}\right)_a - (43-16) + \left(\frac{43-16}{4}\right)_h + \left(\frac{43-15-1}{3}\right)_h = \left(\frac{56}{30}\right)_a$$

$$- 27 + \left(\frac{27}{4}\right)_h + \left(\frac{27}{3}\right)_h = 26 - 27$$

$+6+9=14$. Alt svo eru 14 paktar ársins 4356.

### *Sunnudagsbókstafur.*

Sérhverjum degi vikunnar hefir verið gefinn einn bókstafur; eru það 7 fyrstu stafir stafrófsins: *A, B, C, D, E, F*, og *G*. Fyrsti janúar hefir ætíð *A* að upphafsstaf, 2. janúar *B*, 3. *C*, o. s. frv. Ef 4. janúar er á sunnudag, þá er *D* sunnudagsbókstafur þess árs, því 4. janúar lendir á *D*. Nú eru 52 vikur og einn dagur í almennu ári, svo hvert ár byrjar einum degi síðar í viku en næsta ár á undan; en þar af leiðir, að sunnudagurinn verður einum degi fyr í mánuðinum en árið áður. T. d.: 1934 bar 7. janúar á sunnudag, sunnudagsbókstafur því *G*; 1935 er sunnudagur 6. janúar og sunnudagsbókstafur *F*. Á hlaupári bætist einn dagur við febrúar, og fyrir vikið byrjar marz einum degi viku síðar en ella. Marz hefir ætíð *D* að upphafsstaf, eins þótt hlaupár sé, en þar af leiðir aftur, að nú verður sunnudagur, frá 29. febrúar að telja, til ársloka, tveimur dögum fyr en árið áður. 1936 verður hlaupár og sunnudagur 5. janúar, sunnudagsbókstafur *E* til febrúarloka og *D* úr því til ársloka. Af þessu er ljóst, að sunnudagsbókstafur þokast einn staf aftur á bak á almennum árum, en tvo eftir 29. febrúar, á hlaupárum.

Fyrsta ár fr. Kr. var sunnudagsbókstafur $C=3$. Fyrsta ár e. Kr. var sunnudagsbókstafurinn einum minni, þ. e. $3-1=2$, eða *B*; annað ár e. Kr. var hann $3-2=1$, eða *A*. Næsta ár var sunnudagsbókstafur *G*, því að röðin gengur alt af aftur á bak, frá *G* til *A* og byrjar svo aftur á *G*. En þareð $G=7$, þá legg eg 7 við 3 og dreg svo ártalið frá: $3+7=10$; $10-3=7$. Þar með er sunnudasstafurinn fyrir ár 3 e. Kr. fundinn. Þessi aðferð er sígild, því að hve nær sem tala stafanna og ártalið, að viðbættum hlaupársdögum standast á, þá þarf ekki annað en að bæta 7 við sunnudagsstafa töluna og draga áratöluna frá, afgangurinn er sunnudagsbókstafur þess árs. Eftirfarandi töflukorn skýrir þetta, ef til vill, betur:

| | | | | | | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 3 | + | | 7 | | | + | | 7 | | | + | | | 7 | | |
| C, | B, | A, | G, | FE, | D, | C, | B, | AG, | F, | E, | D, | CB, | A, | G, | F | |
| | 1, | 2, | 3, | 4, | 5, | 6, | 7, | 8 | 9, | 10, | 11, | 12, | 13, | 14 | 15, | ár e. K. |
| | | | | 1 | | + | | 1 | + | | | 1 | | ........hlaupársdagar | | |

Að þessu athuguðu er hægðarleikur að semja formála, sem er mjög auðvelt að finna sunnudagsbókstaf eftir.

1. Fyrir júlíanska tímatalið (gamla stíl):

$B = 3 + 7m - X - \left(\frac{X}{4}\right)_h$ þar sem $B$ merkir sunnudagsbókstafinn, 3 er tala stafsins fyrsta ár fyrir Krist, $X$ ártalið, $h$ heila talan, og $m$ tala, sem margfölduð með 7, er þannig, að aðal útkoma formálans verði meiri en 0 og minni en 8.

Dæmi: Hver var sunnudagsbókstafur árið 930 (e. Kr.)?

$B = 3 + 7m - 930 - \left(\frac{930}{4}\right)_h = 3 + 7m - 930 - 232, = 7\text{x}166 - 1159 = 1162 - 1159 = 3 = C$, sem var sunnudagsbókstafur, ár 930 (e. Kr.).

2. Fyrir Gregóríusar tímatalið (nýja stíl):

Þessi formáli verður ofurlítið lengri, bæði sökum þess, að í hann verður að bæta þeim 10 dögum, sem Gregóríus slepti úr árinu 1582, og svo líka hins, að vegna úrfellingu aldamótahlaupársdaganna eftir 1600 er önnur leiðrétting nauðsynleg.

Formálinn verður á þessa leið:

$$B = 7m + 3 + 10 - X - \left(\frac{X}{4}\right)_h + (c - 16) - \left(\frac{c - 16}{4}\right)_h.$$

3+10=13. Eg varpa burt 7, því það hefir engin áhrif á útkomuna; verða eftir 6.

Dæmi: Hver er sunnudagsbókstafur 1935?

$B = 7m + 6 - 1935 \left(\frac{1935}{4}\right)_h + (19 - 16) - \left(\frac{19 - 16}{4}\right)_h, = 7m - 1929 - 483 + 3 - 0, = 7\text{x}345 - 2409 = 2415 - 2409 = 6 = F$, sem er sunnudagsbókstafur ár 1935.

Annað dæmi: Hver mun verða sunnudagsbókstafur 4356 sem verður hlaupár?

$B = 7m + 6 - 4356 - \left(\frac{4356}{4}\right)_h + (43 - 16) - \left(\frac{43 - 16}{4}\right)_h. = 7m - 4350 - 1089 + 27 - 6, = 7\text{x}775 - 5418 = 5425 - 5418 = 7 = G$.

Sunnudagsbókstafur verður því $G$ árið 4356, frá marzbyrjun til ársloka, því að formálinn gefur ætíð síðari stafinn, en $A$ fyrir janúar og febrúar. Sunnudagsbókstafir ársins 4356 eru þá $AG$.

## *Páskar.*

Kirkjuþingið mikla, sem háð var í Nikeu í Litlu Asíu árið 325 e. Kr. mælti svo fyrir, að páska skyldi halda næsta sunnudag eftir þá tunglfyllingu, er verður 21. marz. Ef tungl verður ekki fult 21. marz, þá skulu páskar vera næsta sunnudag eftir hina fyrstu tunglfyllingu, er verður upp úr 21. marz. Verði tunglið fult á sunnudag, þá skulu páskar haldast viku síðar, þ. e. næsta sunnudag eftir tunglfyllinguna. Samkvæmt þessu geta páskar í fyrsta lagi orðið 22. marz, og þá því aðeins, að tunglið verði fult 21. marz og það sé laugardagur, og ennfremur, að paktar ársins séu 23, því tungl verður ekki fult 21. marz nema þegar paktar eru 23. Páskar komu 22. marz einu sinni á öldinni sem leið (1818). Þá var sunnudagsbókstafur $D$, gyllinital 14 og paktar 23. Svo kemur það ekki fyrir aftur fyr en árið 2285; þá verður sunnudagsbókstafur $D$, gyllinital 6 og paktar 23.

Hvenær sem paktar eru 24 verður tungl fult 20 marz. Það er samt ekki páskatungl, vegna þess, að sú fylling verður einum degi of snemma til þess, að hlíta ákvæði Nikeuþingsins. Þegar þannig er á statt, verða páskarnir að bíða næstu tunglfyllingar, sem verður 29 dögum síðar, eða 18. apríl, því að paktareglurnar mæla svo fyrir,

að allajafna þegar paktar eru 24, skuli marztunglið hafa 29 daga aðeins. Ef nú 18. apríl ber á sunnudag, þá verða páskar viku síðar, þ. e. 25 apríl. Seinna geta þeir aldrei orðið. Það skeður 1943, og svo ekki aftur fyr en árið 2038.

En það er ekki alt búið enn. Páskar geta líka komið 25. apríl þegar paktar eru 25, bundið því skilyrði þó, að *gyllinitalið sé minna en 12.* Tungl verður fult 19. marz, ætíð þegar paktar eru 25; þaðan ber að telja 30 daga, eða á 18. apríl, til næstu tunglfyllingar, hvenær sem gyllinitalið er fyrir innan 12. Ef 18. apríl er á sunnudag, þá er auðsætt, að páskar verða þann 25. Það kom síðast fyrir 1886; þá voru paktar 25, gyllinital 6 og sunnudagsbókstafur *C.* Næst verður það árið 2326; paktar verða þá enn 25, gyllinital 9 og sunnudagsbókstafur *C.* Þar næst verður það 2573. Hvenær sem paktar eru 25 og gyllinitalið *yfir 11,* þá skal telja 29 daga aðeins, frá tunglfyllingunni 19. marz til fyllingar páskatunglsins, sem þá lendir á 17. apríl. Páskar geta því ekki orðið síðar en 24. apríl á þeim árum.

Lesendur eru beðnir að hafa það hugfast, að allar tunglkomur og fyllingar, sem hér eru sýndar, eru dagsettar samkvæmt þeim reglum, er paktarnir fyrirskipa. Lilíus sá, sem fyr er getið og mest vann að því, að endurbæta tímatalið fyrir Gregóríus páfa, samdi töflur, er sýna tunglkomurnar á mánuði hverjum, ár frá ári, frá 1582 og fram eftir öllum öldum. Almanök voru fá og í fárra manna höndum á 17. og 18. öld; en eftir tungl- og pakta-töflum Lilíusar gat hver almúgamaður fundið tunglkomur með hægu móti. Tunglfyllingin var talin á 14. degi tungls samkvæmt ákvæði Nikeu þingsins, sem var látið haldast óbreytt.

Nú er það enginn vandi að finna páska, ef maður veit hverir eru paktar ársins. Segjum t. d., að paktarnir séu 6 (ár 1936). Það þýðir að tungl var 6 nátta gamalt við ársbyrjun; og hið sama gildir um marz, því að þeir tveir mánuðir (janúar og marz), fylgjast ætíð að með aldur tunglsins. Nýtt tungl hlýtur þá að koma 25. marz ($31 - 6 = 25$). Og fult verður það 7. apríl ($25 + 13 = 38 = 31 + 7$). Sunnudagsbókstafir 1936, eru *ED, D.* 1. marz til ársloka. 7. apríl er þá á þriðjudag, þareð apríl hefir ætíð *G* að upphafsstaf; og páskar verða næsta sunnudag, eða 12. apríl.

Af þessu sést, að það er vandalítið, að finna fyllingu páskatunglsins, aðeins að muna það, að þegar tunglið verður fult fyrir 21. marz, þá skal telja 30 daga *frá* þeirri fyllingu til fyllingar páskatunglsins, með þeirri undantekningu, að þegar paktar eru 24, ber að telja 29 daga aðeins, og eins þegar paktar eru 25 og gyllinital 12 eða meira. Þar með er allur vandinn leystur.

Þegar fram liðu stundir, þóttust menn taka eftir því, að tungl kviknaði nokkru fyr, en paktatöflurnar gáfu til kynna; varð það til þess, að ýmsir, einkum prestar og

prélátar mótmælenda kirkjunnar tóku sig til og sömdu rímtöflur, bókrím og fingrarím og létu tungl koma um tveimur dögum fyr en paktarnir gera ráð fyrir. Tunglfyllingunni munu þeir þó eigi hafa raskað; svo nú varð tunglið fult hjá þeim á 16. degi, eða þegar það var fullra 15 nátta gamalt. En þótt þeir ömuðust við tímatalsreikningi og rímreglum hinna katólsku, svo sem "Fingrarím" Jóns biskups Árnasonar*) ber ljósan vott um, þá létu þeir þó páskana í friði. Þessi færsla á tunglkomunni tvo daga aftur á bak var ekki mikil leiðrétting, eða réttara sagt, of mikil leiðrétting, því það kviknar, oftar en hitt, alt að því einum degi síðar.

Set eg hér, til gamans, töflukorn, sem sýnir tunglkomu samkvæmt pöktum og Fingrarími Jóns biskups Árnasonar í marz-mánuði á sérhverju ári tunglaldar, 1881 til 1899, en í síðasta dálki til hægri handar er hin rétta tunglkoma á Íslandi fyrir sömu ár. Rétta tunglkomu kalla eg þá, sem Almanökin greina, en upp í þau er hún tekin úr stjarnfræðistöflum, sem sýna, með öðru fleira, hvar tunglið er á braut sinni umhverfis jörðu á hverjum klukkutíma dag hvern, alt árið í kring. Töflur þessar eru gefnar út að tilhlutun hinna ýmsu stjórnarvalda, oftast tveimur árum eða meira "fyrir tímann."

*SAMANBURÐARTAFLA*

Yfir tunglkomu í marz 1881-1899, ákveðin með þremur mismunandi aðferðum.

| Ár | Gyllinital | Paktar | Nýtt tungl samkvæmt pöktum | Nýtt tungl samkv. Fingrarími J. Á. | Rétt tunglkoma í Reykjavík á Íslandi |
|---|---|---|---|---|---|
| 1881 | 1 | 30 | 1. marz | 28. feb. | 28. feb. 10:05 f.m. |
| 1881 | 1 | 30 | 31. " | 29. marz | 29. marz 9:05 e.m. |
| 1882 | 2 | 11 | 20. " | 18. " | 19. " 10:49 f.m. |
| 1883 | 3 | 22 | 9. " | 7. " | 9. " 3:04 f.m. |
| 1884 | 4 | 3 | 28. " | 26. " | 27. " 4:20 f.m. |
| 1885 | 5 | 14 | 17. " | 15. " | 16. " 4:09 e.m. |
| 1886 | 6 | 25 | 6. " | 4. " | 5 " 8:37 e.m. |
| 1887 | 7 | 6 | 25. " | 23. " | 24. " 2:42 e.m. |
| 1888 | 8 | 17 | 14. " | 12. " | 12. " 2:53 e.m. |
| 1889 | 9 | 28 | 3. " | 1. " | 1. " 8:33 e.m. |
| 1890 | 10 | 9 | 22. " | 20. " | 20. " 7:33 e.m. |
| 1891 | 11 | 20 | 11. " | 9. " | 10. " 10:23 f.m. |
| 1892 | 12 | 1 | 30. " | 28. " | 28. " 11:50 f.m. |
| 1893 | 13 | 12 | 19. " | 17. " | 18. " 3:06 f.m. |
| 1894 | 14 | 23 | 8. " | 6. " | 7. " 12:51 e.m. |
| 1895 | 15 | 4 | 27. " | 25. " | 26. " 8:57 f.m. |
| 1896 | 16 | 15 | 16. " | 14. " | 14. " 9:20 f.m. |
| 1897 | 17 | 26 | 5. " | 3. " | 3. " 10:28 f.m. |
| 1898 | 18 | 7 | 24. " | 22. " | 22. " 7:09 f.m. |
| 1899 | 19 | 18 | 13. " | 11. " | 11. " 6:25 f.m. |

*)J. Árnason: Fingrarím, Kmh. 1739.

Eg hefi orðið var við þá hugmynd, að stjörnufræðingar taki meðaltal af misjöfnum umferðarhraða tunglsins, og að þeir noti svo þær meðaltölur til þess að sýna nýtt tungl, o. s. frv. Slíkt er misskilningur. Samkvæmt reikningi stjörnufræðinga er tungl nýtt og líka fult á því augnabliki, er miðpunktar sólar, tungls og jarðar eru allir þrír, samtímis, í beinum fleti, sem skerst lóðrétt gegnum flöt jarðbrautar og hann framlengdan, — nýtt, þegar það er sólarmegin við jörðu, en fult, gegnt sólu. Það er all-flókinn reikningur; tunglið sætir oft mörgum og miklum truflunum, ýmist með- eða mótverkandi. Alt slíkt verður að taka til nákvæmrar íhugunar ef nokkur von á að geta orðið þess, að vita fyrirfram á hverju augnabliki miðpunktur sólar, tungls og jarðar standast á, og eins, að geta sagt fyrir, upp á mínútu, myrkva á sólu og tungli.

Eins og áður er sagt, má finna páska ef paktar og sunnudagsbókstafur eru þektir. En mörgum mun þykja hentugra, að hafa til þess þar til gerðan formála. Skal nú sýnt hvernig það má verða, með mjög svo einföldu móti:

Látum $E$=dagafjöldann frá 21. marz þangað til páskatunglið er á 15. aldurs degi. Og $e$=dagafjöldann frá 21. marz til páskadags. $B$=sunnudagsbókstaf ársins; og, $b$=bókstaf þess dags, sem 15. dagur páskatunglsins ber upp á.

Þareð nú páskadagurinn er sá sunnudagur, sem er næst eftir 14. dag páskatunglsins, þá er auðsætt, að

$$e=E+(B-b).$$

Nú er það ennfremur auðsætt. að tungl verður fult 21. marz þegar $E=1$, og að nýtt tungl kemur 8. marz ($21-13=8$). Næsta tungl á undan, sem er undantekningarlaust 30 nátta tungl, hlýtur að vera 23. nátta í marzbyrjun. og þá lka 23. nátta í janúarbyrjun. Paktar ársins alt svo 23. Þegar $E=2$, kemur nýtt tungl 9. marz og paktar þarafleiðandi 22; og yfir höfuð: þegar $E$ verður $1+x$ þá verður $P$ $23-x$, og, $E+P=1+x+23-x=24$; og $E=24-P$.

Sömuleiðis, þegar $E=1$, þá er $b=D=4$, því að 22. marz hefir $D$ fyrir vikustaf. En nú er það líka auðsætt. að hvenær sem $b$ eykst um einn, það er að segja, þegar tunglið verður fult degi síðar, þá verða paktarnir einum minni; og yfir höfuð: þegar $b=4+x$, þá er $P=23-x$, og, $b+P=4+x+23-x=27$; og $b=27-P$.

En nú getur $E$ aldrei orðið minna en einn, né $b$ minna en 4, og í báðum tilfellum er $P=23$. En ef $P$ er meira en 23, þá verður að auka $P$ og $E$, ýmist um 29 eða 30.

Með þessum forsendum má auðveldlega semja páskaformála á þessa leið:

1. Þegar $P<24$ $\left(\begin{array}{l} E=24-P \\ b=27-P, \text{ eða} \end{array}\right.$ $\left(\frac{27-P}{7}\right)_a$

2. Þegar $P=24$, og eins þegar $P=25$, ef gyllinitalið er 12 eða meira.

Þá verður: $\left(\begin{array}{l} E=53-P \\ b=56-P, \text{ eða} \end{array}\right.$ $\left(\frac{56-P}{7}\right)_a$

3. Þegar $P=25$ og gyllinitalið er 11 eða minna, og eins,

þegar $P>25$ $\left(\begin{array}{l} E=54-P \\ b=57-P, \text{ eða} \end{array}\right.$ $\left(\frac{57-P}{7}\right)_a$

En $e=E+(B-b)$=dagafjöldann frá 21. marz til páskasunnudagsins.

Athugasemd: Þegar $(B-b)$ verður neikvætt, þá skal auka $B$ um 7.

Dæmi: Hvenær koma páskar 1936?

Árið 1936 er gyllinital 18, paktar 6, og sunnudagsbókstafir $ED$. Eg tek seinni stafinn, $D=4$. Þessi reikningur kemur undir 1. lið formálans, þareð paktar eru minni en 24. Þessvegna:

$$E=24-6=18;\quad b=27-6, \text{ eða } \left(\frac{27-6}{7}\right)_a=0.$$

Og $e=18+(4-0)=22$, sem er dagafjöldinn frá 21. marz til páskadagsins. En $22+21=43$; $43-31=12$. Páskar koma því 12. apríl árið 1936.

Annað dæmi: Hvenær verða páskar 1954?

Gyllinitalið: $G=\left(\frac{1954+1}{19}\right)_a=17.$

Paktar: $$P=\left(\frac{17+10(17-1)}{30}\right)_a-(19-16)+\left(\frac{19-16}{4}\right)_h+\left(\frac{19-15-d}{3}\right)_h$$
$$=27-3-0+1=25.$$

Sunnudagsbókstafur: $$B=7m+6-1954-\left(\frac{1954}{4}\right)_h+(19-16)-\left(\frac{19-1C}{4}\right)_h$$
$$=7m-1948-488+3-0,$$

$=7x348 - 2433 = 2436 - 2433 = 3 = C$

Þetta dæmi heyrir undir 2. lið páskaformálans, með því að paktar eru 25 og gyllinital meira en 11:

$E = 53 - 25 = 28$; $b = 56 - 25$, eða $\left(\frac{56-25}{7}\right)_a = 3$; $e = 28 + (3 - 3) = 28$; en $28 + 21 = 49$; $49 - 31 = 18$.

Páskarnir koma þessvegna 18. apríl árið 1954.

3. dæmi: Ár 2223 verður gyllinital 1, paktar 28 og sunnudagsbókstafur $E=5$. Hér eru paktar meira en 25, svo eg nota 3. lið formálans:

$E = 54 - 28 = 26$; $b = 57 - 28 = 29$, eða $\left(\frac{29}{7}\right)_a = 1$;

og $e = 26 + (5 - 1) = 30$; tel svo 30 áfram frá 21. marz og lendi á 20. apríl, sem er páskadagur þess árs (2223).

4. dæmi: Hvenær munu páskar koma árið 4356?

Hér að framan hefir verið sýnt, að þessa árs gyllinital er 6, paktar 14 og sunnudagsbókstafir *AG*. Eg tek síðari stafinn, $G=7$:

$E = 24 - 14 = 10$; $b = 27 - 14$, eða $\left(\frac{27-14}{7}\right)_a = 6$;

$e = 10 + (7 - 6) = 11$, sem sýnir, að páskar koma 11 dögum eftir 21. marz, eða 1. apríl árð 4356.

5. dæmi: Að lokum skulum við aðgæta páskakomuna 1949.

Samkvæmt formálareglunum er gyllinital það ár 12, paktar 30 og sunnudagsbókstafur $B=2$. Þá verður:

$E = 54 - 30 = 24$, og $b = 57 - 30$, eða $\left(\frac{57-30}{7}\right)_a = 6$; en $e = 24 + (2 - 6)$. Hér er svigastærðin $(2 - 6)$ neikvæð, eg bæti því 7 við 2, og rita $24 + (9 - 6) = 27$. $27 + 21 = 48$; $48 - 31 = 17$. Páskadaginn ber þessvegna upp á 17. apríl 1949.

Eg hefi fjölyrt nokkuð um páskana, vegna þess, að þeir eru sú þungamiðja, sem alt, er hér hefir verið gert að umtalsefni: paktar, gyllinital, o. s. frv., að miklu leyti snýst um. Áður fyr, á 17. og 18. öld, t. d., var það leikur einn fyrir fólk, alment, að finna páska, og sömuleiðis tunglkomur, á öllum ársins mánuðum, eftir gyllinitali og pöktum, eða öðrum einföldum reglum, sem fingrarímin kendu. En nú er öldin önnur, nú hlaupum við í almanakið, hvenær sem okkur fýsir að vita hvernig stendur á tungli. Ekki svo að skilja, að það sé nokkuð aðfinsluvert; almanakstunglið er réttara en paktatunglið, og við heimtum meiri nákvæmni nú, í öllum efnum en afar vorir og langafar gerðu. En hitt er það, að það er nógu skemtilegt og alls eigi ófróðlegt, að kunna nokkur deili á tímatalsreikningi og rímtali forfeðranna. Og svo líka annað: Með því að það er paktatunglið, en ekki almanakstunglið, þ. e. hið rétta *astrónómiska tungl*, sem ræður páskakomu, og með því líka, að okkur máske stundum langar til að vita hvenær páskar komi, áður en almanakið kemur út, þá stöndum við ráðþrota, nema því aðeins, að einhverri rímþekkingu sé til að dreifa. Er það þá einmitt paktareikningurinn, sem að sjálfsögðu er vissastur og ábyggilegastur, þar eð hann liggur til grundvallar fyrir páskakomunni.

Það má annars, í fljótu bragði, virðast nokkuð undarlegt, að láta paktatunglið en ekki almanakstunglið (tungl stjörnufræðinganna) ráða páskunum. En ef betur er gáð að, þá er það eflaust heppilegast og bezt, á meðan ákvæðum Nikeu kirkjuþingsins er eigi breytt né haggað, að öðru leyti. Paktarnir ákveða nýtt tungl og fult, ekki nákvæmara en upp á mánaðardag, og sá mánaðardagur gildir jafnt um heim allan. Almanakstunglið aftur á móti, er ákveðið upp á klukkutíma og mínútur, sem breytist eftir hnattstöðu, færist t. d. aftur á bak um einn

klukkutíma á hverjum 15 lengdarstigum til vesturs. Hvað páskunum viðvíkur, gæti útkoman stundum orðið sú, að þeir væru viku fyr í einum stað en öðrum. Því til sönnunar mætti benda á árið 1930. Á Íslandi var tungl fult á sunnudag 13. apríl, kl. 4:48 f. m. Samkvæmt reglunum skyldu páskar vera þar næsta sunnudag, þ. e. 20. apríl. Hér í Bremerton var klukkan 9:48 e. m. á laugardaginn 12. apríl, þegar þetta sama tungl varð fult. Eftir því hefðu páskar átt að haldast hér næsta sunnudag, sem var að morgni eða 13. apríl.

*Sólaröld.*

Margar fleiri aldir og tímabil frá fornri tíð mætti nefna. Skal hér aðeins með fáum orðum minst á þrjár, í viðbót við það, sem á undan er gengið: Sólaröld, Skattöld Rómverja og Júlíanska tímabilið.

Sólaröld hefir 28 ár. Talið er líklegt, að hún hafi ekki orðið til fyr en á dögum Nikeu-þingsins. Sólaröld á ekkert skylt við gang sólar og mætti miklu fremur heita sunnudagastafaöld, af því að hún var aðallega höfð til þess, að gera mönnum léttara fyrir, að finna sunnudagsbókstafinn. Svo sem áður er skýrt, er sunnudagsbókstafur einn á hverju almennu ári en tveir á hlaupárum. Sólaröld var látin byrja með hlaupári og því ári gefnir sunnudagsstafirnir *GF*, sem var í alla staði eðlilegt, með því að stafirnir ganga jafnan afturábak (*G, F, E, D, C, B, A*). Nú eru 4 ár í hverju hlaupárstímabili í gamla stíl, og viku- eða dagastafirnir eru 7. Það er þessvegna auðsætt, að sunnudagsstafirnir gátu eigi komið í sömu röð, né sömu stafir á hlaupárum oftar en einu sinni á 7 sinnum 4 árum, þ. e. einu sinni á 28 ára fresti. Árið 328 e. Kr. var 1. ár sólaraldar. Reikni maður aftur á bak kemur í ljós, að 1. ár e. Kr. hefði átt að vera 10. ár sólaraldar. Samkvæmt því er auðvelt að finna ár sólaraldar á hvaða ári sem vera skal, því að ekki er annar vandinn en að bæta 9 við ártalið og deila svo summunni með 28; afgangurinn er sólaraldar ár þess árs; gangi ekkert af, er 28. ár aldar. Ritað í formálaformi verður þetta:

$S = \left(\frac{X+9}{28}\right)_a$ þar sem $S$ merkir sólaraldarárið, $X$ ártalið og $a$ afganginn. Dæmi: *Hvert er ár sólaraldar 1936?* Svar, 13. ár, því að,

$$S = \left(\frac{1936+9}{28}\right)_a = 13.$$

Þegar tímatalið var endurbætt 1582 komst ruglingur á sunnudagsbókstafina, svo að síðan hefir sólaröldin eigi byrjað á *GF* eins og hún gerði allajafna í gamla stíl. Það kom til af því, að 10 dagar voru feldir úr fyrsta ári nýja stíls, og síðan hefir þremur dögum verið slept í viðbót. Á yfirstandandi öld hefst sólaröld á sunnudagsstöfunum *FE*. Engin breyting verður á núverandi stafaröð fyr en árið 2100; það ár verður enn einum degi slept. Það er ef til vill ofurlítið fljótlegra, að finna sunnudagsbókstaf með sólaröld heldur en með sunnudagsbókstafs formálanum, munurinn sá, að sólaraldar aðferðin dugar ekki lengur en til loka 21. aldar, en hin aðferðin er ævarandi.

*Skattöld Rómverja.*

Skattöld Rómverja er 15 ára tímabil. Hún er þannig til orðin, að stjórnarvöldin rómversku lögðu sérstakan skatt á þjóðina, til þess, að ná saman fé til herbúnaðar og stríðskostnaðar. Þessi skattlög voru látin standa óbreytt í 15 ár. Að þeim tíma liðnum voru þau tekin til íhugunar á ný, endurskoðuð, aukin eða breytt, eftir því sem við þótti þurfa, í það og það skiftið. Að því búnu lét keisarinn boð út ganga, kunngerandi öllum, sem lutu hans veldi, að virðing hefði farið fram á eignum manna um gervalt keisaradæmið, og eftir þeirri virðingu yrði farið með skattálögur í næstkomandi 15 ár. Slíkur boðskapur var nefndur *indictio* á rómversku máli; en síðar fluttist þetta heiti yfir á tímabilið sjálft, sem þá var nefnt *indictio Romæ,* til aðgreiningar frá grísku 15 ára tímabili, sem var með nokkuð líkum hætti.

Þegar fram liðu stundir, tóku ýmsir að miða ártalið við þessa rómversku skattöld, þótt venjan hefði lengst af verið sú, að telja frá upphafi Rómaborgar. Sagt er að Konstantínus mikli (272-337) hafi tekið það upp fyrstur manna, og svo sögu- og annálaritarar eftir hans daga. Fjöldi kirkjurita og nokkrar páfabullur frá 4. og 5. öld eru dagsett að skattaldartali. Það tímatal, sem nú höfum vér og hefst með fæðingu Krists, kom ekki á gang fyr en á 6. öld. Höfundur þess er talinn rómverskur ábóti, Dionysius Exiguus (þ. e. hinn litli) að nafni, dáinn um 540 e. Kr. Þetta nýja tímatal var þá þegar tekið upp á Ítalíu og færðist það svo smám saman norður um álfuna á næstu öldum. Til Íslands kom það með kristnitökunni árið 1000.

Skattöld Rómverja var látin hefjast með árinu 313 e. Kr. Var þá sagt að þetta eða það hefði skeð t. d. á 3. ári 1. skattaldar, á 12. ári 5. aldar, o. s. frv. Ef við nú teljum til baka, þá lendir 4. ár skattaldar á 1. ár e. Kr. Formáli til að finna með skattöld Rómverja verður þá:

$R = \left(\frac{X+3}{15}\right)_a$, þar sem $R$ merkir skattaldarárið, $X$ ártalið og $a$ afganginn. Ef ekkert gengur af, er 15. ár skattaldar. Vilji eg t. d. vita hvert sé ár skattaldar 1936, þá er,

$$R = \left(\frac{1936+3}{15}\right)_a = 4.$$

*Júlíanska tímabilið.*

Þetta tímabil varð ekki til fyr en á 16. öld e. Kr. Höfundur þess var Joseph Justus Scaliger (1540-1609). Hann var ítalskur að ætt, en fæddur á Frakklandi og ól þar allan sinn aldur, að undanteknum 13 síðustu árum æfinnar, er hann var kennari í háskólanum í Leyden á Hollandi og lézt þar 1609.

Scaliger var með lærðustu mönnum meðal Frakka á sinni tíð, tungumálagarpur mikill og allra manna fróðastur um tímatal fornaldarþjóða. Eftir hann liggja mörg rit um bókmentir Grikkja og Rómverja, og 1583 birtist frá honum sérstakt rit um tímatal þeirra og annara fornþjóða. Í þessu riti bætir Scaliger við nýrri öld, sem hann kallar Júlíanska tímabilið, kendi það við föður sinn, Júlíus Cæsar Scaliger, sem líka var fróðleiksmaður mikill, heimspekingur og skáld. Þessa nýju öld bjó Scaliger til upp úr þremur eldri

öldum: tunglöld, sólaröld og skattöld Rómverja, þannig, að hann margfaldaði þær allar saman, svo í henni verða 7980 ár (19x28x15=7980). Lét hann þessa öld byrja 1. jan. 4713 f. Kr., því að þá hefðu allar hinar aldirnar orðið samferða á þeirra fyrsta ári. Það er auðsætt, að þær verða aldrei allar í sömu röð nema einu sinni á hverjum 7980 árum, og upphaf þeirra fer ekki saman aftur fyr en 3268 e. Kr.

Það útheimtir dálítið meiri reikning, að finna ár Júlíanska tímabilsins en hinna aldanna. Fyrir þá, sem gaman kunna að hafa af reikningi skal nú sýnt hvernig það má hægast verða með einfaldri talnasundurliðun. Fyrst má íhuga, að með því að Júlíanska öldin er pródúkt sólaraldar, tunglaldar og Skattaldar Rómverja, þá er auðsætt, að $J=28x+S=19y+G=15z+R$, þar sem $J$ merkir ár Júlíanska tímabilsins. Vilji eg nú finna ár Júlíönsku aldar 1936, þá höfum við áður fundið, að þá er sólaraldarár, $S=13$, tunglaldarár, $G=18$, og skattaldarár Rómverja, $R = 4$. Þá verður, $J = 28x + 13 = 19y + 18 = 15z + 4$.

Tökum tvo fyrri liðina:

$19y+18=28x+13$, og $y=x + \frac{9x-5.}{19}$

Látum $\frac{9x-5}{19} = m$, þá verður $9x-5 = 19m$, og $x=2m+ \frac{m+5.}{9}$ Látum $\frac{m+5}{9} = m^1$, þá verður, $m=9m^1-5$. Setjum nú þetta gildi af $m$ í $x=2m+ \frac{m+5}{9}$, það gefur $x = 2(9m^1-5) + \frac{(9m^1-5)+5}{9} = 19m^1-10$. (1)

Í öðru lagi:

$15z+4 = 28x+13$, og $z = 2x - \frac{2x-9.}{15}$

Látum $\frac{2x-9}{15} = n$, þá verður, $2x-9 = 15n$, og $x=7n+ \frac{n+9.}{2}$ Látum $\frac{n+9}{2} = n^1$. þá verður, $n=2n^1-9$. Setjum nú þetta gildi af $n$ í $x=7n+ \frac{n+9}{2}$, það gefur, $x = 7(2n^1-9) + \frac{(2n^1-9)+9}{2} = 15n^1-63$. (2)

Nú má taka (1) og (2) saman í jöfnur, þannig:

$15n^1-63 = 19m^1-10$. og $n^1 = m^1 + \frac{4m^1+53.}{15}$

Lát $\frac{4m^1+53}{15} = p$, þá verður. $4m^1+53=15p$. og $m^1=4p - \frac{p+53.}{4}$ (3)

Lát $\frac{p+53}{4} = p^1$, þá verður $p+53=4p^1$. og $p=4p^1-53$.

Fyrir $p^1$ í síðustu jöfnunum set eg nú þá lægstu tölu. sem unt er að nota, án þess þó að útkoman úr þeim, eða hinum jöfnunum verði 0, eða neikvæð tala. Það er fljótséð, að sú tala hlýtur að vera 15.

Þá verður, $p=4x15-53=7$. Ef eg svo set 7 fyrir $p$ í (3). þá verður $m^1=28-15=13$. Loks set eg 13 fyrir $m^1$ í (1), sem gefur, $x=19x13-10=237$. En.

$28x+13=28x237+13=6649$, sem er ár Júlíanska tímabilsins 1936.

Á 17. og 18. öld var talsverður glundroði á tímatalinu; í sumum löndum var nýi stíll lögleiddur en í öðrum var gamli stíll enn við lýði og hefir verið til skamms tíma, t. d. á Rússlandi, Grikklandi og víðar. Til þess að útiloka alla tvíræðni og misskilning, notuðu stjörnufræðingar Júlíanska tímabilið mjög mikið við athuganir sínar; reiknuðu þeir þá venjulega í dögum en ekki árum, því að það var einfaldast og vissast. Eins og áður er getið, eru 7980 Júlíönsk (gamla stíls) ár í þessari öld og 365¼ dagar í hverju ári. 1. jan-

úar 1936 t. d. verður J. E.*) 2,428,-196. dagur. Sólmyrkvann 31. ágúst 1932 myndu stjörnufræðingar skrásetja, að hefði skeð á J. E. 2,426,951. degi, o. s. frv. Þessi teikning er nokkurs konar alheims mál, (að sínu leyti eins og ítölsku söngtáknin), sem allir stjarnfræðingar skilja, hvort heldur þeir eiga heima í Ameríku eða Kína, Englandi eða Arabíu, eða hvar annarsstaðar sem vera skal hér á jörðu vorri. Með öðru fleira er það líka einn kostur þessarar aldar, að ekki þarf að telja árin fyrir Krists fæðingu aftur á bak, eins og í voru almenna tímatali.

*Tveir stuttir formálar. Niðurlag.*

Ef einhverjum kann að þykja sumir formálarnir nokkuð langir, t. d. paktaformálinn, þá hefi eg bætt úr því með því að semja annan miklu styttri, en aðgætandi er, að hann gildir aðeins frá 1900 til 2199. Eftir þann tíma er bezt að nota aðal formálann, sem er ævarandi eins og hinir allir. Formálinn er svona:

$$P=\frac{11(G-1)}{30}\,{}_{a-1}$$

Það er: Marfalda tölu, sem er einum minni en gyllinital ársins með 11, deil pródúktinu með 30. afgangurinn er einum meiri en paktar þess árs Þegar $a=0$, eru paktar 29; það verður þegar gyllinitalið er 1. Þegar $a-1=0$. eru paktar 30; það verður þegar gyllinital er 12. Með öðrum orðum: 30 koma fyrir 0 í báðum tilfellum. Dæmi: Árið 1936 er gyllinital 18. Þá verður,

$$P=\frac{11(18-1)}{30}\,{}_{a-1}=\left(\frac{187}{30}\right)_{7-1}=6.$$ sem eru paktar ársins 1936.

Svo er formáli sunnudagsbókstafsins; hann má draga talsvert saman og stytta, þannig:

$$B=7m+2-X-\left(\frac{4}{X}\right)_h$$

Með þessum formála má finna sunnudagsbókstaf út þessa yfirstandandi öld og alla næstu öld, til aldamótanna 2100. Eftir það er vissast að brúka lengri formálann.

Hér verður nú að nema staðar. Mætti að endingu geta þess, að eg hefi leitazt við að gera reikningsformálana eins ljósa og óbrotna og frekast var unt; er það alt einfaldur, brotalaus reikningur, sem hver og einn ætti að hafa full not af, er þekkir einfaldar, almennar reikningsreglur.

---

*)J.E.=Julian Epoch. Þ. e. frá upphafi hins Júlíanska tímabils.

# Áning

*Eftir Gísla Jónsson*

---

Enn fækka kvistir okkar ættar meiðum —
því alt af berast fleiri kurl að gröf.
Og stöðugt fjölgar á þeim löngu leiðum,
sem liggja bak við tímans ólguhöf.
Þar ytzt við sjónhring yfir hranna-breiðum
sem óljós hylling blakta drifhvít tröf.
Og kannske í þeim flota fleytan beitir
sem farkost hinsta oss að lokum veitir.

Eg fæst ei um, hve langt er unz hún lendir—
þó lengra sé hið runna' en hulda skeið—
því það er víst, að allra kemur endir,
þótt engum séu goðin lengur reið.
Og máske einhvern útúrkrók oss sendir
sú einvaldsstjórn, er markar vora leið.
En af því reynslan öll er hérna megin,
eg ætla að hinkra um stund við þekta veginn.

Vér æskudögum óskum þrátt til baka,
og ætlum með því hamingjunni að ná.
En myndbreytingum minningarnar taka,
svo margt, er sýndist glæst, oft litum brá.
Og ævileiðin öll er hungurvaka,—
hið æðsta takmark hennar leit og þrá,—
og launin helztu, er líða fer að kveldi,
einn lítill neisti af minninganna eldi.

En aldrei finst oss æskan þó og vorið
jafn unaðslegt og þá, er halla fer
að aftni lífs. Það hvetur hinzta sporið
að heyra til því lífi, er síungt er,—
og hafa af ævi-akri kannske skorið
þau öx, er nýrri kynslóð frjómögn ber,—
þótt einkalíf, síns upphafs þoku vafið,
sem aðrir dropar falli loks í hafið.

Þeim er það lán, sem lítt af heimsins gæðum
var lagt í arf og fært að vöggugjöf —
og engu meira af arfi þeim frá hæðum,
sem ítök gefur lífsins stuttu töf —
og skarar að þeim agnarsmáu glæðum,
er yl oss veitir fram á heljar nöf,—
að hafa fundið, fyr en til var unnið,
þá fylgd, er hefir gæfuþráð hans spunnið.

Er myndir lífsins svífa fyrir sjónum
með sorg og gleði, ást og trygðabönd,
og list, er felst í ljóði, sögu, tónum,
og litblæ þeim, er auga nam og hönd—
þeim tignarbrag í arfi aldagrónum,
sem ánauð hatar, fyrirlítur bönd,—
þá finst oss stundum ljúft að hafa lifað
og litla síðu í dagbók tímans skrifað.

Og nú á aldursára gatnamótum,
er yfir langan feril verður gáð,
mér virðist æðra öllum sálubótum
þeim æfimetum hafa að lokum náð:—
að vinatrygð, í verki, orði, hótum,
sé vænsta hnoss á farveg lífsins stráð,—
og vita, að hafa viljandi engan svikið,
þó verkið lítið sé — og ógjört mikið.

Febrúar 1936.

# Rödd hrópandans

*Eftir Guðrúnu H. Finnsdóttur*

Löngu dreymdir draumar mannkynsins eru nú óðum að rætast. Hér sit eg og hlusta á eina beztu hljómsveit veraldarinnar spila í feikna fjarlægð eitt af meistaraverkum risans í norðrinu, er nú kveður svo fagurlega á tónum, að sá heimur, sem skyn ber á, leggur við eyrun og undrast, undrast og dáir þann skapandi, máttuga anda, þá voldugu rödd, er hljómar sem söngur hnattanna, sem niður undirdjúpanna beint inn að viðkvæmasta streng mannshjartans.

Síðustu tónarnir af Sjöundu hljómkviðu Sibeliusar eru liðnir hjá, horfnir út í regindjúp geimsins, þar sem þeir berast áfram á öldum ljósvakans. Eitt af töfratækjum nútímans, hljómgjöllin, breytti stofunni minni þögulu um stund í sönghöll, — en nú er hljómkviðan þögnuð, og í hennar stað hlusta eg með ef til vill enn næmari eyrum á raddir haustsins, er úti fyrir kveða við raust grafsöngva sumargróðri og sólbjörtum dögum.

Norðan-stormurinn fer hamförum í kvöld, hvín og ýlfrar í hverri gátt, blæs ís á gluggarúðurnar og dregur frosrósir með freðnum fingrum. Snjórinn þyrlast og lauflana trén veina og stynja undan ofsa stormsins.—

Þessir hljómar storms og strengja hafa kveðið óró og þunglyndi inn í huga minn — vakið hálfgleymdar minningar og myndir, er svífa fyrir innri augum svipað hreyfimynd — sumar skýrar, aðrar hálf þokukendar. Og eins og hreyfimyndin er aðeins skuggi þess virkileika, er átti sér stað, þegar hún var gjörð, eins eru minningar liðinna atburða aðeins skuggamyndir veruleikans, sem aldrei verða höndlaðar, nema í sálu manns.

Eg veit ekki hvort á sterkari þátt í því, gnýr stormsins úti eða hin þróttmiklu og alvarlegu tónljóð Sibeliusar, að gamli vinur minn, Þormóður, stendur mér svo skýrt fyrir hugskotssjónum, að mér finst næstum því að hann sé hér í heimsókn hjá mér í kvöld. Ef til vill er það þó hljómkviðan.

Hann var fyrsti maður, er reyndi að segja mér frá þess konar músík. Og þar að auki hefi eg oft áður tekið eftir því, að músík minnir mann svo oft á fólk, sálarlíf þess og kendir. Stoltið, þrótturinn, alvaran, einmanalegt þunglyndi og hlýleiki, þessi lyndiseinkenni norrænna manna, voru eins greinileg og auðfundin í hugsanalífi og skapgjörð Þormóðs, og þau eru auðheyrð í tónljóðum Sibeliusar.

Og veðrið í kvöld minnir mig líka á annað haustkvöld fyrir löngu síðan, sem varð mér sérstaklega minnisstætt fyrir heimsókn Þormóðs og samtal við hann.

Það var liðið töluvert fram á vökuna, þegar hann kom, kaldur, hrakinn og fannbarinn. Hann hafði tapað af sér hattinum og

snjódrefjar héngu í þykku grá-kembdu hárinu. Vanalega var Þormóður hress og glaður í bragði. En þetta kvöld var eins og yfir honum lægi eitthvert þyngsla farg, og hugurinn væri langt í burtu. Eg mundi alt í einu eftir því að eg hafði heyrt einhvern ávæning um að hann hefði orðið veill á geðsmunum á yngri árum, en engan trúnað lagt á það, því maðurinn var áreiðanlega andlega hraustur.

En af því eg þekti hann svo vel, sá eg að það mundi vera í honum kuldahrollur, andlega ekki síður en líkamlega. — Eg bauð honum inn í setustofuna — þar logaði glaður eldur á arni — og lét hann setjast við hlóðirnar. Hann sat þegjandi æði stund og lét logana orna sér, snéri sér svo í áttina til mín og sagði:

—En hvað hér er hlýtt og vistlegt inni, eftir að hafa verið á ferð úti í hríðinni í kvöld. Eg rölti hingað af því mér fanst mér hvergi vært.—

—Þú ert þá eins og eg, Þormóður. Það sækir æfinlega að mér á haustin; vetrarkoman fyllir mig ónota geig og kvíða.—

Þormóður svaraði eins og út í hött. — Vetrarkvíðinn er rétt ein fylgjan okkar landanna.—

—Þú trúir ekki á nein þess háttar hindurvitni, Þormóður — fylgjur, svipi, fyrirbrigði, hugarburð, allan þenna rökkurher skammdegisins?—

Hann þagði um stund og starði í eldinn þar til hann svaraði:

—Þetta er sama spurningin, sem eg hefi verið að velta fyrir mér í kvöld — og í rauninni til margra ára. Það má svara henni þannig, að óttanum við skammdegið, kuldann, myrkrið og skortinn hafi slegið inn hjá okkur Íslendingum og gjört okkur myrkfælna, hjátrúarfulla, þunglynda og gruflandi. En svo má svara henni á annan hátt — svara því, að í rauninni trúi maður þessu öllu, af því að öldum saman hafi þessi áhrif mótað eðli og hugsanalíf þjóðarinnar. — Eg er einn af þeim, sem eru hræddir við skammdegið, hefi þó af öllum mætti reynt að losa mig við þann ótta, en ekki getað það frekar en við landann.—

— Losað þig við landann! Þú, með alt ofurkappið fyrir hönd Íslendinga hér?—

—Já, eg flúði nú einu sinni frá þeim — og skammdeginu — og lærði tvent af því: að verða betri Íslendingur og það að manns eigin hugsanir fylgja manni alt af eftir. Eg flúði hingað í kvöld undan fylgjum, en þó ekki neinum skottum eða mórum, heldur mínum eigin geðsmunum og þunglyndi, sem stafar af endurminningum um þetta sama kvöld fyrir mörgum árum. — Eg tapaði jafnvæginu þá út úr ofsa geðshræringu og sorg.— Eg er að hugsa um að segja þér frá því eins og það skeði, svo þú verðir mildari í orði næst þegar okkur lendir saman út af löndunum hérna, og þér þykir alt gott og blessað sem þeir gjöra.—

Svo þarna kom það, sem mig hafði stundum grunað, að einhver sérstök ástæða lægi bak við það, hve hvassorður Þormóður var oft, ef honum fanst landar okkar verða

sér til skammar — eins og hann komst að orði.

Þormóður tók nú upp þráðinn aftur og sagði: — Eins og eg hefi svo oft sagt þér frá áður, þá fluttist eg hingað vestur snemma á landnámsárum Íslendinga, þá liðlega tvítugur að aldri. Eg ólst upp á góðu sveitaheimili, þar sem ríkti heilbrigður hugsunarháttur, stjórnsemi, reglusemi og dugnaður. Mér leið þar vel og átti við gott að búa, en það var mér ekki fullnægjandi. Útþráin söng mér í eyru sín hafgúu ljóð. — Og eg hlýddi þeim söngvum og lagði af stað með nesti og nýja skó í leit eftir frægð og frama. En nestisskjóðan mín var fremur létt, eg hafði ekkert lært til undirbúnings undir lífið nema þessa algengu fermingarfræðslu og óbrotnu sveitavinnu.— Með þetta lagði eg af stað út í nýja veröld, eins og ófæddu börnin hans Maeterlinck's, þegar þau leggja af stað til jarðarinnar með pinkil af forlögum.

Þegar hingað kom var landið hér vestra lítt numið: Winnipeg að kalla mátti smáþorp. Sléttan óplægð, vísundar gengu enn lausir og Indíánarnir voru ekki búnir að átta sig á því, að óðalsréttur þeirra var genginn í greipar hvíta mannsins. Skipsfarmar af útlendingum voru fluttir inn í landið, brennimerktir sem aðflutt vinnudýr og svo dreift hingað og þangað út um óbygðirnar. Og þegar þangað var komið, skildist fólkinu fyrst, að þetta var engin stássferð, sem það hafði tekið sér á hendur. Hér var það komið til að vekja þetta risaland af aldasvefni — til að brjóta það, yrkja og ryðja, byggja það upp og búa í haginn fyrir komandi kynslóðir. — Og skilyrðin voru þau sömu og hjá tröllunum í gömlu þjóðsögunum. Ef þrekraunirnar voru ekki leystar af hendi, tapaði þetta fólk engu fyrir nema lífinu. Okkur varð það ekki öllum auðið, að tína saman og telja rétt fjaðrirnar í sæng tröllskessunnar.

Þegar eg kom hingað var verið að leggja járnbrautina þvert yfir landið, og var eg einn af þeim, er fékk atvinnu þar. Hvílíkt risa mannvirki þar var á ferðum, er víst fáum ljóst, nema þeim, sem að því unnu. Þar var alt lagt í sölurnar til að yfirvinna torfærurnar og erfiðleikana, ekki einungis ótakmörkuð auðæfi landsins, einstaklinga og félaga, heldur og endalaust strit og erfiði, og ótal mannslíf, er þrekvirkið tók að fórn. — En á bak við það alt stóð stórfengleg hugsjón, er sá í brautarlagningunni lífæðakerfi þessa víðáttumikla lands, er veitti inn lifandi straumum, og reisti í auðninni borgir og þorp og blómleg héröð.

Slík þrælavinna og þessi var mér áður ókunn, en eg var ungur og hraustur, lifði það af og vandist við vistina. Á vetrum var eg hér í Winnipeg og grendinni hjá löndum mínum. Hér kyntist eg og trúlofaðist ungri, íslenzkri stúlku, sem eg unni hugástum með ákafa og einlægni unglingsins. Hún var ein sér og umkomulaus, eins og eg, vann í vist — því um annað var þá ekki að ræða fyrir stúlkur.

Við höfðum ákveðið að gifta okkur að haustlagi þegar eg kæmi

heim úr sumarvinnunni. Og búskapinn ætluðum við að byrja mestmegnis með framtíðarvonum. Mér dvaldist óvenju lengi fram eftir haustinu og ferðin heim gekk seint. Síðasta áfangann gekk eg. Eg fór eftir gömlum Indíána troðningum, sem voru styttri en aðalvegurinn. Það var komið undir dagsetur, eg var orðinn svangur og þreyttur og ætlaði að stanza á leiðinni, nokkrar mílur utan við Winnipeg, hjá íslenzkri fjölskyldu, sem seldi ferðafólki máltíðir og annan greiða. Þar var oft gestkvæmt af Íslendingum, því húsakynni voru þar heldur rýmri en alment gjörðist þá. Eg hafði komið þar nokkrum sinnum áður, en féll hvorugt hjónanna vel í geð. Húsbóndinn var vel greindur, en grófgjörður og tveggja handa járn. Húsfreyjan var aftur á móti ein af þessum dauðans hengilmænum, sem maður undraði sig á að gekk og talaði sjálfkrafa.

Myrkrið var skollið á, og illhryssingslega krapahríð sleit úr loftinu. Það kveinaði og þaut ömurlega í skóginum og trén sveigðust fyrir vindhviðunum. Stórir, þungir og hálf frosnir regndropar héngu neðan í greinunum, og drupu hægt og hægt með löngu millibili til jarðar. Það var eins og lauflaus trén væru gamalmenni að gráta. Laufin lágu blaut og hálf frosin, eins og þykk ábreiða kringum rætur trjánna. Þau voru horfin til jarðar og á hraðri ferð að verða að dufti, en andinn — hann þarf hvergi að vista, því trén hafa víst engan anda. — Og þó koma stundir, sem láta manni skiljast, að við erum að eins örlítill partur úr alheims heildinni, og finnum skyldleikann og samræmið með öllu lífi jarðarinnar. Svona hugsanir þvældust hálf óljóst í meðvitund minni þarna í myrkrinu og óveðrinu. Í sama bili grilti í ljós. Eg var kominn þangað, sem ferðinni var heitið. Mig bar að garði að húsabaki og gekk þar að dyrum. Hurð var hallað að stöfum, en ekki læst. Eg gekk inn og læsti á eftir mér. Þessi skúr var upphaflega íbúðarhúsið, bygður úr bjálkum, en nú hafði verið bætt framan við annari íbúð stærri og rúmmeiri úr söguðum við, og þessi aðeins notuð til geymslu. Eg stóð nú þarna einn eins og andartak, og þó eg væri kominn í húsaskjól, var eg enn með þessari ónotalegu kvíðatilfinningu, sem greip mig í skóginum. Eg heyrði mannamál, hávaða og harmoníkuspil innan úr borðstofunni. Þetta var laugardagskvöld, og það var ofur eðlilegt, að fólkið væri að leika sér, mætast hjá kunningjum sínum og gjöra sér glaða stund. Þegar dálítið skýrðist fyrir augunum á mér sá eg, að ljósglætu lagði undan hurðinni, og gekk eg þangað, en var nærri dottinn um einhverja druslu, sem varð fyrir fótunum á mér, skamt frá dyrunum. Eg rétti mig við af fallinu og greip um leið á einhverju hörðu, ávölu, og flaug í hug, að þarna væri poki af gulrófum. Einhver ónot gripu mig samt alveg ósjálfrátt við snertinguna. — Eg drap á dyr, en enginn heyrði, svo eg opnaði hurðina og staðnæmdist í dyrunum.

Óloft, hitasvækju, tóbaksreyk og vínþef lagði á móti mér. Hálf slompaður landi sat þar rétt innan við dyrnar og spilaði á harmoníku, réri eftir hljóðfallinu, sló fallandann með hælnum í gólfið og söng galsalega með ekki óviðfeldnum bassaróm: — Flýtið ykkur, flýtið ykkur, fljúgum, stígum rælinn. . . Hljóðfærið mitt hamrar . . . fjölin glamrar—o. s. frv. — Harmoníkan hvæsti og tók andköf og hljóðin komu í stórum ójöfnum rokum. Nokkur pör dönsuðu kappsamlega á gólfinu. Í horninu andspænis dyrunum sat húsbóndinn ásamt nokkrum eldri mönnum, við drykkju. Báru þeir með sér að vera töluvert við skál. Húsbóndinn þuldi ljóð og var hægt að ráða í, hvaða tegund af vísnagjörð var efst á teningnum, ef dæma mátti eftir svip, augnaráði og dónalegum hlátrum. Eg sá þetta alt á augabragði um leið og eg stanzaði andartak í dyrunum, tók ofan húfuna og kallaði glaðlega: — Gott kvöld! — Húsbóndanum varð litið til dyranna, og eg hefi aldrei á æfi minni séð eins skjót svipbrigði. Hann spratt á fætur og andlitið á honum fraus af skelfingu. Það var engu líkara en að hann hefði séð draug eða einhvers konar ófreskju standa í gættinni. Það fór eins og leiftur um stofuna, öllum varð litið til dyranna og öllum sýndist verða álíka felmt við að sjá mig. Þarna sló öllu í þögn, ónotalega þunga dauðaþögn, og þeir sem voru að dansa stóðu í sömu sporum, eins og stirðnaðir. Það fór um mig ónota hrollur. Hvað var að? Ósjálfrátt hopaði eg á hæl og snéri mér til hálfs fram í skúrinn, til að hrista af mér krapann. Ljósið úr stofunni féll á skakk fram um dyrnar og þar á bekkskrífli lá stúlkan mín liðið lík. — Brekánsræfill var breiddur ofan á hana, en hafði hálfdregist ofan af andlitinu og brjóstinu. Um það var eg nærri dottinn, þegar eg var að þreifa mig áfram í myrkrinu, og handleggurinn á henni var það, sem eg snerti um leið og eg varðist fallinu. — —

Stundum er það eins og einhver miskunnsöm hönd dragi tjaldið fyrir sviðið, þegar mannlegum tilfinningum er ofboðið. Eg man ekkert eftir hvað fram fór eftir það, fyr en komið var langt fram á vetur. Þá komst eg til sjálfs mín og mér var sagt hvað hefði komið fyrir.

Stúlkan mín hafði verið á leiðinni til kunningjafólks síns, sem bjó lengra burtu. Varð bráðkvödd á veginum og flutt þarna heim þar til líkinu yrði ráðstafað. Hún var þarna öllum óviðkomandi og því engum harmdauði. Og dansinum mátti auðvitað ekki fresta. En fyr mátti nú vera skrílsháttúrinn!—

Veturinn leið, og um vorið fór eg aftur út í brautarvinnu. Hér var mér ómögulegt að una. Mér var líka kunnugt um, að vinnan þar gaf ekki langan tíma til sjálfsvorkunnar. Fyrst í stað var í mér uggur við sjálfan mig. Eg var úthaldslaus, uppstökkur og ekki hálfur maður til vinnu. En svo smá komu kraftarnir til baka.

Þar voru saman komin allra þjóða kvikindi, menn af öllum stéttum og stigum, alla leið frá

reköldum mannfélagsins upp til þeirra, er síðar skipuðu æðstu sæti þjóðfélagsins. — Og ýmislegt gekk nú á, því þarna voru margir drengir "glaðir ok reifir." — Eg hélt mér utan við alt, sem kallast gat félagslíf, sumpart af því eg hafði ekki geð í mér til að taka þátt í ýmsu, er þar fór fram, og svo af því að eg var sjálfur gleðisnauður. Í einrúmi var eg að reyna að sætta mig við orðinn hlut, feta mig áfram hugsanalega, smástígur og óviss, en skelfing var það oft erfið ganga. Hugurinn hafði líka svo lítið svið, til að reika um, og snérist þessvegna of mikið um sjálfan mig. Eg hamaðist við vinnuna, því með sjálfum mér ákvað eg samt að verða ekki að mannleysu og ræfli. Eg stóð og mokaði dag eftir dag og reyndi að kasta burtu einhverju af sortanum úr sál minni með hverri rekufylli. Og á vissan hátt tókst mér það.

Þá byrjuðu fyrst að gjöra vart við sig spurningar í huga mér viðvíkjandi flutningi okkar Íslendinga hingað vestur um haf, — hvaða þýðingu hann mundi hafa fyrir manngildi okkar og orðstír, hvort við mundum ganga hér á mála sem frjálsbornir menn eða skipa bekk með þýjum. — —

En svo alveg að óvörum beindist hugur minn inn á aðrar brautir um tíma. Þarna vildi mér það lán til að kynnast manni, sem veitti heilbrigði og nýju lífi inn í hugsanalíf mitt, opnaði fyrir mér óþekta veröld og benti mér inn á lönd lista og fegurðar, — lönd, sem eg að vísu hafði haft óljósa löngun og þrá eftir að kynnast, en voru mér eins fjarlæg og stjörnurnar.

Það var rétt fyrir hendingu, að eg komst í kynni við þenna mann, því hann vann við annað, með öðrum hópi manna. En eg hafði séð honum bregða fyrir þar, og ef til vill var það prúðmenska hans, sem dró athygli mína meira að honum, en flestum öðrum, sem eg þó oftar sá og umgekst. Kannske líka einhver innri rödd hafi hvíslað að mér, að þarna væri óvenjuleg sál á ferðinni.

Einn sunnudagsmorgun var eg á rölti úti við einn míns liðs, og þá mætti eg honum fyrst augliti til auglitis. Hann kom þar á móti mér klæddur léttum sumarfötum, og mér þótti maðurinn aðlaðandi. Hann sá víst eitthvað í svip mínum, því hann stanzaði við og sagði brosandi á íslenzku: — Góðan daginn — þetta er fagur morgun. — Eg tók kveðju hans, en hálf-gapti af undrun og spurði: — Ert þú Íslendingur?—

—Já, og eg hefi vitað æði tíma að þú ert landi. —

—Hvernig? — spurði eg.

—Heyrt það á mæli þínu. Eg hefi heyrt þig bregða fyrir þig íslenzku þegar þér hefir legið á kröftugum orðum. — Og svo berðu það greinilega með þér, af hvaða kyni þú ert kominn, — bætti hann fljótlega við.

Við töluðumst nú við æði lengi, og þarna um morguninn byrjaði sú þægilega vinátta, er hélzt okkar á milli alt sumarið. Eg lét ekkert tækifæri ónotað, að ná honum í samtal, því eg fann fljótlega, hvað

vel hann var að sér og víða heima. Hann sagði mér meira um músík, skáldskap, bókmentir, leikhús og söfn en heilinn á mér var fær um að taka á móti. Þegar svo lá á honum las hann upp ljóð, sagði mér heila leiki og löng skáldverk og sýndi mér um víða veröld bókmenta og lista. Hann vakti mig með þessu til áhuga og lífs, hvatti mig til að vitkast og þroskast, kynna mér og njóta einhvers af þeim arfi, sem meistararnir hafa eftirlátið kynslóðunum. — Farðu og glímdu við þá, drengur minn — sagði hann — það eykur kraftana að glíma við drottinn. —

Þeim ráðum reyndi eg að fylgja eftir mætti. Þegar vinnu lauk á brautinni um haustið hélt eg austur á bóginn — suður í Bandaríki, og ílendist þar. Lengst af dvaldi eg í New York. Þar, og víðar syðra, gáfust mér tækifæri til að kynnast þeim heimi, sem vinur minn hafði sagt mér frá. Eg las alt sem eg kom í lóg, sótti sönghallir, leikhús og söfn, og fann aftur, þó einkum í músík, lífsgleði og þrótt, enda aflaði eg mér þar þó töluveðrar þekkingar.

Í mörg ár sá eg hvorki né heyrði nokkurn Íslending, en oft komu þeir mér í hug. Eg hugsaði heim, en þó oftar vestur á sléttuna. Og eg fann, að einhvern tíma mundi löngunin, til að ganga þar aftur um fornar slóðir, fá yfirhöndina.

Eitt sinn, sem oftar, var eg staddur í myndasafni og rak mig þar á mynd eftir Anders Zorn. Myndin var af söngvara með gígju. Þarna var söngþrá og skáldhneigð norræna manna snildarlega sýnd í hverri línu. Og eg stóð lengi og athugaði myndina. Skáldið ljómaði af svip og úr augum, og röddin var mikil og fögur. Eg heyrði tónana — eg heyrði Heimi slá hörpuna, til að sefa grát og vernda hið unga líf. — Eg heyrði söngva seið Gunnars, þegar hann stakk dauðanum svefnþorn á efstu stundu með hörpuspilinu, meðan að hann sló síðasta sönginn, kvaddi minningu Brynhildar og harmsögu ættar sinnar. Og eg heyrði ótal raddir, er urðu fyrir eyrum mér sem ein samstilt heild sterkra hljóma, og þar var þó ein röddin skýrust, sú rödd hrópandans, er til okkar kallar úr okkar eigin söngvum og sögum og öldum saman hefir talið í okkur orku, vit og mannlund. — Eg heyrði tónana og kannaðist við lagið hjá söngvaranum — — Sterk löngun brann mér í sál og sinni, að heyra aftur mína eigin tungu talaða og dvelja með því fólki, sem eg tilheyrði. Sú löngun kom að vísu ekki alt í einu, heldur hafði hún verið að smá magnast um lengri tíma. Skömmu síðar tók eg mig svo upp og flutti hingað vestur til Winnipeg aftur.

Líf Íslendinga hér hafði tekið margs konar framförum. Nú var þeim það fyllilega ljóst að með eigin frammistöðu yrðu þeir að halda skildi fyrir þjóðerni sínu. — — En vitaskuld komust ekki allir heilir hildi frá úr þeirri orustu, er háð var við lítilsvirðingu, andlega kúgun og vantraust á sínu eigin manngildi. — — En illu heilli hafa Íslendingar hingað flutt — eða finst þér þar of djúpt tekið í

árinni — ef sporin, sem þeir skilja hér eftir, ekki sýna, að þar hafi þó verið menn á ferð. —

— — — — —

Síðan eru liðin mörg ár. Þormóður er fyrir löngu kominn í landnemahópinn, sem á undan er genginn. En ósjálfrátt verður mér að spyrja — hvað mundi hann hafa heyrt í hljómkviðu Sibeliusar í kvöld? — Sjálfsagt mikið fleira en eg. — Og eg sé gleði hans, ef hann hefði mátt hlusta og vita, að enn þá er kveðið fagurlega norður þar, og harpan slegin af máttugum höndum.

---

## Fjórar vísur

*Eftir St. G. Stephansson.*

Þar leið burt í sólskinið sálin hans hljóð
—Eg sá það, er falið var skilningi hinna:
Hún var hans insta en ósungna ljóð.—
Með arnsúg í væng, heim til dalanna sinna.

* * *

Eg var leiður orðinn á
Ofherming úr fyrri tíðum.
Hitt var eftirsókn að sjá
Söguna okkar, prófórk þá,
Sem að fólksins framtíð á í smíðum

* * *

Sjá þú þessa sýking,
Sem þú af er hælinn,
Dugnaðs vinnu-víking,
Vesturheimska "þrælinn."
Allar taugar teygðar,
Tálg af vöðvum hrumum,
Flestar brenglur beygðar,
Brotalöm á sumum.

* * *

Þótt við hjörum uppi enn,
Æfi á skörum lafir.
Erum á förum eldri menn
Allir, í kör og grafir.

# Upphaf borgaralegs hjónabands á Íslandi

## Magnús Kristjánsson („mormóni") og Þuríður Sigurðardóttir

*Eftir Jón Pálsson fyrv. bankagjaldkera.*

Það eru hjón ein, Magnús Kristjánsson, oftast nefndur „Magnús mormóni" og kona hans, Þuríður Sigurðardóttir, erfiðleikar þeirra og ótrauð málafylgja til þess að bindast löglegum hjúskaparböndum, sem eg ætla að gjöra að umtalsefni í þetta sinn. Þetta er áreiðanlega einsdæmi og *sigur þeirra* í því máli *merkilegur* og mjög undraverður. —

Faðir Magnúsar hét Kristján Kristjánsson bónda í Efraseli í Stokkseyrarhreppi og Salgerðar Einarsdóttur, Eiríkssonar frá Borg, þess, er sagt var að úthýst hafi dreng þeim, árið 1755, er Skerflóðs-Móri varð af, og hefi eg ritað þá sögu alla á öðrum stað. Salgerður, amma Magnúsar Kristjánssonar mormóna, var systir Þuríðar Einarsdóttur formanns, og er saga hennar einnig til. Magnús mormóni var enn á unga aldri þá er hann misti móður sína, Katrínu Magnúsdóttur, systur Gísla í Vestari-Móhúsum og giftist Kristján, faðir Magnúsar, í annað sinn. Voru þau hjónin fátæk mjög og ólst Magnús upp hjá þeim við harðan kost, sökum fátæktarinnar og eigi síður vegna atlætis og umhyggjuleysis stjúpmóður sinnar. Hann fór því á mis við alla fræðslu á æskuárum sínum, enda var þess lítill kostur að geta notið fræðslu og svo var einnig hitt, að þá var mönnum yfirleitt ekki ljóst, að neinnar annarar fræðslu væri þörf en þeirrar, að reka kýr og moka fjós. — Að vísu var barnaskóli á stofn settur þar í hreppnum árið 1852, tíu árum eftir að Magnús fæddist og hafði því Magnús bæði aldur til og hæfileika góða að sækja þann skóla, eins og önnur börn á hans reki, en þar stóð fátæktin og hinn fáránlegi hugsunarháttur almennings í vegi. Hið eina, sem Magnús kann að hafa getað hnýst í af því tæi, mun að einhverju leyti hafa verið bækur þær, er Þorsteinn Jónsson, síðar „Eyjalæknir," hafði undir höndum og notaði við nám sitt, en hann ólst upp á næsta bæ við Magnús og var aðeins þrem árum eldri en hann.

Um tvítugsaldur fór Magnús frá föður sínum og stjúpu og mun hann ekki hafa saknað hennar mjög. Fór hann nú í vistir austur í Landeyjar og réri í Vestmannaeyjum á vetrarvertíðum. Kyntist hann þar mörgum góðum mönnum, þarlendum, og einnig sjómönnum af landi ofan. — Vegna hagleiksnáttúru sinnar hélt Magnús sig mjög að öllum þeim, er eitthvað voru við smíðar riðnir, einkum járn- kopar- og silfur-smíði, og náði hann loks allmikilli framför í þeim greinum. — Þetta varð til þess, að hann réðist út í Eyjar, til Helga nokkurs Jónssonar, bróður Jóns Mýrdal, þess, er samdi skáld-

söguna "Mannamunur." — Helgi var meinhægðarmaður, en kona hans, Kristín Jónsdóttir, skapstór í meira lagi og skerrjála hin mesta, einkum þá er hún neytti víns, því henni "þótti sopinn góður" og líkaði Magnúsi þar miðlungi vel. — —

Það var veturinn 1872-73 að nokkrir Vestmannaeyingar tóku að hugsa mjög til Brazilíufarar, enda var Loftur Jónsson mormónabiskup þar í Eyjum og boðaði trú sína. — Um Loft biskup fara hér á eftir upplýsingar nokkrar (eftir H. Hj.)

Í þjóðfundartíðindum 1851, þingsetningarræðu 5. júlí þ. ár segir svo:

... Forseti gat þess, að hér væru ekki á þingi tveir af hinum þjóðkjörnu þingmönnum . . . Annar Loftur bóndi Jónsson úr Vestmannaeyjum... Viðvíkjandi Lofti bónda afhenti fyrsti þingmaður Rangvellinga (þ. e. Páll í Árkvörn) forseta bréf nokkurt, og óskaði að lesið væri; las forseti það með þingsins samþykki og er það þannig látandi:

"Af því að við vottanlega getum sannað, að þér hafið stutt að útbreiðslu hins svonefnda mormóniska trúarflokks hér í eyjunni, og af því við viljum ekki gefa atkvæði okkar til manns, sem ekki játar þau í félaginu viðteknu trúarbrögð, þá afturköllum við hér með það kjörbréf, sem þér 24. d. maímánaðar í fyrra fenguð til að vera þjóðfundarmaður Vestm.eyja, undir eins og við getum þess, að sá sjötti af yðar kjósendum, Runólfur Magnússon, er teptur á fastalandinu, og hefir ekki getað komist til eyjarinnar á nokkru tímabili.

Þetta viljum vér kunngera yður til nauðsynlegrar eftirréttingar, að þér þurfið ekki að gera yður ómak né kostnað að mæta á þjóðfundi Íslendinga, er haldast á 4. d. júlímánaðar í Reykjavík.

Vestmannaeyjum
dag 28. maímán. 1851.
Abel, H. Jónsson, J. Einarsson,
M. Austmann, Gísli Jónsson.
Til sáttasemjara og meðhjálpara Mr. L. Jónssonar."

* * *

"Stiftamtmaðurinn auglýsti, að mál þetta hefði komið til amtsins, og hefði það ritað sýslumanninum í Vestmannaeyjum, að Þjóðfundurinn einn, og enginn annar, ætti um að dæma, hvort nokkur væri hæfur fundarmaður eða rétt kjörinn, eða ekki."

* * *

(Aths. H. Hj.): Af þessu er auðséð, að einir 6 menn hafa kosið í Vestmannaeyjum, og er þetta í fyrsta sinn, sem kosið er þar, en kosningaréttnrinn var bundinn við eign í fasteign, og átti *enginn* í Vestmannaeyjum kosningarétt til þings fyr en 1857, að kosningarétturinn var rýmkaður, nema til þjóðfundarins, en þá var kosningarétturinn rýmri en ella.

* * *

Magnús Kristjánsson lét nú skírast hjá Lofti biskupi og taldist því í hópi þeirra 60 manna, er létu innrita sig til vesturfararinnar og flestir höfðu skírn hlotið.

Von var á þýzku eimskipi til að sækja þá og flytja vestur um haf,

en skipið kom aldrei. Varð því Magnús að ráða sig í vist hið bráðasta, eins og allir hinir, því lausamenska var enn eigi leyfð að lögum.

Árni bóndi á Oddsstöðum og Steinunn kona hans réðu nú Magnús til sín og var þá Þuríður nokkur Sigurðardóttir vinnukona þeirra; var hún ekkja á fimtugsaldri, en Magnús rúmlega þrítugur. Þuríður hafði skírast látið og fóru nú hugir þeirra Magnúsar og hennar að dragast saman. Leið eigi á löngu að þau vildu vera ein út af fyrir sig og leigðu því lítið herbergi þarna á Oddastöðum, svo lítið og þröngt, að þau urðu að sofa saman á nóttum. — Þetta geðjaðist Lofti biskupi miður, því siðfræði mormóna teldi það höfuðsynd, að ógiftar persónur sænguðu saman. Hann krafðist þess því, að þau giftu sig hið bráðasta, ef þau vildu sáluhólpin verða, og *gifti hann þau svo mormóna giftingu.* Þetta þóttu býsn svo mikil og nýlunda í landi hér og þá eigi sízt þar í Eyjum úti, að menn hæddust mjög að og álitu alla þá, er þessa trú og siðu höfðu tekið, hina mestu ræfla, er sjálfsagt væri að hæða og fyrirlíta.

Leið nú svo árið að eigi bar fleira til tíðinda.—

Næsta vor, 1874, leigði Magnús sér dálítinn kofa "niðri á Sandi" til íbúðar fyrir sig, konu sína og sveitarbarn, er þau höfðu tekið til fósturs. Kofinn var tvíkannaður. Í öðrum enda kofans bjuggu þau hjónin, en í hinum hafði Magnús smiðju sína og smíðaverkstæði. Vann hann kappsamlega að smíðunum og hafði góða atvinnu. Þau undu nú hag sínum hið bezta og sýndist þeim fagur hamingjudagur vera að renna upp yfir sér. En —árdagsljómi hins nýja hjúskapardags þeirra tók brátt að fölna, því nú kom *sóknarpresturinn* — séra Brynjólfur Jónsson — til sögunnar: Hann reyndi, eftir mætti, að hindra framgang mormónatrúarinnar, en það kom fyrir ekki. Hann vissi, að þau Magnús og Þuríður voru gift að mormónskum sið, og að sú gifting var eigi gild að landslögum. Þetta vildi hann nú nota sér til að sýna ógildi mormónatrúarinnar. Ný Stjórnarskrá var komin, en ákvæðum hennar um þessi efni voru honum enn ókunn. —Magnús vissi jafnvel betur, sem síðar segir.—

Presturinn kærði því fyrir Aagaard sýslumanni hina hneykslanlegu sambúð þeirra Magnúsar og Þuríðar og skoraði á hann að láta það eigi afskiftalaust.

Aagaard brá fljótt og vel við, ritaði Bergi Thorberg amtmanni og sendi honum kæruna. Amtmaður varð vel við og ritaði svolátandi

*"AÐVÖRUN":*

"Bergur Thorberg amtmaður í Suður- og Vestur-amtinu gjörir kunnugt: Að þar eð sýslumaðurinn í Vestmannaeyjum hefir tilkynt amtinu eftir skýrslu hlutaðeigandi sóknarprests, að húsmaður Magnús Kristjánsson og Þuríður Sigurðardóttir, sem ekki eru löglega gift, búi saman í hneykslanlegri sambúð, þá aðvarast hér með og áminnast ofangreindar persónur, að slíta sambúð sinni

innan viku frá birtingu þessa úrskurðar og mega síðan ekki vera til heimilis á sama bæ. Ef þau, þrátt fyrir þessa aðvörun amtsins, ekki slíta sambúð sinni, mega þau búast við opinberri kæru til straffs eftir 179. gr. hinna ísl. hegningarlaga."

Amtmaður sendi sýslumanni "úrskurð" þenna. En hann skipaði hreppstjóranum að lesa hann upp fyrir þeim Magnúsi og Þuríði. Hreppstjórarnir voru tveir, báðir vinir Magnúsar og hvorugur þeirra mormónatrúar. Þeim þótti leitt að þurfa að flytja þeim Magnúsi boðskap þennan, en urðu að hlýða. Morgunn einn koma þeir spariklæddir Magnúsi að óvörum og spyrja: "Hvort viltu heyra amtmanns-úrskurð þann, er við eigum að flytja þér, úti eða inni?" "Inni!" segir Magnús, og ganga þeir þá inn og lásu þar upp úrskurðinn. Þuríður varð sem steini lostin og kom engu orði upp; Magnúsi varð einnig þungt niðri fyrir, en þó eigi meira en svo, að hann heitti hreppstjórunum kaffi, sem hann bjó sjálfur til, því Þuríður skifti sér ekki af neinu. Magnús bað þá láta sig fá afrit af úrskurðinum og fékk hann það ókeypis daginn eftir.

Næstu nótt varð Magnúsi ekki svefnrótt og hugsaði hann nú mál sitt og komst að þeirri niðurstöðu, að ekki mundi annað ráð vænna, en að láta bæta lúterskri giftingu ofan á hina mormónsku. Fór hann því á fund tveggja vina sinna og bað þá vera svaramenn sína. Þeir lofuðu því. Síðan fer Magnús á fund sóknarprests síns og biður hann að gifta sig. Prestur kvað sig bresta heimild til þessa, eins og nú stæðu sakir, en lofaði að leita álits yfirboðara sinna um það hvað gjöra skyldi. — "En — þið verðið að skilja, á meðan á svarinu stendur!" kvað prestur.

Gekk nú Magnús heim í kofa sinn, dapur í bragði, og sagði Þuríði hvernig komið var, en hún varð þá svo hrygg og reið, að Magnúsi þótti nóg um. Kom honum þá alt í einu ráð í hug: Hann heitti óvenjulega sterkt kaffi, færði Þuríði og bað hana drekka, en hún kvað það ódrekkandi. Magnús bað hana að drekka það samt; það gjörði hún og varð mjög bumbult af. Segir þá Magnús: "Nú fer eg til læknisins og segi honum, að þú sért orðin vitlaus!" "Eg er ekkert brjáluð!" segir hún. "Nei, en láttu sem þú sért brjáluð þegar læknirinn kemur!" segir Magnús og sýndi hann henni nú hvernig hún skyldi haga sér í orðum og látbragði, er læknirinn kæmi.

Fer nú Magnús og sækir Þorstein lækni í skyndi. Hann kom og heilsaði Þuríði. Hún tók að vísa kveðjunni, en bætti þó við nokkrum ósamanhangandi orðum, sem hvergi áttu við. Tók nú læknirinn um úlfnlið Þuríðar og fann, að æðin sló óreglulega og segir svo við Magnús: "Þú segir satt; konan er ekki hraust." — Læknirinn lét þau fá svefndropa og hjartastyrkjandi dropa handa Þuríði, er nú sagði, þegar hún átti að fara að nota meðölin: "Hvað á þetta að þýða, að vera að fá meðöl handa mér, þar sem eg er al-heilbrigð?"

—"Þú veizt," segir Magnús, að læknirinn vitjar oft sjúklinga sinna. Næst er hann kemur, ertu heilbrigð, og það skulum við þakka meðölunum hans. Við hellum bara niður svefndropunum svona smátt og smátt, eftir því sem svarar fyrirlagi hans um það, hvað þú átt að nota eða taka inn. Hina dropana geymum við!"

Morguninn eftir fer Magnús á fund læknisins og segir: "Meðölin ætla ekki að duga til langframa og nú er eg kominn til þess að tilkynna hreppsnefndar-oddvitanum það, að hreppsnefndin verður að hirða Þuríði og sveitarbarnið, sem hjá okkur er, því Þuríður er orðin brjáluð! Þetta er nú hvorki meira né minna en það að þrír ómagar bætast á sveitina, því Þuríður mun reynast tvígildur ómagi, eða hver ætli vilji taka brjálaða manneskju fyrir einfalt meðlag. Það þarf að ráðstafa þeim strax!"

"Ussu, sussu! Þetta má ekki svo til ganga," segir læknir, "presturinn verður að gifta ykkur og það sem allra fyrst; þá vona eg að henni batni; annars lýzt mér illa á það. Eg skal nú tala við hreppsnefndina."

Hreppsnefndin skaut á fundi og samþykti í einu hljóði að skora á prestinn að gifta þau Magnús og Þuríði þegar í stað, ella verði hann (presturinn) að ábyrgjast afleiðingarnar: Þuríður missi vitið, ef hún verði skilin frá Magnúsi og sé þetta þegar farið að sýna sig: "Hún er þegar orðin brjáluð!" Bréfið var þegar ritað og maður sendur tafarlaust með það til prestsins.

Klerki brá við og fór hann samstundis á fund sýslumanns og tjáði honum hvernig komið væri: Þuríður sé að verða viti sínu fjær af því að eiga að skilja við Magnús, en sér sé ekki heimilt að gifta þau, þar eð þau séu annarar trúar; því sé nú bezt, að láta þau synda sinn eiginn sjó og lofa þeim að búa saman unz svarið — sem hann átti von á að fá — sé komið. Biður hann nú sýslumann í mannkærleikans nafni að veita þeim sambúðarleyfi þar til er hann fái svar upp á fyrirspurn sína.

"Til þess þarf læknisvottorð!" segir sýslumaður.

Prestur fer því á fund læknis og fær vottorðið í hvelli, færir það sýslumanni og spyr, hvort hann geti nú veitt leyfið.

"Já," segir sýslumaður, "ef Magnús sækir um það sjálfur!"

—En nú nenti prestur ekki að tilkynna Magnúsi þetta; þóttist hafa haft nóga snúninga fyrir hann í þessu máli þótt þetta liði undan og svo var honum heldur ekki sárt um þótt Magnúsi kynni að sjást yfir í því atriði og yrði þau Þuríður og Magnús að skilja eftir alt saman, enda virtist presti hann nú vera búinn að losa sig við alla ábyrgðina af afleiðingum skilnaðarins og mætti hann nú, sín vegna fara fram, eins og til var ætlast í fyrstu. — Fór prestur því heim til sín. — En Þorsteinn læknir vissi vel, að Magnús þurfti að sækja um sambúðarleyfið, ef hann átti að fá það. Sem hreppsnefndaroddviti vildi hann fyrir hvern mun að Þuríður héldi vitinu og að ekki yrði sveitarvandræði að henni

og barninu. Hann benti því Magnúsi á að sækja um leyfið og gjörði Magnús það. Og nú fengu þau, með þessum hætti, hjónaleysin, leyfi til að búa í sama bólinu, þangað til prestur fengi svar upp á fyrirpsurn sína. — Nú varð Þuríður albata!—

Þetta bráðabirgðarleyfi var nú Magnús samt ekki ánægður með: Hér var aðeins um stundarfrið að ræða. Svarið, sem prestur átti von á að fá, gat orðið þeim hjónum í óhag. Mjög líklegt var, að það hljóðaði um vægðarlausan skilnað fyrir fult og alt, að vísu ekki um eilífð, en áreiðanlega um aldur og æfi. "Nei, hér þarf enn ráða við!" hugsaði Magnús. Og hvað segir 47. gr. Stjórnarskrárinnar, sem nú var nýkomin út, en fáir þektu, þótt Magnús vissi að segði svo: "*Enginn skal neins í missa af borgaralegum réttindum sakir trúar sinnar.*"

Magnús skrifar því landshöfðingja á augabragði svolátandi bréf:

"Þann 5. þ. m. var mér af hreppstjórum hér í Eyjum birtur amtsúrskurður, í hverjum mér innan viku frá birtingu úrskurðarins var boðið að slíta sambúð minni við ekkjuna Þuríði Sigurðardóttur, sem eg hefi búið saman við í meira en ár og verið innvígður í hjónaband við að sið trúbræðra minna, mormóna. En til þess að þurfa ekki að slíta sambúð minni við Þuríði, leitaði eg þegar daginn eftir til sóknarprestsins og bað hann, í votta viðurvist, að gifta okkur. En hann skoraðist undan því, sökum trúar minnar. Í tilefni af þessu, hlýt eg að leita ásjár yðar, hávelborni herra landshöfðingi, með þeim tilmælum, að yður mætti þóknast að gera ráðstöfun til þess, að sóknarpresti Vestmannaeyja verði boðið og uppálagt að gifta okkur Þuríði. Og hygg eg það vera skyldu hans og rétt minn, samkv. 47. gr. Stjórnarskrár Íslands.
9. dag desembermánaðar 1874.

Virðingarfylst,
Magnús Kristjánsson.
Til Landshöfðingjans
yfir Íslandi."

* * *

Enginn er líklegri til þess en Þorsteinn Eyjalæknir, æskuvinur Magnúsar, að hafa verið þarna í ráðum og gjöra bréf þetta þannig úr garði. — Þá er landshöfðingi fékk bréfið, sá hann, að hér var um vandamál að ræða. Það hafði tvær hliðar, sem eigi var auðvelt að sameina: Samkv. Stjórnarskránni átti Magnús heimtingu á að fá giftingu, er gildi hefði að landslögum. Það gildi hafði mormónagifting ekki, heldur aðeins lúthersk gifting. Hinsvegar var ekki hægt að skipa lúterskum presti að gifta mormóna hjón! Undanfærsla Vestmannaeyja prestsins var því bæði eðlileg og réttmæt: Honum varð ekki haldið til þess að gifta þau Magnús og Þuríði, til þess voru engin lög, og nú þóttist landshöfðingi heppinn, að hann var ekki skyldugur til að veita þessu máli fullnaðarúrslit. Hann gat aftur á móti "hrint þeim vanda af sér," yfir á yfirmann sinn, ráðherrann í Kaupmannahöfn! Slíku var hann að vísu ekki vanur, en nú var það honum nauð-

ugur kostur. Skaut hann því málinu til ráðherrans, með bréfi 5. maí 1875 og spurði hvernig að ætti að fara til þess að stjórnarskráin yrði ekki brotin á Magnúsi.

En ráðherrann var ekki færari um það en landshöfðinginn, að skera úr þessu vandræðamáli. Magnús hafði komið óþægilega við kaun löggjafarinnar: Hann hafði, óafvitandi, fundið "gat á Stjórnarskránni" sem búast mátti við að oftar en í þetta skifti gæti orðið að tjóni og trafala: Borgaraleg réttindi manna gátu þegar minst varði týnst út um þetta "gat."

Ráðherra (Nellemann) lagðist nú djúpt til að leita uppi hagkvæmt ráð til að útfylla ólukku gatið. Eina ráðið, er hann fann, var að fela konungi málið til úrlausnar; hann einn gat bætt "gatið."

Einn góðan veðurdag um haustið gengur ráðherrann á konungsfund og biður hann allra mildilegast að veita sér viðtal. Konungur tók því vel. Segir ráðherra honum alla málavöxtu og biður hann að hafa einhver ráð til þess að bjarga réttindum þessa manns, heiðri Stjórnarskrárinnar og firra löggjöf og landsstjórn ámæli, og það þyrfti meira að segja að ganga svo frá þessu, að slíkt gæti ekki komið fyrir aftur.

Konungur kvaðst skyldi athuga málið til morguns og bað ráðherrann að koma þá aftur.

Daginn eftir, er ráðherrann kom á konungsfund, kvaðst konungur hafa fundið ráðið, sem dygði til þess að bjarga réttindum Magnúsar og allra þeirra er síðar meir kynnu að komast í slíka klípu. "Það er ekkert annað," sagði konungur, "en að láta sýslumanninn gifta, í hvert sinn, sem annaðhvort hjónaefnanna eða bæði, eru annarar trúar en Lútherstrúar!"

* * *

Þarf svo ekki að orðlengja þetta frekar, því 25. október 1875 gaf konungur út úrskurð, er fyrirskipaði á þá leið er nú var sagt. Setti svo ráðherrann nafn sitt undir úrskurðinn, ásamt konungi, mjög glaður yfir því, að nú var hvorutveggja borgið, Magnúsi og Stjórnarskránni!—

Ráðherra sendi nú landshöfðingja konungs-úrskurðinn með bréfi 30. október 1875, og lagði fyrir hann að búa til nákvæma fyrirsögn um það, hvernig giftingunni skyldi hagað og senda sýslumanni hvorttveggja, konungs-úrskurðinn og fyrirsögnina og jafnframt fyrirskipa sýslumanni að gifta þau Magnús og Þuríði.

Ráðherrabréfið kom ekki til Reykjavíkur fyr en um miðjan nóvember og veitti nú landshöfðingjanum ekki af því sem eftir var mánaðarins til að útbúa giftingarfyrirsögnina og varð það fyrst 6. desember að hann var tilbúinn með þetta og ritaði sýslumanninum bréf það, er ráðherrann hafði boðið honum. Því bréfi fylgdi konungsúrskurðurinn og giftingarfyrirsögnin, ásamt skipun til sýslumannsins um að gifta þau Magnús og Þuríði hið allra fyrsta!

Vegna þess, að enn voru engar gufuskipaferðir milli Reykjavíkur og Vestmannaeyja, komst bréfið

eigi í hendur sýslumanns fyr en nálægt miðjum febrúar 1876.

Síðla í þeim mánuði komu nú hreppstjórarnir báðir, klæddir í spariföt sín, að finna Magnús, og voru nú glaðari en í hið fyrra skiftið, því nú áttu þeir að lesa upp fyrir þeim Magnúsi og Þuríði, konungs-úrskurð um það, að nú skyldu þau verða vígð á löglegan hátt heilögu hjónabandi og urðu þau bæði harðla glöð við þann konungsboðskap!

Fór nú Magnús bráðlega á fund sýslumanns og bað hann gefa sig saman við Þuríði og veita sér þó allar nauðsynlegar leiðbeiningar, svo málið yrði réttilega undirbúið. Veitti sýslumaður honum þær og ákvað, að hjónavígslan skyldi fram fara í þinghúsi Vestmannaeyja kl. 12 á hádegi hinn 30. marz 1876.—

Fregnin barst nú eins og eldur í sinu meðal Eyjaskeggja og þótti hún engin smávegis tíðindi: Að konungurinn sjálfur hefði skipað sýslumanninum að gifta þau Magnús og Þuríði! "Það mátti ekki minna kosta!" sögðu menn.

Var nú mörgum forvitni á að sjá og heyra hvernig "giftingin" færi fram, enda var hverjum sem vildi heimilt að vera viðstaddur og kom víst fáum til hugar að láta því líkt tækifæri ónotað!—

Að morgni hins ákveðna brúðkaupsdags tók fólkið snemma að flykkjast að þinghúsinu og er því var upplokið, ruddist svo mikill fjöldi inn í húsið að það varð fult á svipstundu. Tók það 500 manns og eigi voru þeir færri er úti stóðu, enda stóð þá vetrarvertíð þar yfir.

Sýslumaður, brúðhjónin og svaramenn þeirra, Þorsteinn læknir og Þorsteinn alþingismaður, komu á ákveðnum tíma. Hreppstjórar rýmdu til í þinghúsinu og var forsætisbekkur þess hafður fyrir brúðarbekk. Sýslumaður flutti ræðu fyrir brúðhjónunum og skýrði fyrir þeim hjónabandsskyldurnar. Síðan spurði hann þau venjulegra spurninga, hvort fyrir sig, og er þau höfðu játað þeim, bað hann þau taka höndum saman og vinna hvort öðru órjúfandi trygðaheit. Það gjörðu þau fúslega. Lýsti hann þá yfir því fyrir öllum er á heyrðu, að frá þeirri stundu væru þau lögleg hjón. —Að því búnu snéri sýslumaður sér að sóknarprestinum, sem var þar viðstaddur, og bað hann að innfæra gjörning þennan í kirkjubókina og lofaði prestur því. Fór síðan hver og einn heim til sín og sinna.—

Loks bað sýslumaður Magnús að koma heim til sín að þrem klukkustundum liðnum að sækja hjónabandsvottorð þeirra, er hljóðar þannig:

"Mikael Marius Ludvig Aagaard sýslumaður Vestmannaeyjasýslu kunngjörir:

Að ár 1876, fimtudaginn 30. dag marzmánaðar um hádegi mættu í þinghúsi sýslunnar fyrir sýslumanni og undirrituðum vottum yngismaður Magnús Kristjánsson í Vestmannaeyjum og ekkjan Þuríður Sigurðardóttir sama staðar, til þess að fá stofnað borgaralegt hjónaband, sem þeim hafði leyft verið að innganga með konungsúrskurði 25. októbermánaðar 1875 og hefir það verið auglýst við

kirkju með rúmlega þriggja vikna fresti, að þau ætluðu að stofna hjónabandið eins og þau einnig hafa fullnægt öllum öðrum skilyrðum, sem ofannefndur konungsúrskurður mælir fyrir um. Eftir að þýðing og gildi hjónabandsins hafði verið leitt þeim fyrir sjónir og yfirvaldið hafði spurt þau hvort í sínu lagi, hvort þau vildu eigast og þau höfðu játað því, lýsti sýslumaður yfir að löglegt hjónaband væri stofnað milli þeirra Magnúsar Kristjánssonar og Þuríðar Sigurðardóttur.

Fór hjónavígsla þessi fram fyrir opnum dyrum.

Ut supra. M. Aagaard.

Sem vottar: Þorsteinn Jónsson læknir. Þorsteinn Jónsson alþingismaður.

Þessu til staðfestu mitt undirskrifað nafn og embættisinnsigli,

M. Aagaard.

Borgað 2 — tvær — krónur. M. A.''

* * *

Nýgiftu hjónunum þótti mjög vænt um vottorðið, brutu skjalið saman og lögðu það í kistuhandraða. Þar lá það lengi óhreyft, en mun nú ekki lengur til vera.

Nú lifðu hin nýgiftu hjón eins og blóm í eggi og nutu óblandaðrar ástarsælu í fullum mæli. Þótti þeim því meira til hennar koma, sem hún hafði kostað þau meiri baráttu og mál þeirra orðið að ganga í gegnum fleiri dómstig og afskiftasemi annara, sem sé: Tveggja hreppstjóra, hreppsnefndar og oddvita hennar, læknis, prests, sýslumanns, amtmanns, landshöfðingja, ráðherra og loks konungs, enda var þetta *hið fyrsta borgaralega hjónaband, sem stofnað hafði verið á Íslandi.*

* * *

Magnús var vel hagorður og lét nú ósjálfrátt í sigurgleðinni ''fjúka í kveðlingum,'' en það kom honum ekki sem bezt, því hann var meinfyndinn og þótti sumum sem sér væri til drukkið. Var Magnús aðvaraður og gekk hann í kveðskaparbindindi. Um það kvað hann síðar:

''Eg orkti margt og mjög óþarft,
menn óspart það stygði,
en hætti snart, því vit var vart,
vísnaskart sem bygði.''

Ekki varð þeim hjónum barna auðið.

Árið 1879 (um haustið) fluttu þau að Útgörðum í Stokkseyrarhverfi og bjuggu þau þar um 26 ára skeið og héldu jafnan fast við mormónatrú sína, þótt enginn væri söfnuðurinn utan þau tvö ein. Helgisiða-æfingar þeirra fóru fram innan fjögurra veggja og gátu menn þess til að þar mundu þær hjartnæmastar, er bezt næðið væri og nógur ylurinn og vissi enginn um þær.

* * *

Veturinn 1905 fékk Magnús heilablóðfall og misti mátt og meðvitund svo dögum skifti, en rétti þó við aftur, svo að hann fékk mál, rænu og mátt nokkurn í aðra hlið líkamans. Þá var (1897) Eyrarbakka hreppur aðskilinn frá Stokkseyrar hreppi (hinum síðarnefnda skift í tvent að 1/3 hluta (Eyrarb.) og 2/3 (St. hr.) og féll það í hlut Magnúsar að lenda á

framfæri Eyrarbakka hrepps, enda var hann þá (1897) farinn að njóta sveitarstyrks og eyða síðustu æfidögum sínum í kör í Óseyrarnesi. Naut hann þar góðrar aðhlynningar og umhirðu. Þjónustur hans þar urðu honum kærar og kvað hann til þeirra vísur þessar:

*Til Halldóru*:

"Hún yngri Dóra er ágæt drós;
um það tala vel eg þori,
hún brosir eins og rauðleit rós
í röðulskini' á fögru vori."

*Um Ágústu*:

"Föðurlandsins fagurt yndi,
falleg mær á Ísastorð,
sansa-stilt í lífsins lyndi,
lagt sem væri gull á borð,
og því velti á ýmsar hliðar—
iðilnetta baugalín —
Vonin mín er öll til yðar,
ástkærasta Gústa mín!"

Þuríður varð eftir í Útgörðum þá er Magnús var fluttur þaðan veikur (1906); hún dó veturinn 1909-1910. Voru þá allar reitur þeirra seldar á uppboði og þar á meðal — án efa — kistan, þar sem giftingarvottorð þeirra hjóna var geymt í, en það var *fyrsta frumrit hjónavígsluvottorðs sýslumanns hér á landi, um hið fyrsta borgaralegt hjónaband er stofnað var* og sem svo erfitt hafði reynst að fá, sem að framan er lýst.

*Þau Magnús Kristjánsson og kona hans, Þuríður Sigurðardóttir eru því sögulega merkilegar persónur*, að því leyti, að þau gáfu tilefni til þess, að sýslumönnum og bæjarfógetum var falið að gifta sértrúarpersónur og margar aðrar síðar.—

Að Þuríði látinni lét Magnús þess getið við vin sinn, að það hefði fremur glatt sig en hrygt, er hann frétti lát hennar: Hann sagðist samgleðjast henni að nú væri hún frelsuð. Nú væri það sín eina von að frelsast líka. Jesús hefði oftar en einu sinni birzt sér í draumi og lofað að gefa sér Þuríði unga og fagra í öðrum heimi. Sýnir þetta trúaralvöru og einnig hitt, að trúarsælan er ekki undir því komin hver trúarbrögðin eru, heldur undir því hvernig trúarlífinu er lifað. — Magnús dó 22. ágúst 1910.

Magnús Kristjánsson var lágur maður vexti, rjóðleitur í andliti, stuttnefjaður, með vangafyllum nokkrum, skeggjaður á vöngum og vörum. Hann var jafnan glaður og viðræðugóður, fróður vel um ýmsa hluti, en einkum þá er að smíðum lutu, enda var hann renni-smiður góður á tré, járn og kopar. Hann var vandaður maður til orðs og æðis, greindarlegur á svip og góðmannlegur, skýr í orðum og skjótur til andsvara. Bera þess vott ýms spaugsyrði og skrítlur þær er eg á í fórum mínum eftir hann.

Þuríður Sigurðardóttir var meðal kvenmaður að vexti og hefir áreiðanlega verið fríð sýnum á yngri árum. Eg var á 14. ári, 1879, er eg sá hana fyrsta sinni, aldraða nokkuð, hrukkótta í andliti og harðlega á svip, en sá harðneskjusvipur hvarf með öllu, er maður fór að tala við hana, einkum ef talið barst að því að hjálpa einhverj-

um þeim er bágt átti og leitað var ráða hennar um liðsinni og líkn þeim til handa er veikir voru og vanburða, menn eða málleysingjar. Vegna þess, hve oft og einatt ýms ráð hennar og úrslit slíkra mála — jafnvel þótt nú væri taldar úr kerlingabókum vera og "skottulækningar" nefndar—lágu svo að segja á hraðbergi hjá henni og reyndust óbrigðul eða jafnvel betri en lækninga-samsull lærðra manna, var það almenn trú á henni að hún kynni ýmislegt það fyrir sér, er aðrir eigi skildu eða kynnu nein ráð við. Hún var því jafnvel álitin nokkurs konar "galdrakerling!" Þetta hafði vitanlega við engin rök að styðjast. Hitt var heldur, að hún var, einkum á síðari árum allforneskjuleg á að líta og að skarpskygni hennar og skjót úrræði komu mönnum oft svo á óvart að þeim þótti það ekki einleikið vera.

Hjón þessi, sem á sínum tíma höfðu vafin verið svo óvenjulegum viðjum ástar og tryggðar hvort við annað, sem nú hefir lýst verið, lifðu jafnan í fátækt, við féleysi og harðan kost, en þau voru "sæl í sinni trú," hvort öðru trygg og tállaus, mörgum mönnum og málleysingjum til hjálpar og hugarbóta. [Þau voru bæði einlægir og tryggir bindindismenn (Goodtempl.) öll þau ár, er eg var í nágrenni við þau (1879-1902). Oft rérum við Magnús á sama skipi og oft töluðum við saman á Templarafundum og bar þá ýmislegt af því á góma, sem hér er sagt og ritað, en sumt af því er tekið úr "þáttum" (prentuðum) eftir Br. J. og sumu af því slept en öðru bætt við.]

---

# Kvæða brot

*Eftir St. G. Stephansson.*

## ALIBI

Eftir sögulestur.

Þeim rætist ósk sín, enn er tjá það
 satt
Að íslendingum hérna sé til bata,
Ef sinni eigin erfðafestu glata
Og svikaheitum sverja allan skatt.
Eitt hlægir mig: Eg veit eg verð ei
 hér,
Á vegum ljóss af okkar sól og mána,
Er eldaskáldann umskiftingar lána
og sekur af þingi síðsti goðinn fer.

## GLÁMSKYGNI.

Svipi á sjáaldur
Sjónhverf dregur
Óvörum ómunuð hugsun.
Við töfra tíru
Tunglskins geislans,
Gjörst hefir margur glámskygn.

## ÞÝZKU KARTÖFLURNAR.

"Stríðið stendur og fellur með þýzku kartöflunum."—Íslenzk blaðafregn.

Sköpunarverkið alt varð erfðasynd,
Allir hlutir, sérhver lífræn mynd;
Því fór eftir öðrum slysa-vonum,
Innrætið í þýzku kartöflonum!

# Ármann frændi

*Eftir J. Magnús Bjarnason.*

Eins og eg tók fram í þættinum af Hákoni Farmann, þá voru fyrir víst þrír Íslendingar búnir að vera um nokkurt skeið í Nýja-Skotlandi, þegar íslenzka nýlendan á Mooselands-hálsum var stofnuð árið 1875. Einn þessara þriggja manna hét Ármann, og langar mig til að segja um hann nokkur orð, áður en eg lýk við þessa þætti um Íslendinga í Nýja-Skotlandi, þótt eg raunar viti harla lítið um hann. Hann kom aldrei til nýlendunnar, og mjög fáir af nýlendubúum þektu hann persónulega. Eg heyrði þá sjaldan minnast á hann, og ef til vill hefir enginn þeirra vitað með vissu, hverra manna hann var eða hvaðan af Íslandi hann kom. Hann var einhleypur, og kom vestur um haf einn síns liðs, og var sagður vera smiður á tré og járn. Eg held að enginn í nýlendunni hafi vitað, hvers son hann var, að minsta kosti heyrði eg aldrei föðurnafn hans nefnt. Hann var jafnan nefndur: *Ármann Archibald*, þegar á hann var minst, því að hann var í vinnu hjá járnsmið, sem hét Allan Archibald, allan þann tíma sem hann dvaldi í Nýja-Skotlandi. En eg hefi ávalt kallað hann *Ármann frænda*, af ástæðu, sem eg get um síðar.

Eg kyntist honum ofurlítið sumarið 1879. Það var í bænum Dartmouth, sem stendur austan megin Halifax-fjarðarins og beint á móti Halifax-borg. Það sumar var eg vikadrengur hjá öldruðum, skozkum manni, Edgar Oswald að nafni, sem bjó skamt fyrir norðan bæinn. Eg var fenginn til að vera hjá honum meðan sonur hans var í siglingum um sumarið. Hét sonur hans Robert og var háseti á seglskipi, sem var í förum milli Halifax og Kingston á Jamaica.

Eg man eftir því, eins glögt og það hefði skeð í gær, þegar eg fór í þessa vist. Eg var þá þrettán ára gamall, og það var í fyrsta skiftið, sem eg hafði verið að heiman til langframa. Það var skozkur bóndi, sem útvegaði mér þessa vist. Hann hét Mark Miller og átti heima skamt frá íslenzku nýlendunni, og foreldrar mínir þektu hann að öllu góðu. Hann kom eitt kvöld, snemma í maímánuði, til þess að fara með mig í vistina, og var hann um nóttina í nýlendunni. En í bítið daginn eftir lögðum við af stað og ókum á tvíhjólaðri kerru, sem bleikur hestur gekk fyrir. Eg hlakkaði svo mikið til fararinnar, að eg svaf næstum ekkert nóttina áður en eg lagði af stað. Það var gott veður og glaða skólskin, þegar við fórum úr nýlendunni, og akvegurinn var víðast greiður og sléttur, einkum þegar út í Musquodoboit-héraðið kom. Og Mark Miller var hinn skemtilegasti förunautur, og hafði eg mikið yndi af að hlusta á sumt af því, sem hann sagði mér. Eg var forvitinn og spurði um ótalmargt, og öllum mínum spurningum svaraði hann glaðlega og ljúfmannlega. Eg

man, að eg spurði hann oft um eitt og annað viðvíkjandi Oswalds-hjónunum (tilvonandi húsbændum mínum). Hann sagði að þau væri hin mestu heiðurshjón, að herra Oswald væri alúðarvinur sinn, og að þeir hefðu verið leikbræður í æsku.

"Þér mun aldrei leiðast hjá þeim góðu hjónum," sagði Miller oft og einatt við mig á leiðinni. "Og svo er líka Íslendingur í Dartmouth," sagði hann einu sinni, "og hann getur þú fundið við og við og talað við hann íslenzku."

"Hefirðu séð hann?" spurði eg.

"Nei. En eg hefi oft heyrt talað um hann."

"Veiztu hvað hann heitir?" spurði eg.

"Nei, ekki veit eg það. En eg hefi heyrt að hann sé góður smiður, og að hann hafi bækistöð sína hjá Allan Archibald járnsmið. Og í Dartmouth er hann kallaður: *Íslendingurinn hans Archibalds.*"

"Eg hefi heyrt að í Dartmouth sé Íslendingur, sem heitir Ármann," sagði eg.

"Það er vafalaust sami maðurinn," sagði Miller, því að í Dartmouth er víst ekki til nema að eins einn Íslendingur, nú sem stendur."

Við Mark Miller vorum tvo daga á leiðinni frá nýlendunni til Dartmouth. Sú vegalengd er um fimtíu mílur enskar, eða rúmlega það. Við vorum nætursakir á góðu bóndabýli skamt frá litlu kauptúni nálægt Grand Lake. Þar fengum við gott að borða og sváfum í góðu rúmi, en þar dreymdi mig leiðinlegan draum. Mér þótti að Bleikur (hesturinn okkar) fælast með okkur og hlaupa fram á háa hamra við sjóinn, og var eg svo hræddur í svefninum, að eg hrökk upp og varð andvaka. Um morguninn sagði eg Miller drauminn. Hann brosti og sagði góðlátlega, svipuð orð og Sturla Sighvatsson forðum: "Ekki er mark að draumum." En draumurinn var efst í huga mínum allan daginn og hafði slæm áhrif á mig, því að eg þóttist viss um, að Bleikur fældist með okkur, eða þá að eitthvert annað óhapp kæmi fyrir okkur á leiðinni til Dartmouth. En það kom ekkert fyrir okkur á þeirri leið, og náðum við með heilu og höldnu til bæjarins um klukkan sex um kvöldið. Þá var köld og ömurleg þoka af hafi að læðast inn Halifax-fjörðinn, og fanst mér því í fyrstu bærinn fremur skuggalegur og landið umhverfis alt annað en skemtilegt. Og er þar þó fögur útsýn, þegar bjart er, einkum á sumrin.

En þegar við komum að húsi Oswalds-hjónanna — það var um hálfa mílu enska frá bænum — þá greip mig alt í einu einhver óróasemi og undarlegur kvíði, því að mér sýndist húsið vera svo leiðinlegt og skuggalegt og fráhrindandi. Áður en eg lagði af stað að heiman, og eins á leiðinni, hafði eg gjört mér það í hugarlund, að hús þetta væri mikið og glæsilegt; en nú sá eg að það var alveg hið gagnstæða. Það var að vísu nokkuð stórt, en fornfálegt og af sér gengið. Það stóð eitt og afskekt í djúpri kvos niður við sjóinn, og á milli þess og bæjarins var all-hár og hrjóstrugur hóll, sem mér fanst mjög leiðinlegur, einkum vegna

þess, að hann gjörði minna útsýnið frá húsinu og skygði með öllu á bæinn. — Og ekki þótti mér húsið að neinu leyti fallegra að innan en utan. Þar voru að sönnu mörg herbergi, bæði uppi á loftinu og eins niðri, en þau voru öll í eyði og tóm, nema aðeins þrjú, sem hjónin höfðu til afnota. Og í þeim þremur herbergjum var alt að sjá mjög gamalt og fátæklegt, en þó hreint og fágað.

Ekki vantaði það, að vel og alúðlega var tekið á móti mér. Oswalds-hjónin voru glaðleg og viðmótsþýð, og reyndu á allar lundir til að láta mér líða vel. Og framkoma þeirra gagnvart mér var ávalt eins, allan þann tíma, sem eg var hjá þeim, alt af sama alúðin, sama nærgætnin, sama glaða og þýða viðmótið. Þau voru bæði komin á efri aldur, voru um sextugt eða eldri. Herra Oswald var lítill maður vexti, haltur og gekk við staf; og gamla konan var grönn og mögur og veikluleg. — En frá því fyrst að eg steig fæti inn fyrir dyrnar á húsi þessara góðu, öldruðu hjóna, og þangað til að eg fór þaðan, þjáðist eg af sterkri og brennandi heimþrá, en þó mest fyrstu tvær vikurnar, sem eg var þar. Og eg man, að eg ympraði á því við Mark Miller, þegar hann kvaddi mig (morguninn eftir að eg kom í þetta skuggalega hús), að mig langaði til að fara aftur heim með honum. En það vildi hann auðvitað ekki heyra. Og svo lagði ann af stað heim.

Eg held að gömlu hjónin hafi orðið þess áskynja, strax fyrsta daginn, sem eg var hjá þeim, að mér leiddist, þótt eg reyndi af öllum mætti til að leyna því. Þau skildu aldrei við mig þann dag, voru alt af til skiftis að tala við mig og sýna mér, hvað eg ætti að starfa. Þau áttu einn hest og tvær kýr og nokkra alifugla, sem eg átti að gæta; og á bak við húsið var allstór matjurta-garður, og þar var nóg til að gjöra. — Herra Oswald þreyttist aldrei á að láta mig heyra kvæði eftir skozku skáldin: Robert Burns, James Hogg og David Sillar. Hann kunni heil kynstur af þeim kvæðum utanbókar. En þau voru flest á skozkri mállýzku, sem eg átti örðugt með að skilja, og hafði eg því ekki mikla skemtun af að heyra þau flutt. En gamla konan talaði oft og einatt við mig um son sinn, Robert, og sýndi mér ýmsa muni, sem hann átti, þar á meðal nokkur leikföng, sem hann hafði geymt frá því, að hann var lítill drengur.

''Þetta eru barnagullin drengsins míns,'' sagði hún, þegar hún sýndi mér leikföngin; ''hann var ætíð góður og hlýðinn drengur, og hann verður æfinlega ráðvandur og góður drengur. En nú er hann á sjónum, Guð blessi hann og varðveiti hann!''

Og mér fanst meiri hugléttir í því, að hlusta á hennar tal, heldur en á tal mannsins hennar, sem auk þess talaði með enn þá skozkari hreim en hún. Eg þóttist vita, að hugur hennar og hjarta væri alt af stöðugt hjá Robert (drengnum hennar), sem henni var svo kær. Eg var viss um það, að hún þráði heimkomu hans eins mikið og eg þráði að komast heim til mömmu

minnar. Og mér fanst að það draga sárasta sviðann úr heimþrá minni, að vita það.

Eg spurði herra Oswald að því, skömmu eftir að eg kom til hans, hvort hann þekti nokkurn Íslending í Dartmouth. Hann kvaðst ekki vita til þess, að þar væri nokkur Íslendingur; að minsta kosti hefði hann aldrei heyrt þess getið. Eg sagði honum að eg hefði heyrt að þar væri Íslendingur, Ármann að nafni, sem væri í vinnu hjá járnsmið, sem héti Archibald. Og eg lét það í ljós, að mig langaði til að finna hann einhvern tíma. Herra Oswald sagði að það væri satt, að í Dartmouth væri járnsmiður, sem héti Archibald, en kvaðst aldrei hafa heyrt að Íslendingur væri í þjónustu hans. Um það sagðist hann samt skyldi grenslast næst þegar hann færi inn í bæinn.

En það kom ekki til þess, að hann þyrfti að grenslast eftir því, því að skömmu síðar kom aldraður maður frá Dartmouth til að finna Oswalds-hjónin. Þau þektu hann vel. Hann hét John Williams og var garðyrkjumaður. Þegar hann sá mig, spurði hann herra Oswald um það, hvaðan eg væri. Og þá er hann vissi, að eg var Íslendingur, fór hann að segja okkur frá því, að íslenzkur maður væri búinn að vera um nokkurn tíma hjá Allan Archibald járnsmið.

"Hvað heitir sá Íslendingur?" spurði herra Oswald.

"Það veit eg ekki," svaraði Williams; "eg heyri að hann er jafnan kallaður: *Íslendingurinn,* eða *Íslendingurinn hans Archibalds.* Hann er sagður að vera góður verkmaður og hagur vel bæði á tré og járn. Mér er sagt að hann sé í hjáverkum sínum að smíða bát á stærð við fjögramanna-far; og sumir halda, að hann ætli að fara aleinn á þeim bát alla leið til Íslands, strax og hann hefir gjört hann sjófæran, því að hann kvað ekki festa yndi hér í Ameríku."

"Slíkt nær nú engri átt," sagði herra Oswald, "því að enginn maður fer einsamall á fjögramanna-fari yfir Atlantshaf."

"Þetta segja menn þó, að hann hafi í hyggju," sagði Williams.

Svo töluðu þeir ekki meira um það. En litlu síðar átti herra Oswald ferð inn til Dartmouth, og bauð hann mér að fara með sér. Það þáði eg með þökkum. Og þegar við komum inn í bæinn, benti hann mér á smiðju, sem þar var niður við sjóinn.

"Þarna er smiðjan hans Archibalds," sagði hann; "þú getur beðið mín þar, meðan eg stend við í búðinni þarna yfir frá. Eg veit, að þig langar til að heilsa upp á landa þinn. Þú mátt samt ekki tefja fyrir honum. En þú mátt bjóða honum að koma til okkar á sunnudaginn, ef þú vilt."

Eg var herra Oswald af hjarta þakklátur fyrir að leyfa mér þetta. Og gekk eg nú rakleitt yfir að smiðjunni, nam staðar fyrir framan dyrnar og horfði inn. Smiðjan var stór, og voru þar þrír menn inni og unnu af kappi. Voru þeir allir miklir menn vexti og kraftalegir, en einn þeirra bar þó af þeim öllum, og þóttist eg vita, að það væri sjálfur yfirsmiðurinn, Allan Archibald. Gekk eg til hans, þar

sem hann stóð við steðjann, og spurði hann, hvort ekki væri þar íslenzkur maður, sem héti Ármann.

"Hvað viltu honum?" sagði þessi vöxtulegi maður mjög góðlátlega eftir að hafa virt mig fyrir sér um nokkur augnablik. Og eg tók eftir því, að hann var ljóshærður, með blá augu, nokkuð togin leitur, og sérlega góðlegur á svip.

"Eg er íslenzkur," sagði eg, "og mig langar til að tala við hann nokkur orð."

"Einmitt það!" sagði hann. "Og hvað heitir þú?"

Eg sagði honum nafn mitt, og að eg væri vikadrengur hjá herra Oswald, sem ætti heima um hálfa mílu fyrir norðan bæinn, en að foreldrar mínir væri í nýlendunni á Mooselands-hálsum.

"Eg er maðurinn, sem þú ert að leita að," sagði hann á íslenzku og brosti.

"Heitir þú Ármann?" sagði eg og horfði á hann stórum augum.

"Já, eg heiti Ármann. Eg er Íslendingur. Og eg er frændi þinn." Og hann klappaði á kollinn á mér um leið og hann sagði síðustu orðin.

"Ertu þá skyldur pabba mínum?" spurði eg. "Eða ertu kannske skyldur mömmu minni?"

"Eg er skyldur þeim báðum. Og þess vegna er eg áreiðanlega frændi þinn. En um hvað vildirðu tala við mig?" Og Ármann leit um öxl sér til smiðju-aflsins um leið og hann sagði þetta.

"Mig langar bara til að tala við þig á íslenzku um eitthvað — bara um eitthvað — af því að þú ert Íslendingur," sagði eg hikandi.

"En nú er eg mjög vant við kominn, eins og þú sérð," sagði hann blíðlega. "Gætir þú ekki fundið mig hérna á sunnudaginn eftir hádegið? Eða ef til vill þætti þér betra, að eg kæmi til þín?"

"Já, það vildi eg helzt," sagði eg. "En ratar þú þangað sem eg á heima?"

"Já, Oswalds-húsið er þarna fyrir norðan hólinn. Eg skal koma á sunnudaginn eftir hádegið."

"Þá ætla eg að fara," sagði eg. "Vertu sæll!"

"Guð veri með þér, frændi!" sagði hann brosandi og brá upp hendinni. "Guð veri ávalt með þér!"

Eg gekk svo yfir í búðina, þar sem herra Oswald var að taka út te og sykur, og fór með honum heim. Og eg fann að mér var ögn léttara innan brjósts, af því, að eg hafði fundið Íslending, sem líka var *frændi* minn.

Næsta sunnudag, skömmu eftir hádegið, kom Ármann til þess að finna mig, eins og hann hafði lofað. Oswalds-hjónin tóku honum mætavel. Hann talaði við þau nokkra stund, og eg heyrði að hann talaði furðu-góða ensku. Hann var þokkalega til fara og hafði rakað sig um morguninn. Hann var nú að sjá unglegri en þegar eg sá hann í smiðjunni, og mér sýndist hann nú enn meiri vexti en þá. Hann hefir vafalaust verið full sex fet á hæð, og hann var vel limaður, þykkur undir hönd, en ofurlítið slap-axlaður. — þegar hann

hafði talað um stund við herra Oswald, bað hann mig að ganga með sér ofan að sjónum. Og það gjörði eg.

"Gott er að ganga með sjónum, þegar manni leiðist," sagði Ármann. Og eg fór að hugsa, að einhver hefði sagt honum að mér leiddist.

Við gengum um stund fram og aftur með sjónum, og settum okkur svo niður á stóran stein, sem var nærri flæðarmálinu. Veðrið var blítt og fagurt og fjörðurinn lygn.

"Hvað er það annars, sem þig langar til að segja mér?" sagði Ármann, þegar við vorum seztir á steininn.

"Mér leiðist ósköp mikið," sagði eg.

"Eru hjónin þó ekki góð við þig?"

"Jú, þau eru góð við mig," sagði eg, "en samt leiðist mér. Eg vildi alt til vinna, að geta strax komist heim til mömmu minnar. Vildir þú ekki biðja hjónin að lofa mér að fara? Eg kem mér ekki að því."

"Hann herra Oswald sagði mér áðan, að þú yrðir hjá sér bara meðan sonur hans er í burtu. En hann kemur heim eftir fjóra mánuði. Og það er ekki svo langur tími."

"En mér finst það heil eilífð," sagði eg.

"Frændi minn góður," sagði Ármann og klappaði á herðarnar á mér, "það liti ekki vel út, ef þú færir frá þessum góðu, gömlu hjónum áður en sonur þeirra kæmi heim. Slíkt þætti ekki samboðið góðum Íslending. Allir, sem á þessi hjón minnast, segja að þau séu góðar og heiðvirðar manneskjur. Þau eru fremur fátæk nú, en voru einu sinni í góðum efnum. Þau urðu fátæk, að sögn, af því, að þau hjálpuðu bágstöddu fólki meira en efni þeirra leyfðu. — Ef eg væri í þínum sporum, þá reyndi eg til að ganga þeim í sonarstað meðan Robert sonur þeirra er í burtu."

"Eg vil reyna það," sagði eg; "en mig langar svo mikið heim til mömmu minnar, að eg get helzt ekki um annað hugsað en hana og litla bjálkahúsið hennar í nýlendunni á Mooselands-hálsum, þar er svo hlýtt og bjart, en hér finst mér alt svo kalt og skuggalegt."

"Eg veit, hvað heimþrá er," sagði Ármann eftir stutta þögn; "hún greip mig heljartökum strax og eg kom til þessa lands. Og nú eru sex ár síðan."

"Langaði þig þá heim til móður þinnar?" spurði eg.

"Mig langaði aftur heim til Íslands," sagði Ármann lágt.

"Og leiddist þér mikið?" spurði eg.

"Svo mikið, að eg naut hvorki svefns né matar fyrst í stað."

"Því fórstu þá ekki heim?" sagði eg.

"Eg hefði undir eins farið heim, ef eg hefði getað," sagði Ármann með mikilli hógværð og stillingu; "en eg hafði ekki efni á því. Það var örðugt að fá atvinnu, og kaupgjald var lágt, og er það enn. Eg var fyrst um tíma í Bandaríkjunum, fór þaðan til Barrie í Ontario og vann þar um tíma við sögunarmylnu, þaðan fór eg til Halifax í

því skyni, að vinna mér þar inn peninga til þess að borga með fargjaldið heim. Í Halifax fann eg herra Archibald, og með honum fór eg hingað til Dartmouth og hefi verið á hans vegum síðan. Og alt af stöðugt langar mig heim, en heimþrá mín er löngu hætt að kvelja mig, eins og hún gjörði fyrsta árið. Eg náði tökum á henni og held henni í skefjum, — það má lækna heimþrá.''

''Er þá meðal til við henni?'' spurði eg.

''Já. Og það meðal er hverjum manni gefið,'' svaraði Ármann. ''Hefirðu aldrei heyrt fallegu söguna af austræna kóngssyninum litla, sem tekinn var til fósturs af voldugum konungi á Indlandi? Það var fyrir alda-öðli. Í fyrstu leiddist kóngssyninum svo mikið, að hann var ekki mönnum sinnandi. En þá kom fóstra hans til hans og sagði honum söguna af kóngssyninum, sem leysti systurnar sjö frá Syrgisdölum úr álögum, og hún bað hann svo að segja sér sömu söguna næsta dag. Og kóngssonurinn litli tók svo vel eftir sögunni, að hann gat sagt fóstru sinni hana aftur daginn eftir. Þá sagði fóstran honum aðra sögu, sem hann varð að festa á minnið og segja næsta dag. Og í hundrað daga sagði fóstran honum nýja og nýja sögu, en hann sagði henni þær allar aftur. Og um leið hætti honum smátt og smátt að leiðast, unz heimþrá hans læknaðist til fulls — á hundrað dögum.''

''Þetta er ekki sönn saga,'' sagði eg.

''Það má vel vera, að hún sé ekki sönn,'' sagði Ármann og brosti; ''en hún er þó sönn sagan af honum Agli Skallagrímssyni. Hann misti son sinn, Böðvar, í sjóinn, og var þá fyrir skömmu búinn að missa annan son ungan, Gunnar að nafni. Varð Egill svo yfirkominn af harmi, að lífið varð honum óbærilegt, og var hann fastráðinn í því, að svelta sig til dauðs. En þá gat Þorgerður, dóttir hans, fengið hann til þess að yrkja erfikvæði eftir Böðvar. Var hann tregur til þess í fyrstu, því að hann efaði að hann gæti þá ort, þótt hann reyndi til, en lét þó tilleiðast á endanum. Og orti hann þá hið fræga ''Sonatorrek'' (eftirmæli eftir þá Böðvar og Gunnar). Í fyrstu átti hann mjög erfitt með að yrkja kvæðið, en hresstist því meira sem erindin urðu fleiri. Og þegar kvæðinu var lokið, fann hann að honum var að stórum mun hughægra en þegar hann byrjaði að yrkja það; og hætti hann þá við það áform sitt, að svelta sig í hel. — Hann átti því sjálfur það meðal, sem sefað gat hinn mikla harm hans og trega.''

''En hann var skáld,'' sagði eg.

''Allir menn hafa skáldskapargáfuna að einhverju leyti,'' sagði Ármann. ''Og hún er hvergi á hærra stigi en hjá börnunum — einmitt börnum á þínum aldri. Þess vegna ættir þú nú að yrkja langt kvæði, til þess að útrýma leiðindum og heimþrá úr huga þínum.''

''Það væri mér ómögulegt,'' sagði eg; ''eg hefi aldrei á æfi minni búið til vísu.''

''Þú gætir samt reynt það, frændi,'' sagði Ármann og klapp-

aði á herðarnar á mér. "Þú getur, hvenær sem þú vilt, látið ímyndanina sýna þér inn í sjálfa Álfheima — heimkynni ljósálfanna góðu, þú getur látið hana fara með þig inn á fögur og sólrík og víðáttu-mikil undralönd í hugarheimi þínum, þar getur þú reist þér kostulegar borgir og glæsilega töfra-kastala, getur kallað fram stóra skara af fríðu og elskulegu huldufólki, og jafnvel mensku fólki líka — heila herskara af köppum og kóngssonum, sem þú hefir unun af að vera með. Þar ræður þú lögum og lofum, ert þar ávalt einvaldur herra — mildur og ástsæll og hamingjusamur konungur. — Um þetta fagra kóngsríki þitt ættir þú að yrkja langt söguljóð. Og byrjaðu nú strax í dag."

Eg þagði.

Og litlu síðar stóðum við upp og gengum heim að húsinu. Og þegar Ármann kvaddi mig, sagði hann brosandi:

"Komdu til mín á sunnudaginn. Eg verð í stóra skálanum, sem er rétt fyrir sunnan smiðjuna. Eg ætla að sýna þér nokkuð."

Næsta sunnudag, nokkru fyrir hádegið, fór eg inn í Dartmouthbæinn og gekk rakleitt að skálanum, sem var sunnan við smiðju Allans Archibalid. Þar sat Ármann á bekk fyrir utan dyrnar og las í lítilli bók, sem hann lét í vasa sinn um leið og eg heilsaði honum.

"Ertu byrjaður á kvæðinu?" spurði hann, þegar eg var seztur á bekkinn hjá honum.

Eg svaraði engu, en tók lítið blað úr vasa mínum og rétti honum. Og eg fann að eg roðnaði ı framan. Á blaðinu voru þrjár vísur (ef vísur skyldi kalla), sem eg hafði verið að hnoða saman í heila viku.

Ármann las vísurnar aftur og aftur, og mér virtist hann lesa þær með mikilli eftirtekt og ánægju, því að hann brosti með köflum og klóraði sér ofurlítið bak við eyrað.

"Þetta er dágóð byrjun," sagði hann glaðlega að lokum. "Haltu áfram með kvæðið og láttu það verða langt. Og þú ættir að kalla það: Ljósálfaljóð. — En þú verður að raða höfuðstöfum og stuðlum með mikilli gætni." Og hann gaf mér nokkrar góðar og ítarlegar leiðbeiningar því viðvíkjandi.

"Eg held, að eg geti aldrei bætt neinu við þessar vísur," sagði eg; "því að mér gengur svo illa að láta hendingarnar standa í hljóðstöfum, og eins á eg svo bágt með að láta þær ríma saman. Mig vantar alt af réttu orðin."

"Það lagast alt með tímanum, smátt og smátt, ef þú lætur ekki hugfallast," sagði Ármann. "En það er um þig eins og um Egil Skallagrímsson, þegar hann var að byrja að yrkja kvæðið "Höfuðlausn." Hann gat ekki ort meðan uglan sat við gluggann fyrir utan, því að hún vældi bæði hátt og ámátlega, þangað til að Arinbjörn rak hana burtu og settist sjálfur við gluggann. — Á glugganum hjá þér er líka stór og úfin ugla, sem alt af er að fipa fyrir þér og gefur þér enga ró, og sú ugla heitir *Heimþrá*. Nú hefi eg einsett mér að vera þér Arinbjörn og reka þessa ótætisuglu í burtu, og eg held að mér takist það. — En komdu nú inn í skál-

ann með mér. Þar er nokkuð, sem eg ætla að sýna þér."

Við gengum svo inn í smíðaskálann. Þar var vítt til veggja, og var þar margt, sem mér varð starsýnt á.

"Þarna er nú kvæðið mitt," sagði Ármann og benti á bát, sem var í miðjum skálanum. (Báturinn var nýlega smíðaður — fallegt skip, og að sjá traustlega bygt.). "Eg hefi haft það í smíðum í næstum tvö ár, því verki er nú að mestu lokið. Hér er bátur þessi kallaður fjögramanna-far, en það mætti samt eins vel kalla hann sexæring. Siglutréð liggur hérna við vegginn, og stýrið er á hefilbekknum þarna yfirfrá. Eg er ekki alveg búinn með það. Eg hefi gjört þetta mér til gamans í tómstundum mínum, — gjört það til þess að mér leiddist síður. En herra Archibald lagði til efnið að mestu."

"Á þá herra Archibald bátinn?" spurði eg.

"Nei, eg á hann."

"Er það satt, að þú ætlir að fara á þessum bát alla leið heim til Íslands?" sagði eg.

"Hefirðu heyrt það sagt?" spurði Ármann, og það lék ofurlítið kímnisbros um varir hans.

"Eg hefi heyrt að þú værir að smíða bát, sem þú ætlaðir að fara á til Íslands," sagði eg.

"Já, þeir segja svo margt."

"Það væri auðvitað ómögulegt, að fara alla þá leið á opnum bát," sagði eg.

"Hvað gjörðu ekki fornmenn? Þau voru ekki öll stór skipin, sem fluttu þá yfir hafið."

"En þeir voru margir saman," sagði eg. "Enginn maður gæti farið einsamall á litlum bát frá Ameríku til Íslands, og ekki á stórum bát heldur."

"Jú, ef hann er hraustur maður og hugrakkur, og hefir stundað sjómensku."

"Ert þú kannske að hugsa um að fara til Íslands á þessum bát?" spurði eg og horfði framan í Ármann.

"Eg hefi enn ekki ráðið það við mig," svaraði hann. "Hver veit nema að bátur þessi eigi það eftir, að flytja mig heim til fósturjarðarinnar."

"Langar þig þá ósköp mikið til að komast þangað?" spurði eg.

"Já, mig langar ávalt heim."

"Hvað er það, sem togar þig til Íslands?"

"Ótal margt."

"Líkar þér þá ekki þetta land?"

"Jú, að mörgu leyti. Hér er gull og grænir skógar og gott fólk. Og samt langar mig heim."

"Mundi þig langa til Íslands, ef fólkið á Íslandi talaði ekki lengur íslenzku, heldur eitthvert annað mál?"

"Mig mundi þá síður langa heim."

"En vildirðu fara til Íslands, ef allir Íslendingar væri komnir hingað til Ameríku og héldu áfram að tala íslenzku?"

"Mér yrði þá að líkindum um og ó, eins og konunni, sem átti sjö börn í sjó og sjö á landi," sagði Ármann. "Eg vil helzt heyra íslenzku talaða af íslenzku fólki, sem á heima á Íslandi. Fyrir mig er landið, þjóðin og tungan ein heild, sem mér finst að eg geta ekki án

verið. Alt þetta dregur mig heim — alt þetta og meira til. — En skoðaðu nú bátinn minn."

Og eg skoðaði bátinn hans með mikilli eftirtekt og aðdáun. Eg á ekki orð til að lýsa honum. En í mínum augum var hann verulegt meistara-verk — glæsilegt lystiskip.

Þenna dag borðaði eg miðdegisverð í húsi herra Archibalds (húsbónda Ármanns). Þar var mér vel tekið, og var mér sagt að eg mætti koma þangað eins oft og eg vildi. Þetta gladdi mig, og var eg með hressasta móti, þegar eg fór heim til Oswalds-hjónanna um kvöldið.

Þannig gekk það til alt sumarið, að eg gat fundið Ármann um hverja helgi. Annaðhvort kom hann til mín, stuttu eftir hédegið, eða eg skrapp inn í Dartmouth-bæinn, laust fyrir hádegi, og borðaði miðdegisverð hjá Archibalds-hjónunum. Og æfinlega, að lokinni máltíð, gengum við Ármann saman um stund með fram sjónum, ef gott var veður. Af slíkri göngu virtist Ármann hafa mikla skemtun. Hann sagði mér þá oft sögur og fór með margar vísur, sem eg held að hann hafi sjálfur ort. Og hann hvatti mig til að halda áfram með kvæðið "Ljósálfaljóð." En eg lauk samt aldrei við það.

Og svo var það einn föstudagsmorgun í byrjun septembermánaðar, að Ármann kom til mín og var venju fremur vel búinn.

"Nú er eg að leggja af stað heim til Íslands," sagði hann.

Mér varð nokkuð hverft við, horfði á hann stórum augum og sagði:

"Ekki samt á bátnum þínum?"

"Jú, að vissu leyti," sagði Ármann og brosti; "eg seldi hann á mánudaginn og fékk svo gott verð fyrir hann, að eg get vel komist heim á þeim peningum. Ríkur kaupmaður, sem á heima í Halifax, keypti hann og sigldi á honum til Bedford í fyrradag og lauk lofsorði á hann. Hann kallar bátinn: "*The Viking.*" — Eg legg af stað á skipinu, sem fer í fyrramálið frá Halifax til Englands, og eg stíg á skipsfjöl í kvöld. — Eg kom til að kveðja þig."

"Eg ætla að ganga með þér ofan í bæinn og kveðja þig þar," sagði eg.

"Það vil eg helzt," sagði Ármann, og eg sá að það gladdi hann, að eg vildi ganga með honum ofan í bæinn.

Eg bað nú herra Oswald að lofa mér að fara með Ármanni suður í Dartmouth-bæinn. Og þegar hann vissi, að Ármann var að leggja af stað til Íslands, sagði hann að eg mætti vera með honum allan daginn, ef eg vildi.

Og eg var með Ármanni allan daginn — síðasta daginn, sem hann var í Ameríku. Mér fanst að eg þurfa um svo margt að tala við hann þann dag. Ein af þeim mörgu spurningum, sem eg lagði fyrir hann, var þessi:

"Hvernig erum við skyldir? Þú segir að eg sé frændi þinn."

Og svar hans var þetta:

"Allir Íslendingar eru frændur mínir; þú ert Íslendingur, og þess vegna ert þú frændi minn."

Og síðasta spurning mín var á þessa leið:

"Af hverju viltu endilega fara heim til Íslands, þar sem þér gengur hér alt svo vel og öllum þykir svo vænt um þig?"

"Eins og eg hefi oft sagt þér í sumar," sagði hann, "þá er það svo ótal margt, sem dregur mig til Íslands. Og eg skal segja þér nokkuð, frændi: Eg á eina gröf í litlum kirkjugarði í hrjóstrugri útkjálkasveit á Íslandi. Og eg þarf fyrir alla muni að hlúa að henni."

"En var hún ekki þar, þegar þú fórst frá Íslandi?" spurði eg.

"Nei," sagði hann. Og rödd hans lýsti því, að hann vildi ekki meira um það tala.

Um nónbilið fórum við herra Archibald með Ármanni á ferjunni yfir fjörðinn til Halifax. Við fylgdum honum út á skip og kvöddum hann þar. Eg þakkaði honum fyrir alt, sem hann hafði gjört fyrir mig. Og mér þótti fyrir að skilja við hann. — Herra Archibald fékk honum dálítinn böggul að skilnaði og sagði:

"Vegni þér ávalt vel! Þú ert drengur góður!"

— — — — —

Eg skal að síðustu geta þess, að Oswalds-hjónunum fórst mjög vel við mig. Þau gáfu mér nýjan alklæðnað og nokkra dollara í peningum, og voru mér alt af góð. Sonur þeirra kom heim rúmum mánuði eftir að Ármann lagði af stað til Íslands. Og fáum dögum síðar flutti hann mig til nýlendunnar á Mooseland-hálsum — heim í bjálkahúsið — heim til móður minnar.

---

# Vísur Miðhúsa-Magnúsar

Magnús Árnason frá Miðhúsum í Eyjafirði er skáldmæltur vel. Hann er nú á níræðisaldri og farinn að heyrn. Hann hefir átt heima um nokkur ár á ýmsum stöðum í Nýja Íslandi, en bjó áður fyrrum, um langt skeið, í Winnipeg. Það var einhverju sinni á þeim árum, að tveir kunningjar hans hittu hann á gangi síðla kvelds niður á Aðalstræti bæjarins og spurðu hann hvað hann væri að fara og hví hann væri svo seint á ferð. Hann svaraði:

**Hvað því veldur að eg er**
**Einn um kveld að sveima?**
**Heiptar eldur eyddi mér**
**Ef eg dveldi heima.**

Á síðastliðnu vori er þeim voru haldin samsæti hér í bæ, frú Jakobínu Johnson skáldkonu, er þá var á leið heim til Íslands, og skáldinu K. N. Júlíus út af 75 ára afmæli hans, var Magnús staddur í bænum en kom ekki á samkomurnar. Olli því heyrnardeyfa hans. Þá kvað hann:

**Heyrnarleysis heljar völd**
**Herða að gleði þrotum;**
**Jakobínu og Káins kvöld**
**Komu' mér ekki að notum.**

# Risar og skessur fyrrum og nú

*Eftir Steingr. Matthíasson.*

Í fornsögum vorum er oft getið um menn, sem voru miklir vexti og miklum mun sterkari en fólk flest. En stundum er þar ofið inn ótrúlegri sögum um jötna og risa, bergrisa og berserki, sem allir voru að skapnaði mönnum líkir, en svo miklu stærri og sterkari, að þeir gátu ekki kallast menskir menn. Mest ber þó á slíkum furðusögum í Fornaldarsögum Norðurlanda, en seinna mynduðust stöðugt þjóðsögur um sviplík tröll, alt fram á vora daga.

Í fornsögum allra landa, fornaldarsögum og þjóðsögum koma fyrir alveg samskonar sagnir og æfintýri, um risa og skessur, eins og hjá okkur.

Eru nú þessar algengu sögur og sagnir uppspuni tómur?

Hefur þetta hyski þá aldrei verið til?

Jú og nei. — Sjaldan lýgur almannarómur; þ. e. a. s. alveg upp frá rótum.

Ef risar og skessur hefðu nokkru sinni verið mjög áberandi landslýður í heiminum eða í nokkru landi, þá er trúlegt, að einhverjar menjar hefðu fundist því til staðfestingar. En svo er ekki.

Þegar fyrst fór að vitnast um ýmsa fornmenjafundi með steinrunnum beinum og beinagrindum, oft ferlega vöxnum, þá var því trúað, framan af, að þar væru bein úr risum og skessum, sem farist hefðu í Nóaflóði. Og klerkar féllust á, að svo væri, því það kom heim við frásögu Ritningarinnar um, að risar hefðu verið til. En snjallir náttúrufræðingar komu til sögunnar og sýndu hið sanna samhengi, þ. e., að hér væru menjar dýra, sem nú væru löngu útdauð, og niðurstaðan varð, að engin af þessum beinum gátu heimfærst sem risabein.

Stórvaxnir og sterkir menn hafa verið til á öllum öldum og eru á meðal vor enn þann dag í dag. Og við vitum nú, að mikill líkamsvöxtur er oft arfgengur, og að nokkuð má efla hann með vitrum ráðum; og enn fremur, að þjálfa má vöðva og limi, svo að mönnum er að vissu leyti í sjálfsvald sett, að verða allmikið öðrum fremri að afli og líkamsburðum.

Risar hafa einnig verið til frá fornu fari og eru til enn. En þeir eru þó mjög sjaldséðir, og nú á tímum líta læknar svo á, að risar séu að vísu menskir menn, en ekki heilbrigðir. Ofvöxtur er í þeim, og er að kenna sjúkum kirtlum, sem valda ósamræmum líkamsvexti.

Tveir slíkir risar eru nú uppi meðal Íslendinga og vill svo til, að báðir þjóðarpartarnir, sá eystri og sá vestri, eiga sinn risann hvor, þ. e.: þá *Jóhann Pétursson* frá Ingvörum í Svarfaðardal (sem er 220½ sentímetra hár og vegur 139 kílógrömm) og *Gunnar Erwin Johnson* (sonur Jóhannesar Kristjánssonar Jónssonar, Bergþórssonar frá Öxará í Bárðardal, 8 fet

2½ þuml. á hæð, vegur ca. 324½ pund) fæddur 3. sept. 1906, við Sinclair í Manitoba (Pipestone nýlendu).

---

"Þegar eg er orðinn stór," sögðum við börn, og hlökkuðum til. Við vildum verða hvert öðru stærra. Eg, fyrir mitt leyti, hefði gjarnan kosið að verða 6 álnir og ein spönn, eins og Golíat. Í öllu falli var gaman að geta orðið jafnhár Grími í Oddhól, en hann var hæsti maður í sveitinni þar sem eg ólst upp, og fór orð af, að hann mundi jafnframt vera sterkastur. Þar var ekki leiðum að líkjast! Þegar hann gekk um bæjardyrnar, þurfti hann að beygja sig, og inni í stofu mátti hann vara sig á bitunum í loftinu. Þetta þótti mér og mínum líkum öfundsvert í þá daga.

Á vissu reki þykir flestum drengjum einna skárst bragðið að öllum tröllasögum og sögum af stórum mönnum og sterkum. Eg man fátt, sem skemti mér meira en sagan af Gulliver í Putalandi og saga Þórs og Útgarða-Loka og þess konar öfgasögur.

Okkur er öllum meira eða minna í blóð borin virðing fyrir og eftirsókn eftir öllu stórgerðu og mikilfenglegu. Allir vildum við drengir verða háir, gildir og knáir, — margra manna makar.

Náttúrufræðingar segja: Á bernskuskeiði endurtekst, eins og í stuttu ágripi, þróunarsaga forfeðra vorra. Við upplifum þeirra villimannalíf, veiðimannalíf, steinaldarmenningu, hirðingjaflakk og landbúnað.

Þessi endurtekning fyrra háttemis, er í samræmi við sviplík fyrirbrigði í fósturlífi manna. Fóstrið tekur ýmsum myndbreytingum, sem eins og endurspegla þróun forfeðranna gegnum þúsundir umliðinna alda. Framan af líkist mannsfóstrið hinum lægstu lífverum, en smám saman verður það burðugra og fjölbreyttara. Á einu stigi er það bjúgmyndað, seinna eins og ormur í laginu, seinna líkist það fiski, seinna verður það eins og skriðdýr og seinna enn líkist það ýmsum spendýrum, þar til loks mannsmyndin kemur greinilega í ljós.

Á villimannastigi eru börnin herská, gjöra sér vopn og vilja eiga í erjum hvert við annað, eða veiða dýr og fugla. Í þessum leikjum þeirra endurtekur sig í meinlitlu æfintýri, áralanga villimannastigið forfeðranna, þegar lífið var óslitin, illvíg barátta milli manna, og milli manna og dýra. Þegar svo að segja allur tími dags og nætur fór til þess, að afla sér matar. Og þetta tókst venjulega ekki nema í illu, þ. e. með því, að drepa dýr og aftur dýr, eða með því, að veiða aðra menn eða hræða þá frá, eða með því að taka þá af lífi og hirða veiðibráð þeirra.

Í grimmum bardaga forfeðranna var aðalatriðið, að vera sjálfur sterkur og stór, en þar næst það, að vera í fylgd og skjóli þeirra, sem voru stærstir og rammastir að afli. Þá var sigurinn vísastur og afkoman bezt.

Þetta situr í okkur enn, en þó greinilegast var það, meðan við vorum börn, — þegar við vorum að vaxa, bæði í vöku og svefni, og mjúksár vaxtarþrungi í beinum og blóði vakti hjá okkur drauma um, að vaxa ört og vaxa mikið, til að verða öðrum meiri og yfirsterkari.

———

Lamarck og aðrir ágætir þróunarspekingar hafa haldið þeirri skoðun fram, að andlegir jafnt og líkamlegir eiginleikar dýra og manna hafi smám saman þroskast, fyrir stöðuga þörf, stöðuga innri hvöt eða ósk. Eða segjum — fyrir stöðuga bæn til æðri máttarvalda. Og ef ekki guð í alheims geimi heyrir bænina, þá heyrir og bænheyrir guð í sjálfum þér!

"To be or not to be, that is the question." Sjálfsbjargarþörfin vaknar og knýr og heimtar betri sjón, betri heyrn, og næmari skynjun, og þessi miklu hnoss veitast smátt og smátt í fyllingu tímans? Dýrið jafnt og maðurinn vill verða stærra og sterkara og vitrara, — og sú ósk uppfyllist, (þó seint verði á vorum mælikvarða).

Darwin og lærisveinar hans segja t. d., og færa góð rök að því, að forfeður hestanna hafi fyrir miljón árum, eða svo, ekki verið stærri en tóur. Þeir fundu til sinnar smæðar og vanmáttar og vildu stækka, og svo stækkuðu þeir og stækka enn.

Forfeður mannanna voru lengi framan af ekki stærri en apakettir þeir, sem nú hoppa í trjánum á Malakkaskaga, og eru ekki burðugri en íkornar; þeir óskuðu heitt að mega verða eins stórir eða stærri og sterkari en stóru aparnir í kringum þá. Og þeim varð að ósk sinni, — eftir miljón ára bil, eða svo.

Enn vilja börnin verða stór og sterk, og sú ósk endist langt fram á fullorðinsaldur, — og mönnum verður að þessari ósk sinni, þó hægt fari oftast. Kynið vex, víðasthvar um heim, þar sem skilyrði batna. En oft hefir gengið upp og niður. Mannkynið hækkaði stundum, en lækkaði aftur, og hækkaði svo enn á ný. Alt eftir því hve líðanin var góð. Allir bændur þekkja það, hve skepnum þeirra farnast vel, eftir því hve vel er við þær gjört og hve gott kyn er valið úr til undaneldis.

Í skáldsögum og fornsögum fyrri alda lesum við um misjafnlega stórar og sterkar þjóðir jafnt og einstaka menn. Og sama sjáum við enn.

Við vitum nú, að Háskotar, Íslendingar og Norðmenn eru allra þjóða hæstir og gildastir. En margt bendir á, að svo hafi ekki verið fyr á öldum. Patagóníumenn og sumar Blámannaþjóðir hafa áður verið þeim hærri og stærri, ekki alls fyrir löngu.

Setjum Grænlending eða Búskmann eða Suður-Kínverja við hliðina á meðal vænum Íslendingi og sézt þá, að Íslendingurinn er eins og risi til samanburðar.

Af fornsögunum verður mörgum að halda, að forfeður okkar hafi verið stærri og sterkari en nú. Prófessor Finnur Jónsson og aðrir fróðir menn hafa fært rök að því, að svo hafi *ekki* verið. Þeir voru

minni og yfirleitt kraftminni um leið. Enda áttu þeir fjarri því við eins góð skilyrði að búa eins og við nú. Þeir, sem voru, að þeirra tíma sögu, stórir og sterkir, svo að mikið orð fór af, voru það í samanburði við hina, sem voru lyddur og smámenni.

Það hafa einnig verið færð rök að því, að forfeður vorir á söguöldinni hafi yfirleitt verið skammlífari en nú gjörist. Próf. Finnur segir, að menn, eins og Sighvatur skáld, kvarti um elli og afturfarir rúmlega fertugir. Algengast mun hafa verið, að fáir kæmist yfir fimtugt. Lífsbaráttan var afarhörð og sleit mönnum fyrir örlög fram, líkt og enn tíðkast hjá hálfviltum þjóðum. Suður í Afríku og víðar um heim ómentaðra þjóða, eru konur orðnar hrukkóttar kerlingar um þrítugt en karlmenn um fertugt orðnir þreklaus og hrum gamalmenni. Í sögunum er víða tekið svo til orða, "hann var allra manna mestur og sterkastur." Mörgum verður að halda, að þar hafi verið a. m. k. um hálf tröll að ræða, eða miklu stórvaxnari menn en nú gjörist.

Eitt dæmi úr Flateyjarbók sýnir þó ljóst, að svo var ekki. Þar eru þessi orð — "mestur og sterkastur" — höfð um norska konungssoninn Ólaf Geirstaðaálf. Fyrir nokkrum árum tókst norskum fornfræðingum að finna með vissu hvar Ólafur var heygður. Þegar grafið var í hauginn fanst beinagrindin heil, svo að unt var að mæla hæð Ólafs. Hann reyndist rétt liðlega 3 álnir á hæð, eða eins og konungur vor Kristján X.

Höfum við þá engar heimildir um nein heljarmenni enn þá hærri? Karlar eins og Hallbjörn hálftröll úr Hrafnistu skyldi maður þó halda að hafi verið all-risavaxinn; en þess er ekki getið, að hann hafi verið mældur. Um Örvar-Odd er sagt, að hann hafi verið tólf álna langur, en það er hæpið að trúa því.

En, um eitt hálftröllið í sögunni, er svo trúlega skýrt frá hlutunum, að varasamt er að rengja. Það er um Klaufa í Svarfdælu. Hann var *mældur,* og hann reyndist vera fimm álnir og þverhönd. (Gamla alinin reiknaðist frá langfingurs góm upp að olnboga). Ef við mælum þessa hæð á vegg, verður það í metramáli hér um 232 sentímetrar. Hér virðist ekki um að villast. Klaufi hinn svarfdælski hefir verið sannur risi, líkt og núlifandi frændi hans Jóhann frá Ingvörum.

Það er mjög athyglisvert, að höfundur Svarfdælu lætur sér ekki nægja, eins og annars var algengt, að telja Klaufa afarmikinn að vexti. Í þetta skifti er um svo mikinn líkamsvöxt að ræða, að Klaufi er mældur. Þetta veit eg ekki til að komi annarsstaðar fyrir í sögunum, og heldur ekki veit eg til, né hefi frétt um það hjá fróðum mönnum, að í seinni alda sögum eða annálum, sé svo tiltekið um nákvæmt mál, á neinum óvenjulega stórum mönnum.

Vér Íslendingar erum orðlögð söguþjóð. Hjá okkur, hafa á öllum öldum verið sagnaritarar og annálahöfundar, sem hafa gjört sér far um að skrá og tiltína alt, sem markvert þótti og óvenjulegt.

Þegar við í annálunum lesum allar kynjasögurnar af skrímslum, tvíhöfðuðum kálfum, samvöxnum tvíburum, tvítóla viðrinum og öðrum undraskepnum, sem sumpart er seilst eftir frá útlendum heimildum, til að krydda fréttirnar, þá sýnist harla undarlegt ef slept væri að minnast á aðra eins risa íslenzka og þá er hefðu jafnast á við Klaufa og hans líka.

Það liggur nærri að halda, að úr því ekki er á slíka jötna minst og engar munnmælasögur hafa um þá myndast, þá hafi þeir ekki verið til.

Og merkilegt er það, að einmitt í Svarfaðardal kemur nú fram annar risinn enn, sem jafnast nokkuð á við Klaufa, hvað stærðina snertir. Og enn er það harla merkilegt, að *nú* skuli koma fram *tveir slíkir risar af íslenzkum stofni*, því þess konar fyrirbrigði eru sjaldséð mjög, jafnvel meðal miljónaþjóða, hvað þá heldur í fámennum, strjálbygðum löndum eins og Íslandi.

Þess ber hins vegar að geta, að líf þjóðar vorrar hefir á síðasta 40 ára tímabili verið viðburðaríkara, framfarameira og þroskameira en á mörgum öldum samanlögðum áður.

Líklega hefir þjóðinni aldrei, á jafnlöngu tímabili, liðið alment betur, aldrei haft betur í sig og á. Enda hafa mannmælingar sýnt það, eins hjá oss eins og öðrum Norðurlandaþjóðum, að við höfum hækkað og stækkað að líkamsvexti; og aldrei hefir mentun alþýðu verið alment meiri.

Fyrir 10-20 árum síðan, bárust fréttir um það, vestan um haf, að frændur okkar þar, Vestur-Íslendingar, þrifist svo vel í hinum nýnumdu, góðu löndum, að þeir væru að verða vænni miklu en landarnir heima. Nú vitum við, að sama hefir skeð með báðum þjóðarbrotunum, eins hér sem þar, að kynið hefir vaxið, eflst og fríkkað svo, að furðu gegnir. Og hvað líkamsvöxtinn einn snertir, er það sennilega ekki hending ein, að á þessu hraðvaxtar tímabili, hafa tveir menn íslenzkir orðið stórvaxnari en nokkrir meðal þjóðarinnar á mörgum fyrri öldum.

Þegar Morgunblaðið í vor flutti fyrstu fregnir um, að meðal Vestur-Íslendinga væri annar risinn frá, jafnvel hærri en okkar svarfdælski, þótti mér, sem öðrum, það merkileg tíðindi, en þar sem þess var jafnframt getið, að hann væri ekki þyngri eða jafnvel léttari en Jóhann, þá skrifaði eg kunningja mínum og bað hann um sannar fréttir af þessu. Því miður hefi eg ekki fengið þær þegar þetta er ritað. Það er oft gott að hafa reynslu Njáls, að láta segja sér þrisvar þegar um ótrúlegt er að ræða, eins og risavöxt manna. Reynslan hefir sýnt, að einmitt um slíka hluti er krítað liðugt, bæði af risunum sjálfum og þeim, sem hafa ágóða af að sýna þá. Þessvegna er hollast að taka engar slíkar sögur gildar, nema þær séu staðfestar af ábyggilegum vísindamönnum. Eftir frásögu blaðsins átti okkar vestur-íslenzki frændi að vera með þeim allra hæstu mönnum, sem sögur fara af, eða eitthvað ámóta og skessan þýzka, Maria Wehde, sem til skamms tíma hefir verið

talin fram í vísindaritum, sem mesta ferlíki allra trölla, eða 255 sentímetrar á hæð (og vóg hún 160 kílógrömm). Hún var þó aðeins 16½ árs þegar hún var mæld og athuguð af læknum, og kann hún að hafa vaxið eitthvað eftir það; en um hana vantar mig frekari vitneskju.

---

Og hvað mannkyninu í heild viðvíkur, væri máske hollast, að það minkaði smámsaman aftur og yrði ekki stærra en íkorninn, en um leið vitrara, líkt og dvergarnir voru vitrari en tröll og þursar.

Allra bezt væri, að eignast það *hormón*, sem spýta mætti inn í daufgert letiblóð manna, *til að vekja þá og fjörga og gjöra þá svo um munaði bæði vitrari og betri.*

Á þremur síðustu áratugum hafa læknavísindin opnað mönnum innsýn í þá leyndardóma lífsins, sem ráða vexti og margs konar lífshræringum líkamans, með uppgötvun *vitaminefnanna* og *hormónefnanna.*

*Vitamin* eða fjörefnin eru í fæðu vorri, þegar hún er góð, einkum í öllu *nýmeti*, en nýmeti hefir það til síns ágætis, að það er nýtt, þ. e. lifandi en ekki dauð fæða. Þegar matur fer að skemmast, er það vottur þess, að frumurnar, sem hann er bygður úr (hvort sem er um jurtafæðu eða kjöt og aðra dýrafæðu að ræða) eru dauðar; þá dofnar um vitamin-efnin og verða gagnslítil eða ónýt. — Engum er eins nauðsynlegt að fá nóg af fjörefnum eins og börnum og unglingum, sem eru að vaxa.

Skyld vitamin-efnunum eru *hormón*-efnin, sem einnig hafa verið kölluð örfunarefni. Þau myndast í ýmsum kirtlum líkamans, jafnt í dýrum og mönnum og renna saman við blóðið. Fyrir áhrif þeirra kemst hreyfing á ýms líf færi vor, engu síður en fyrir áhrif frá taugunum frá heila og mænu.

Áður fyr var *hungur* svo að segja árlegt fyrirbrigði í ýmsum sveitum á landi voru, en auðvitað mismunandi mikið. Þó menn hefðu stundum nóg til magafylli þá leið líkaminn skort, og sá á honum veikindamerki, eins og vott um blóðleysi, beinkröm, skyrbjúg og fleiri sjúkdóma. Af hverju? Af því að viss fjörefni vantaði í fæðuna. Nú vitum við, að þessi merkilegu efni eru bráðnauðsynleg börnum og unglingum til að geta vaxið og þroskast eðlilega. En það var einmitt hörgull á þessum efnum, þegar kýrnar voru geldar og orðnar horaðar vegna slæms fóðurs og þegar ekki fiskaðist og vantaði alla garðávexti o. fl.

Það var skortur eða algjör vöntun á vitamin-efnum, sem ætíð sagði til sín, ef ekki með hreinum sjúkdómum, þá alls konar vanþrifum, fjörleysi og illu útliti.

Síðan vér Íslendingar frá því fyrir og um aldamótin fórum að geta aflað okkur nógan mat og góðan (þ. e. meira og meira af nýmeti) hefir vellíðan orðið almennari en nokkru sinni, og kynið hefir stækkað og fríkkað.

Að vísu má enn með rökum benda á fjörefnaskort hjá mörgum og þar af leiðandi kvillasemi, en slíkt er

lítilsvirði hjá hungrinu og horkvillunum, sem stöfuðu fyrrum af því að bæði var matarskortur yfirleitt og fjörefnaskortur að auki.

———

Með þeirri vitneskju, sem við nú höfum um áhrif vitamin- og hormón-efna á vöxt manna og dýra, er ekki fyrir að synja, að það verði einhverntíma, áður en varir, unt að flýta vextinum og framleiða risavaxna menn og dýr eftir vild, ekki einungis með kynbótum, upp á gamla vísu, heldur einnig með þeim nýju vísindanna ráðum, að framleiða nóg af hormón-efnum úr kirtlum ýmsra dýra og ýmist fóðra menn og skepnur með þeim, eða spýta þeim inn í blóð þeirra eftir ákveðnum reglum. Það væri áhættulítið að byrja á alidýrunum. Sjá til hvað hægt væri að fá tröllaukið kyn svína, uxa og asna, hve naut og sauðir gætu orðið vænir til frálags, eða hve jötunvaxnar kýr gætu selt mikla mjólk húsbændum sínum o. s. frv.

Nú kann einhver að "hlæja í hjarta sínu," eins og Sara forðum, út af þessum furðufréttum. En hvað skeður ekki margt stórfurðulegt á vorri framfaranna öld? Og bíðum við. Það þarf ekki langt að fara. Hvað kunna ekki býflugurnar og hvítu maurarnir í Afríku?

Drotningin hjá býflugum og termitum er upprunalega eins og óbreyttu vinnuflugurnar, óþekkjanleg frá þeim að stærð og útliti og geld eins og þær; en fyrir það að henni er gefið annað og betra fæði að borða, vex hún og dafnar svo, að hún verður miklu stærri vexti og tígulegri og kynþroskuð verður hún og fær um að eignast afkvæmi í þúsundatali.

Þarna kunna, með öðrum orðum, bæði býflugur og termitar vísindalegar aðferðir, sem við mennirnir eigum eftir að læra af þeim. En oss órar þó fyrir, hvernig í öllu liggur, síðan við lærðum að þekkja vitamin-efnin og töfrakraft þeirra.

En — eftir á að hyggja. Ekki er alt fengið með stærðinni. Síður en svo. Ofvöxtur gjörir alla lata og heimska. Þess vegna líklega bezt, að við Íslendingar stækkum ekki meira.

---

# Matthías hundrað ára

Dvínar ljós dagsins.
Dvínar ljós sólar.
Dvína ljós stjarna.
Dvínar ljós mána.
En ljós ljóða þinna
lifir með ítum,
ungum og öldnum,
þó aldir hverfi.

Fyrnast stórvirki.
Falla í gleymsku
afrek unnin
um alda raðir.
Geymast stórvirki
strengja þinna,
—afreks óðsnild,—
þó aldir hverfi.

*Páll S. Pálsson.*

# Frumbygð og fortíð

Eftir O. T. Johnson.

I.

"Því siðir og hugsanir dagsins í dag
 þar drotna með ósköruð völd,
Sem frumbygðin sprettur upp fortíðarlaus
 og fóstruð af samtíðaröld.
Og framförin mikla og menningin hér
 við minningar hefir ei töf,
Ef endistu' að plægja, þú akurland fær;
 ef uppgefst þú: nafnlausa gröf."

Ljóðlínur þær birta andans glöggsýni fjallaskáldsins Stephans G. Stephanssonar. Hann er hér að lýsa fortíðarlausri frumbygð Vesturálfu. Sú frumbygð umbunar endalaust erfiði með efnalegri velmegun; en gleymir þeim, er uppgefast. Hugsanir dagsins í dag drotna yfirgnæfanlega í fortíðarlausri frumbygð. Engar minningar auðga mannlífið eða upphefja. Allir hljóta að hugsa eins og ganga með sama hætti að daglegum verkum í þeirri fortíðarlausu samtíð. Bendir það á *standardized* þátíðar menningu Canada og Bandaríkjanna. Alþýðuskólar, bókmentir og stórblöð; alt sameiginlegt og miðandi að "mótun" mannlegs anda! Hugsun skáldsins því rökvís og róttrygg.

Vér megum eigi gleyma því, að Stephan var *íslenzkur,* að hann sá umhverfi nýbygðarinnar með íslenzkum augum. Hann saknar fortíðar Íslands. Var skáld hvorttveggja, frumbygðar og fortíðar. Yfirgripsmestu yrkisefni sækir hann í fortíð sína og heimfærir við frumbygðina — samtíð sína. Hann er dæmi þess anda er þroskast á nýju sviði við þrótt hins liðna.

Við landnám Ameríku berjast upphaflega þrjár meginþjóðir um yfirráðin, Spánverjar að nokkru, og Frakkar og Englendingar. Englendingar eru hlutskarpastir, taka að lokum öll drotnunarvöld í sínar hendur á meginlandi Norður-Ameríku. Úr því gera þeir tilraunir, að *gróðursetja* í nýjum jarðvegi fortíð heimalandsins! Löggjöf og dómstólar, skólar og bókmentir, er gripið úr enskri fortíð og bygt á brezkum grunni. Um þá nýmenningu var Stephani kunnugt og þar vel vakandi. Hann sá að í raun og veru var það eðlileg afleiðing af orsök, úr því hið nýja land er undir veldissprota Englendinga og skoðast "nýlenda" heimalandsins. Landið er með lögum að byggjast, því máttúrinn ræður lögum og lofum. Nýmenning sú um leið ensk, eða brezk.

Sá á fé er fyrst finnur, er oft orðtak enskra manna. Fundvísir eru enskir frumbyggjar á alt hið fémæta. Alt er það tilheyrandi heimalandi þeirra til að byrja með, því hér ræðir um brezka nýlendu. En þegar að lokum Bretar glöggva sig á því, að Ameríka sé of stór fyrir þá eina, er innflutningur annara þjóðflokka leyfður. En með því skilyrði, að þeir afsegi öll þegnréttindi í heimalöndum sínum og sverjist til þegnhollustu í brezkri nýlendu. Sökkvi inn í brezka þjóðheild, gerist brezkir.

Uppreisn er leiddi til stofnsetningar Bandaríkjanna, er endurtekning hins fyrra við innflutning

annara þjóðflokka. Aðkomnu "spaði" frá löndum hins eldra heims er hrúgað í "bræðslupottinn" svokallaða, með því markmiði, að með tíð og tíma sjóðist það í eina þjóðheild. Þannig er í Bandaríkjunum gróðursett ensk menning engu síður en í Canada. Enskan er landsmál og lög og annað bygt á enskum grunni. Endurtekning Englandssögu, ef svo má að orði komast. Alt er af brezkum stofni í Bandaríkjum, landsmál og *fortíð* bókmenta; kjarni þeirrar menningar allur af enskum toga spunninn.

Öll frumbygð Ameríku ensk, og því eigi að undra þó þjóðelskandi fortíðarunnara, eins og Stephan var, sé oft dimt fyrir augum. Hann sér sig umkringdan þeirri menningu, er *hann* skoðar fortíðarlausa. Fortíð heimalands hans, Íslands, á þar engin ítök. Merg og þrótt hefir hann sótt til þeirrar fortíðar, það átt þátt í að skapa skáldanda hans og skipa honum í tölu stórskálda íslenzkrar þjóðar. Enginn skáldajöfur á Íslandi hefir brugðið upp lærdómsríkari fortíðarmyndum. Ljóðskáldin þó lagt rækt við söguna og oft ort fögur söguljóð. Ljóðskáldin gengið þar lengra en íslenzku söguskáldin. Söguskáld annara þjóða stundum gefið meiri gaum íslenzkri fortíð, en íslenzkir sagnasmiðir. Ótæmanleg gullnáma gæti fortíðin þó verið söguskáldum Íslands, ef þau legðu rækt við eins og skyldi. Þó er eins og mörgum af nútíðarsöguskáldum ættjarðarinnar sé annara um að apa *sensational* rómana annara þjóða, en byggja á eigin merg.

Hin merka fortíð er verðmæt eign íslenzkrar þjóðar. Ritsnillingum fyrri tíðar ber að þakka að sú fortíð er eigi fallin í gleymsku. Eddurnar og sögurnar eru sá fjársjóður er aldrei fyrnist. Að umheimur veitir athygli þeim fortíðar fjársjóðum Íslands, votta æðri skólar annara þjóða, er leggja rækt við fornbókmentir Íslendinga. Fræði- og mentamönnum íslenzkrar þjóðar, beggja megin hafsins, ætti að vera ljúft að leggja þar hönd að verki. Verkefni það krefst samvinnu og samúðarþels Íslendinga, hvar á hnettinum sem þeir eru, hvort búsettir eru í Ameríku eða á Íslandi.

Vestur-Íslendingum ætti að vera það áhugamál að saga íslenzkrar fortíðar gleymist ekki. Skáldum þeirra og vitmönnum hefir verið það áhugamál, og eftir höfðinu ættu limirnir að dansa! Skáldin eru hinir sönnu *trúmenn* og spámenn hverrar tíðar.

Sú niðurstaða *krefst athafna*, því hver trú er gagnslaus án verkanna. Svo ótal margt þarf að gera, ef vel á að fara og íslenzk fortíð eigi að verða gleymsku að bráð. Eins og nú er komið fyrir Vestur-Íslendingum, er að verða brýn þörf á tímariti á ensku máli, er fjalli um íslenzk efni: íslenzka fortíð, sögu og bókmentir. Frumbygðarmenn og konur eru óðum að falla í valinn og yngri kynslóðin yfir heila tekið les eigi eða skilur íslenzku. Um hlutina ber að ræða eins og þeir eru, en eigi eins og þeir ættu að vera, en eru ekki! Íslenzkan er að líða undir lok í Vest-

urheimi og enskan að koma í staðinn.

Fræðimenn Ameríku, bæði í Canada og Bandaríkjum, hafa oft og iðulega á það bent í ræðu og riti, að aðkomnir þjóðflokkar landsins eigi margt í fórum sínum er vert sé að á lofti sé haldið. Hví skyldu Íslendingar sjálfir eigi sjá það eða viðurkenna? Og þó íslenzk tunga leggist niður, þá þarf íslenzk fortíð eigi að gleymast eða hið verðmæta í íslenzkum arfi. Alt íslenzkt er unt að birta á ensku svo vel fari.

Bókaverðir við almenn bókasöfn segja þær bækur víðlesnar hér í landi, sem þýddar eru á ensku úr öðrum tungumálum. Þær þýðingar hafa víðtækari áhrif en margir halda. Sá er þetta ritar átti einu sinni tal við ungan Norðmann, sem eigi kunni norsku, en var þó afarfróður í sögu og bókmentum þjóðar sinnar. Hafði hann meira að segja átt kost á að lesa í norskum þýðingum nútíðarritin norsku. Þannig er verið að gróðursetja fortíð Noregs í Ameríku og glæða þekkingu enskumælandi niðja á norrænni sögu.

Tímar breytast, o. s. frv. Frummenning Vesturálfu var aðallega valda- og verzlunarlegs eðlis. Frumherjar þeirrar menningar voru eigi skáld eða hugsjónamenn á andlegu eða þekkingarlegu sviði. Skáldin eru sjaldan brautryðjendur í því verklega eða verzlunarlega. Stórskógar voru því niður höggnir og hin mikla náttúruauðlegð lá "rupluð og rænd." Menningarleg stórvirki eiga sér stað, þó undirrót þeirra sé sjálfshyggja og sérgróði einstaklinga. Upprisin öld auðsöfnunar og þeirrar almennu skoðunar, að auðurinn sé affarabeztur. Þeir auðugu og efnalega velmegandi senda börn sín á æðri skóla, hvort gáfuð eru eða heimsk — heimskan oftast í meiri hluta — og þeir mentuðu og auðugu niðjar taka á sínum tíma um stjórnvölinn; stjórnarfarslega, verzlunarlega og alla vega. Eigi mun eiga við að hnitmiða slíkt hörmunga ástand við Ameríku, því víðar mun pottur brotinn í þeim efnum. En vélaöldin, afleiðing af framantöldum orsökum, nær hámarki í Ameríku. Það hrindir að lokum af stokkum þeirri fjármálalegu "heimskreppu", er enn vofir yfir mannkyni og óvíst hvenær lýkur.

Heimsþjóðirnar standa nú andspænis því, að alvarlegar breytingar eigi sér stað, er miða "annaðhvort aftur á bak, ellegar nokkuð á leið." Vér Ameríkumenn vonum að stefnan verði "áfram og upp á við." Ef í nauðir rekur, grípum vér til *vélvísinda* eða *sameignamagns* (Technocracy — Social Credit)! Vonandi er að vísindi og algengt mannvit fái ráðið fram úr núverandi heimskröggum.

Hugsjóna og vitmenn, skoða eigi fortíðina í ljósi verzlunarlegrar valdagræðgi. Fortíð þeirra er: "Nóttlaus voraldar veröld þar sem víðsýnið skín." Við meira ljós og víðsýni munu vitmenn þeirra þjóðflokka er land þetta byggja leggja meiri rækt við fortíð heimalanda sinna. Íslendingar hafa löngum átt *vitmenn,* það sýnir sagan, er gefur góða von um að þeir verði eigi eftirbátar annara á því sviði er hér um ræðir.

Vestur-Íslendingar eiga auðuga starfstíð fyrir höndum, sé þeim ant um að láta höndur standa fram úr ermum og "duga eða drepast." Landnámssaga þeirra í heild er enn órituð og það umfangsmikla verk hlýtur að gerast í nálægri framtíð, eigi úr því að verða og *saga sú að ritast á íslenzku.* Sá er þetta ritar hreyfði því einu sinni í blaðagrein, að heildarsaga Vestur-Íslendinga væri rituð og tileinkuð minningu Dufferins lávarðar, væri "minnisvarði" er þeir reistu þeim merka manni. Tillaga sú hefir eigi hlotið almennar undirtektir að þessu. En framkvæmdir í þá átt mega til að eiga sér stað á meðan ritfærra manna á íslenzku nýtur við. T. d. hinna alkunnu fræðimanna, séra Röngvaldar Péturssonar, Halldórs Hermannssonar og dr. Richard Beck. Þegar þeir menn eða þeirra líkar, ef nokkrir eru, falla frá, er hætt við að heildarsaga Vestur-Íslendinga verði aldrei rituð á íslenzku.

Við ritun þeirrar heildarsögu, er saga frumbygðarinnar orðin að *fortíð*. Sú fortíðarsaga á að birta sannar og réttar lýsingar á lífi frumbyggjanna og landsháttum í "bygð" hverri. Ættartölur eru sjálfsagðar, en úr öllu má ofmikið gera. "Landnáma" og "Íslendingabók" eru orðlagðar fyrir ættartölur og mannlýsingar. En bækur þær fást minna við lýsingar á þáverandi lífshögum manna eða landsháttum. Sagt er t. d., að Ísland hafi verið skógi vaxið, en vér fáum þó í rauninni sára lítið að vita um þann skóg. Lítið um nákvæmar lýsingar á landinu sjálfu, híbýlum þáverandi, "búnaðaráhöldum eða búpeningi," er flutt var frá Noregi. Eigi er hér verið að lasta þær fornbækur, því þær eru með marki snildar eins langt og þær ná. Hér er aðeins lögð áherzla á það, að landnámssaga Vestur-Íslendinga sé eins yfirgripsmikil lýsing á landnámi þeirra og kostur er á.

Sannskáld Vestur - Íslendinga hafa lýst því landnámi í ljóðum sínum. Stephan G. Stephansson í Alberta, Guttormur J. Guttormsson í Nýja Íslandi, J. Magnús Bjarnason er kenna má við "Mooselands hálsa," Kristján N. Júlíus í Norður Dakota, o. fl. Skáldmæringar þeir hafa málað þær myndir frumbygðarinnar er lengi lifa. Þeim "söngfuglum sumars hins fyrra" ber að tileinka sérstakan þátt í landnámssögunni, þegar hún er rituð.

Ein ógleymanleg endurminning höfundar þessara lína, er tengd við "söngrödd" St. G. Stephanssonar. — Eg var rúmlega sex vetra þegar fósturforeldrar mínir fluttu frá Bandaríkjunum til Canada. Hópur af Norður Dakota Íslendingum er þá að leggja af stað áleiðis til norðvesturlands Canada, sem nú er nefnt Alberta fylki. Var Stephan fjallaskáld ásamt fjölskyldu sinni í þeim hóp. Við landamærin í Gretna stíga þessir Íslendingar um borð á lest, sem á að flytja þá vestur og norður á bóginn; fátækir í framandi landi eru þeir að flytja búferlum mörg hundruð mílur út í endalaust óbygðaflæmi. Eigi var þeim frumherjum þó ógleði í huga,

því að eftir að upp í lestina var stígið, gall upp söngur mikill í öðrum enda lestarvagnsins! Eg man eftir því að nærstödd kona stundi þá upp: "Guð hjálpi mér, þeir eru farnir að syngja!" Og eg man þá sérstaklega eftir hinni miklu bassarödd Stephans og að eg sá hann standa álengdar, broshýran og bjartan yfirlitum. Og oft finst mér að hann hafi verið *syngjandi* alt af síðan.

II.

Lengi var jörð vor talin að vera flöt, því vitringar fyrri tíðar gátu eigi gert sér grein fyrir hnattmyndun hennar. Snorri Sturluson virðist þó skoða jörðina kringlumyndaða, er hann nefnir veraldarsögu sína "Heimskringlu." Hvað kom honum til að velja það nafn? Var það að eins óljós undirvitund eða bygði hann það á einhverri þekkingu þeirrar tíðar, sem nú er gleymd og grafin?

Leifur Eiríksson trúboði verður til þess að leiða hið rétta í ljós — við tilviljun. Hann finnur "hinn helming" hnattar vors, þó líklega væri hann þess eigi meðvitandi sjálfur. Sagan varpar engu ljósi á það atriði. Nærri fimm aldir líða og við Ameríkufund Kólumbusar er mannheimur kominn lengra áleiðis í átt þekkingar og þroska. Úr því er flatneskjan horfin af jörðinni og hnattmyndun hennar bersýnileg berum augum.

Ef sá á fé, er fyrst finnur, þá hefðu Íslendingar átt að *eiga* Ameríku, úr því þeir fundu hana fyrstir manna. Óhamingju Íslands varð það að vopni, að landnám Þorfinns Karlsefnis gat eigi orðið varanlegt og úr því er landeignarréttur Íslendinga "úr sögunni."

Óþektur sagnahöfundur á Íslandi færir þetta í letur, annars hefði umheimurinn ekkert vitað um landfund Leifs eða landnám Þorfinns. Höfundi þeim verður aldrei fullþakkað það verk, þó gröf hans sé gleymd lifir minning hans á "meðan aldir renna."

En það er landfundur Kolumbusar er heillar hinn eldra heim og togar þjóðir til dugs og dáða. Hann finnur Ameríku þann 12. október, árið 1492, og nemur land í nafni Spánarríkis. Lagalega ætti það að tryggja eingarrétt Spánar, sé fram hjá landfundi Leifs gengið. En út í þá sálma er eigi farið, því aðrar þjóðir koma til sögunnar er eigi láta "að sér hæða." Frakkar og Englendingar spyrja eigi að því, hverir hafi land fyrst fundið, heldur hverir hafi mesta krafta í köglum og standi bezt að vígi til landnáms. Eins og áður er að vikið gerast Englendingar að lokum hlutskarpastir á svæðum Norður-Ameríku. — Enginn má halda að hér sé verið að atyrða Englendinga, eða amast við landkönnun þeirra og landnámi. Hér er aðeins verið að benda á sanna og rétta frumdrætti sögunnar.

Hinn nýi heimur hlaut að kannast og byggjast. Engin ein þjóð var nægilega mannmörg til þess að leggja undir sig Ameríku í heild og byggja frá hafi til hafs. Réttilega hefðu þjóðir hins eldra heims átt þegar í byrjun að skifta hinu nýja landi undir hin ýmsu ríki, við sátt og samhug! En við þeirri fullkomnun var eigi að búast frá hálfu

þáverandi siðaðra og kristinna þjóða, og því eðlilegt að afl réði. Öflugasta og framsóknarmesta þjóðin brýzt til valda á frumbygðarsviði Ameríku, aðrar þjóðir lúta þeim lögum. Hver af annari vakna þær þó með tíð og tíma og vilji kemur í ljós að fara eigi varhluta við auðlegð og önnur gæði á hinu nýja heimssviði.

Er leitt að hugsa til seinlætis íslenzkrar þjóðar í þeim efnum. Þrátt fyrir skráða sögu um landfund Leifs og landnám Þorfinns, vekur það enga löngun hjá þjóðinni til aukinnar þekkingar á Vínlandi hinu góða. Nærri níu aldir líða frá landfundi Leifs og nærri fjórar aldir frá landfundi Kolumbusar, án þess Íslendingar kæri sig um að sjá það land eða um það vita; landið þar sem forfeður þeirra áttu fyrstu nýlendu hvítra manna.

Rétt sextíu ár eru liðin síðan Ísland eins og vaknar af svefni og til meðvitundar um tilveru Ameríku. Við þá vakning grípur nýr hugur þjóðina — ef til vill beinlínis eða óbeinlínis við áhrif þeirra Fjölnismanna eða Jóns Sigurðssonar! Úr því tekur þjóðin að hyggja á Ameríkuferðir. Ef það hefði aldrei átt sér stað, *þá hefði Ísland engan þátt átt í landnámi Ameríku.*

Þeir vakningarmenn hafa eigi *allir* verið úrvalsmenn, því að líkindum hafa margir þeirra verið "upp og ofan" eins og gerist. En merkur Vestur-Íslendingur vitnar eigi alls fyrir löngu í ummæli frægs rithöfundar á Íslandi, er hljóða á þá leið, að fyrstu Ameríkufarar frá Íslandi hafi að meiri hluta verið: "blátt áfram ræflar!" Eg vil neita sannleiksgildi þeirra orða, þó eg finni til vanmáttar á ritsviði gegn þeim merku mönnum. Vakningamenn, sem útþrá eru gripnir og gerast brautryðjendur, eru eigi af sauðahúsi ræfla, frá hvaða sjónarhæð sem það er skoðað. Tilraun að réttlæta þá staðhæfingu með því, að þeir ræflar hafi furðanlega "mannast" í Vesturheimi, fullnægir eigi þeim er þrá hið sanna og rétta. Og þó sú ógeðslega *þjóðlýsing* sé látin ná til þeirra, er heima sátu, engu síður en þeirra er vestur fóru, þá er hún jafn ósönn fyrir því. Íslendingar hafa aldrei verið ræflar í meiri hluta! Réttilega ber að skoða slíkt orðafleipur eigi þess vert að því sé á lofti haldið.

Afar og ömmur, feður og mæður Vestur-Íslendinga, voru eigi ræflar að meiri hluta. Landnámssaga þeirra, þegar hún er rituð, mun leiða í ljós hið sanna og rétta svo eigi verði um að villast. Að sú landnámssaga sé rituð, ætti að vera Austur-Íslendingum á h u g a m á l engu síður en Vestur-Íslendingum, því sú saga fjallar í raun og veru um *skerf Íslands* til landnáms og menningar framfara hins nýja heims, Ameríku.

Landnámssaga Vesturheims, eða Ameríku, er áreiðanlega upphaf þýðingarmikils kafla veraldarsögunnar. Þá er grunnur lagður að nýrri menningu í nýjum heimi. Mistök eiga sér stað og nýmenningu þeirri er víða ábótavant, þó umfangsmikil og framsækin sé, samanborin við mörg menningarlönd hins eldra heims. Ung er sú

menning. "Gott er að þeir ungu eru tímans herrar," eins og Jón Ólafsson sagði og á það við þjóðir engu síður en einstaklinga. Þjóð Bandaríkjanna er ung og öflug og hið sama er að segja um Canadaþjóð, þó mannfærri sé. Þar koma fram á sögusvið tvær enskumælandi þjóðir, er málsins vegna og annara orsaka, ætíð verða nátengdar og áhrif þeirra um leið hin víðtækustu í heimsmálum. Leiði framtíðin í ljós menningar breytingar og meiri þroska, þá er vissulega þeirra breytinga að vænta frá hálfu ungra framfaraþjóða. Að Íslendingar eru þátttakendur í þjóðasköpun og menningarstarfi Ameríku, ber eigi að klaga, því það getur orðið þeim og ættjörð þeirra til sóma. — En eitt mun óhætt að fullyrða í því sambandi, að ef forfeðum vorir hefðu þannig slegist í lið með öðrum þjóðum, þá hefðu þeir kosið að taka góðgripi sína til bardagans með sér — sögu og bókmentir!

Því verður eigi neitað með rökum, að ekkert auglýsir betur Ísland og Íslendinga, en saga fortíðarinnar. Enda eru íslenzkar fornbókmentir að fá alheims viðurkenningu og óðum að ryðja sér til rúms við æðri skóla í Bandaríkjum og víðar. Norræn saga er hin glæsilegasta, og verndun norrænnar tungu á Íslandi skoðast þjóðlegt þrekvirki Íslendinga. Verndun íslenzkrar tungu að sama hætti í Vesturheimi myndi stuðla til varanlegrar heimsfrægðar. Hætt er þó við að þar verði þær hömlur í vegi, sem óyfirstíganlegar eru.

En þó íslenzkan líði undir lok sem daglegt mál, þá er ekki þar með sagt að hún sé gleymd og grafin í Ameríku. Úr því íslenzkan er hér kend við æðri skóla, ætti Vestur-Íslendingum að vera auðleikið að viðhalda henni sem *bókmáli.* Mál, er mentaðir menn læra, lesa og rita, og með þeim hætti fær íslenzkan hér haldist við um ókomnar aldaraðir. Eðlilega verða íslenzkar bókmentir eigi eins umsvifamiklar, þegar almenningur hættir að hafa þeirra not. En eins og austur-íslenzkir rithöfundar geta samið ram-íslenzkar bækur á *dönsku,* eins ættu vestur-íslenzkir rithöfundar að geta samið *íslenzkar* bækur á ensku; bækur bygðar á íslenzkri "frumbygð" eða "fortíð." Einhvernveginn er eg þeirrar skoðunar að íslenzk sagnalist sé eigi útdauð í Vesturheimi, þó Íslendingar hætti að mæla íslenzka tungu. Efniviðurinn er sá sami og áður, þó að "byggingarlagi" sé breytt og aðrir siðir uppteknir.

Fortíð Íslands, eins og áður er bent á, er réttnefnd gullnáma fyrir unga fræðimenn og rithöfunda. Saga þeirrar fortíðar verðskuldar að við hana sé rækt lögð og henni sómi sýndur. Vilhjálmur Stefánsson, Vestur-Íslendingur, hefir hlotið heimsfrægð sem rithöfundur. Allar sínar bækur hefir hann ritað á ensku. Eigi er óhugsandi og í rauninni allar líkur til, að aðrir íslenzkir rithöfundar komi til söggunnar er eins hefjist til frægðar og vegsauka á ensku ritsviði. Gott væri þá til þess að hugsa, ef um íslenzka skáldsagnahöfunda væri að ræða, að þeir tækju yrkisefni sín úr íslenzkri fortíð! Þar er um

auðugan garð að gresja og eiga fáar þjóðir völ á öðru betra. T. d. væri eigi saga Björns Breiðvíkingakappa æskileg í skáldsöguformi, saga þeirrar glæstu hetju, er aldrei beið ósigur — jafnvel gerist foringi Skrælingja í Ameríku þar hann lýkur lífsdögum? Björn Breiðvíkingakappi er þektur að því mesta *snarræði*, er sögur fara af, þegar hann einn síns liðs og óvopnaður bar hærra hlut í viðureign við marga vopnaða menn— greip í kápuerm foringjans Snorra og hélt blikandi smáhníf við brjóst hans unz hann var neyddur til griða. Hið sanna drenglyndi Björns Breiðvíkingakappa, hans órjúfanlega ást og hans æfintýraþrungnu lífslok — alt hlyti það að gera sögu hans aðlaðandi í nútíðar skáldsöguformi. Og á margar aðrar fortíðarhetjur Íslendinga mætti benda, er draumgáfu og ímyndunarafli góðra söguskálda gæti orðið matur úr.

Sá nútíðar rithöfundur Íslands, sem höfuð og herðar virðist bera yfir aðra, ritar sögur sínar aðallega á dönsku. Annar ritsnjall höfundur er tekinn að semja bækur á norsku.

Vestur-íslenzkir rithöfundar, sem ensku rita, þurfa eigi að leita til annara landa. Bókamarkaður nægilegur heima fyrir í þeirra eigin löndum, Canada og Bandaríkjum. Fari þeir að dæmi Gunnars Gunnarssonar og velji söguefni sín úr íslenzkum þjóðakri, þá standa þeir betur að vígi en enskir rithöfundar. Fortíð Íslands blasir við þeim með gull og græna skóga!

Heill heimur af verkefni er hér fyrirliggjandi. Íslendingasögur þurfa *allar* að birtast í enskum þýðingum og önnur merk íslenzk fornrit. Úrvalsljóð íslenzkra ljóðskálda þurfa að þýðast á ensku. Sérstaklega ætti Vestur-Íslendingum að vera ant um að úrvalsljóð stórskáldsins Stephans G. Stephanssonar séu þýdd á enskt mál *í heild.* Verkefni það er eigi auðleikið, en að það sé þó mögulegt, sýnir snillileg ensk þýðing á ljóðasafni þýzka stórskáldsins Schillers.

Árið sem leið var reistur vandaður legsteinn á gröf Stephans í bygð hans, Albertabygðinni. Heiður og þökk ber Ófeigi Sigurðssyni og öðrum er fyrir því stóðu. Annar þjóðlegur minnisvarði hefir skáldinu eigi enn þá verið reistur.

Væri þá eigi heppilegur og vel valinn *minnisvarði,* að Vestur-Íslendingar kostuðu þýðingar á ensku á ljóðum hans, er vandað væri til af beztu föngum og birtust í eins vönduðu og skrautlegu ljóðsafni og framast mætti verða, með myndum af skáldinu og ítarlegri æfisögu? Til þeirra þýðinga væri valdir þeir er bezt standa að vígi af íslenzkum ljóðskáldum, beggja megin hafsins. Vafalaust ræðir hér um verkefni margra ára, því eigi mætti kasta höndum að slíku stórvirki. Ljóð Stephans G. Stephanssonar, þannig birt í vönduðum enskum þýðingum, myndu auglýsa hann sem stórskáld *frumbygðar* Ameríku.

Vestur-Íslendingum ber að halda á lofti minningum hins líðandi og liðna — frumbygð og fortíð.

# Landnema minnisvarðinn á Gimli

*Eftir Bergthór Emil Johnson.*

Á þessu síðastliðna hausti voru sextíu ár liðin frá því að bygðir hófust meðal Íslendinga í Vestur-Canada. Að tilhlutan Þjóðræknisfélagsins var þessa atburðar minst í ýmsum bygðum Íslendinga með samkomuhaldi og eins við Íslendingadagshöld. Var Þjóðræknisfélaginu ant um að eitthvað varanlegt væri gjört til að minnast þessa atburðar, og var því ráðist í að reisa landnemunum minnisvarða. Hefir Þjóðræknisfélagið staðið fyrir og séð um þetta verk og þar sem varðinn er nú fullgjör er tilhlýðilegt að gangur þessa máls sé dálítið nánar rakinn.



Áletrunarplata minnisvarðans.

Hin fyrsta tilraun að reisa landnemahópnum, er lenti við Gimli 21. október 1875, minnisvarða er gjörð sumarið 1925. Óefað hafði löngunin til þess vakað í hugum einstaklinga og komið til tals í ýmsum félögum um margra ára skeið, þó aldrei yrði neitt úr opinberum framkvæmdum. Fimtíu ára afmælis landnámsins íslenzka í Manitoba var minst með hátíðahaldi á Gimli 22. ágúst það ár. Var undirbúningur fyrir hátíðahaldið töluverður og þáttaka almenn frá öllum bygðum Nýja Íslands, Winnipeg og víðar. Fyrsta opinber umgetning um nauðsyn á að minnast þessa atburðar er áskorun í Heimskringlu rituð af Þergþóri Thórðarsyni á Gimli 13. maí 1925. Eftir það er efnt til fundarhalda í Nýja Íslandi og Winnipeg og á stað farið með hátíðahaldið. Á fundi á Gimli í júlí eru nefndir kosnar til þess að standa fyrir því, og á þeim fundi er rætt um að æskilegt væri að reisa minnisvarða til minningar um landnám Íslendinga 21. október 1875, við Gimli. Eru fimm menn kosnir í Minnisvarðanefnd á þessum fundi, þeir Guðm. Fjelsted, P. Magnússon, B. B. Olson, Gimli, O. S. Thorgeirsson Winnipeg og Gestur Oddleifsson, Geysir. Nokkru síðar er W. Árnason, Gimli bætt í nefndina. Var áformið að koma upp varðanum svo hægt væri að afhjúpa hann á hátíðinni eða í seinasta lagi 21. október það haust. Auðsjáanlega hefir nefndin átt ýmsum erfiðleikum að mæta, því ekkert ákveðið hafði verið gjört, er hátíðin var haldin 22. ágúst. Í Heimskringlu 9. septem-

ber birtast tvær myndir af minnisvarða, gjörðar af Friðriki Sveinssyni. Eru báðar hugmyndirnar glæsilegar, sem búast mátti við af slíkum listamanni. Samkoma er haldin á Gimli 21. október 1925 og flytur Dr. B. J. Brandson frá Winnipeg þar erindi. Var samkoma þessi haldin til þess að afla þessu fyrirtæki fjár, og kom saman um $80.00.

Er nú ekkert gjört nema það sem skrifari nefndarinnar, B. B. Olson, gjörði með bréfaskriftum viðvíkjandi fyrirhuguðum stað fyrir varðann. Fékk hann því til leiðar komið, við stjórnina í Ottawa, að svæði á vatnsbakkanum, fyrir framan þar sem Betel nú stendur, var sett til síðu fyrir minnisvarðann. Voru svo allar framkvæmdir í málinu látnar niður falla. Voru menn hvorki sammála, um stað né fyrirkomulag minnisvarðans, enda virtist alt falla í deyfð þegar hátíðahaldið var um garð gengið. Þá hefir og nefndin búist við erfiðleikum á að safna nægilegu fé til fyrirtækisins.

Fyrri part síðastliðins sumars var rætt um á fundi stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins á hvern hátt væri viðeigandi að minnast 60 ára landnáms-afmælisins. Komu fram raddir í nefndinni að heppilegra væri að koma upp einhverju varanlegu minnismerki fremur en hafa samkomu eða eitthvert hátíðarhald því til minningar. Voru tveir menn kosnir í nefnd, þeir Dr. August Blöndal og Árni Eggertsson til þess að íhuga mögulegleika á að minnast þessa atburðar og leita álits leiðandi Íslendinga í þessu efni. Skömmu eftir þetta kemur Guðm. Fjeldsted frá Gimli til Winnipeg í því augnamiði að hafa tal af stjórnarnefndinni fyrir hönd minnisvarðanefndarinnar frá 1925. Hafði hann tal af meiri hluta nefndarinnar og fór fram á




Á fótstalli minnisvarðans.

að Þjóðræknisfélagið tæki að sér þetta mál til framkvæmda og væri nefndin frá 1925 viljug að afhenda því þann sjóð, er til væri ef félagið tæki málið að sér. Kvað Mr. Fjelsted engan vafa á því, að Nýja Ísland mundi styrkja fyrirtækið og vera meðmælt því að reistur væri varði. Var nú málið rætt á stjórnarnefndarfundi og þar samþykt tillaga að Þjóðræknisfélagið taki þetta að sér. Eru þrír menn settir í nefnd til þess að hafa framkvæmdir í málinu og þeim heimilað að hefjast handa og halda áfram verki eftir því sem fé fengist. Í nefndina voru kosnir Dr. August Blöndal, J. J. Bíldfell forseti Þjóðræknisfélagsins og Bergthor Emil Johnson skrifari félagsins.

Lá nú fyrir nefndinni fyrst að velja heppilegan stað, í öðru lagi ákveða lögun minnisvarðans, og í

þriðja lagi, á hvern hátt skyldi haft saman fé.

Fór nú nefndin til Gimli, til þess að líta yfir staðinn og var ráðgjört eftir samtali við menn þar, að helzt mundi bera að reisa varðann einhvers staðar á vatnsbakkanum þar sem hálendast væri. Var fallist á flötinn skamt fyrir sunnan hús Hannesar kaupmanns Kristjánssonar og var nú skrifað til sambandsstjórnar eftir veiting á landinu. Drógst nokkuð að svar kæmi og þegar það kom, var það þess efnis að fylkisstjórnin hefði umsjá með þessu landi. Var þá leitað til fylkistjórnarinnar. Svar hennar var að bæjarstjórnin á Gimli hefði úrskurðarvald um landið.

Er hér var komið höfðu ýmsar bendingar komið til nefndarinnar um að annar staður í bænum væri æskilegri. Fór nú nefndin enn til Gimli og hafði fund með bæjarstjórninni þar. Á þeim fundi var afráðið að byggja varðann í suðvestur horni á leikvelli bæjarins. Setti bæjarstjórnin til síðu fyrir alla komandi tíð ferhyrning af landi, 132 fet á hlið, og gjörði einnig ákvæði um að bærinn skyldi halda þessum reit við þegar verki væri lokið. Tók nú nefndin ósleitilega til starfa; fyrst að ákveða gjörð minnisvarðans og svo annað í sambandi við verkið. Voru uppdrættir gjörðir af þeim Dr. Blöndal og Friðriki Sveinssyni, en Thorsteinn Borgfjörð, byggingameistari var fengnn til að sjá um verkið. Voru nú hafin almenn samskot jafnframt því sem byrjað var á grunninum.

Boðaði nú nefndin á fund með sér og stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins ýmsa málsmetandi Íslendinga í Winnipeg, til að ræða fyrirkomulag varðans og annað þar að lútandi. Kom þar í ljós eindreginn áhugi fyrir málinu, samþykt hugmynd nefndarinnar, (eins og varðinn nú er) sem og aðrar ráðstafanir hennar. Hafði Mr. Borgfjörð látið gjöra eftirlíking af hinum fyrirhugaða minnisvarða og var hún til sýnis á fundinum.

Í fyrstu hafði verið ákveðið að minnisvarðinn yrði afhjúpaður Íslendingadaginn. En er leið á sumarið var útséð um að það gæti orðið. Þar því leyfi fengið hjá Íslendingadagsnefndinni í Winnipeg fyrir því, að fram færi hornsteinslagning, með viðeigandi athöfn þann dag, og sem auka þáttur á hátíðaskránni. Var þetta veitt með því skilyrði að athöfninni yrði lokið áður en dagskrá byrjaði, kl. 2. Þó tíminn væri óheppilegur fór athöfnin hið myndarlegasta fram. Var fjöldi manna viðstaddur. Tók athöfnin rúma hálfa klukkustund. Var henni stjórnað af skrifara Þjóðræknisfélagsins, B. E. Johnson. Var fyrst sungið "Ó Guð vors lands" af Karlakór Íslendinga í Winnipeg, undir stjórn Páls Bárdals. Þá flutti J. J. Bíldfell stutt ávarp. Þá las Dr. Blöndal skrá yfir það, er lagt var í hornsteininn, sem fylgir:

1. Nafnaskrá landnema og fyrrum heimilisfang þeirra á Íslandi, eftir heimildum Baldvins L. Baldvinssonar, Guðlaugs Magnússonar

og Almanaks Ólafs S. Thorgeirssonar 1899 og 1926.

2. Eintak af blaðinu Framfari, dagsett að Lundi 30. ágúst 1878.

3. Tímarit Þjóðræknisfélagsins, 16. árgangur 1935.

4. Heimskringla 31. júlí 1935.

5. Lögberg 1. ágúst 1935.

6. Sameiningin, 50 ára Minningarrit 1935.

7. Heimir, 9. árg., 3. blað, 1913.

8. Breiðablik, 2. árg. 3. blað, 1907.

9. Almanak Ó. S. Thorgeirssonar 1935.

10. Árdís, 1. árg., 1. blað, 1933.

11. Freyja, 8. árg., 5. blað, 1905.

12. Árbók Jóns Bjarnasonar skóla, 1934-1935.

13. Stutt saga minnisvarðamálsins.

14. Fimtíu ára minningarrit lúterska kirkjufélagsins á ensku, 1935.

Fór þá fram sjálf hornsteinslagningin og var hún gjörð af frú Láru B. Sigurðsson, er var Fjallkona Íslendingadagsins. Að síðustu var sungið "Fóstur landsins Freyja" af öllum, er viðstaddir voru.

Þann 21. október er verkinu svo lokið að hægt var að láta fram fara afhjúpunarathöfnina. Var það sunnudagur, og var líkastur því, eftir eldri manna sögn, sem þá var er landnemar komu að Gimli 1875, —kuldi og blindhríð. Þó sótti athöfnina hátt á fimta hundrað manns. Vegna veðurs fór skemtiskráin fram í lútersku kirkjunni, sem stendur rétt á móti minnisvarðanum. Athöfninni stýrði Dr. August Blöndal. Var fólk boðið velkomið af bæjarstjóra, C. W. Paulson. Var þá sunginn sálmurinn: "Drottinn minn Guð, þú ert bjarg mitt og borg." Flutti þá séra Rúnólfur Marteinsson bæn. Las forseti þá bréf frá gestum, er ekki



Landnema minnisvarðinn.

gátu komið vegna veðurs eða annara orsaka. Talaði J. T. Thorson, sambandsþingmaður, þá nokkur orð. Sungu þá söngflokkar beggja safnaðanna á Gimli þjóðsönginn "Ó Guð vors lands," en því næst flutti J. J. Bíldfell stutt erindi um landnám Íslendinga í Ameríku og þýðingu þess. Fór þá fram sjálf afhjúpunar-athöfnin úti og var hún framkvæmd af frú Steinunni Sommerville, dóttur Jónasar og Steinunnar Stefánsson, er voru í upphaflega landnemahópnum 1875. Að endingu var sunginn sálmurinn "Faðir andanna." Var þá öllum gestum boðið af bæjarstjórninni á Gimli til máltíðar í samkomuhúsi sambandssafnaðar. Tvær hljómsveitir skemtu gestum meðan setið var undir borðum, og fór alt rausnarlega fram.

Eftir er að gjöra upp flötinn í kringum minnisvarðann, og vonast

nefndin til að hægt verði að gjöra það á komandi sumri. Nauðsynlegt er að prýða svæðið, sem er við alfaraveg, og fyr en það er gjört, er verkinu ekki lokið.

Hugmynd nefndarinnar var aldrei sú að minnisvarðinn yrði skrautlegur, heldur óbrotinn og varanlegur sem tákna skyldi þrautseigju og manndóm íslenzku landnemanna. Með því augnamiði er þetta 25,000 punda bjarg sett sem höfuðprýði vörðunnar. Þessi risavaxni steinn hefir verið þarna í fjörunni frá því Íslendingar stigu þar á land.

Mörgum ber að þakka í sambandi við þenna minnisvarða og yrði það of langt mál, en á nokkura verður að minnast, sem hafa fremum öðrum lagt hönd á plóginn.

Þorsteinn Borgfjörð hefir að öllu leyti séð um verkið, og hefir ekkert sett fyrir sína vinnu. Hefir hann frá því fyrst að hans liðsinnis var leitað verið aðal ráðunautur nefndarinnar, og hefir hann lagt óspart til af tíma sínum og vinnu.

Bæjarstjórnin á Gimli undir forystu bæjarstjóra C. W. Paulson, hefir veitt nefndinni ómetanlega aðstoð og gjört mikið meira en vænta mátti, til þess að verkið yrði fullkomnað.

Guðmundur Fjeldsted og Friðrik Sveinsson eiga sérstakar þakkir skilið fyrir bendingar þeirra og hjálpsemi.

Og síðast en ekki sízt á formaður nefndarinnar, Dr. August Blöndal, þakkir skilið fyrir dugnað sinn og frammistöðu, þó eitthvað blési á móti.

---

## Brautryðjendur

(*Tileinkað íslenzkum landnemum í Vesturheimi*)

eftir *Próf. Richard Beck*

Þeir sigldu höf, sem kjölur klauf ei fyrri,
og knúðu árar, brygðist hagstætt leiði;
við skin af stjörnum þungan barning þreyttu
til þrautar, móti storm og sæ í reiði.

Þeir héldu beint á hrjóstur eyðifjalla
og hræddust hvorki ís né brunasanda;
við hungurvofur horfðust djarft í augu;
þeir heyrðu lúður nýja tímans gjalla.

Þeir námu álfur, breyttu auðn í akra,
og urð í laufprúð tré, sem gróðri skýla;
og landskuld sína greiddu í trega og tárum;
í týndum gröfum þessar hetjur hvíla.

Í týndum gröfum?—Morgun-leiftur ljóma
frá legstað þeirra, huldum grænum sverði.
Þeir unnu meira röðulrisi en kveldi,
og raddir slíkra gegnum eilífð hljóma.

Þeim pílagrímum allra landa og alda,
sem eldi fóru jörð að báðum skautum,
í hreinu gulli hjarta-prýði og dáða
ber hraustra sonum erfðafé að gjalda.

# Wilhelm H. Paulson

*Eftir Jón. J. Bíldfell.*

Thomas Carlyle kemst þannig að orði á einum stað: "Mannkynssagan er aðeins saga atkvæða- og athafnamestu manna veraldarinnar á ýmsum tímum." Ekki veit eg hversu margir eru þeim merka höfundi sammála. Eg hygg, þegar réttilega er athugað, þá eigi enginn einn atkvæða- og atorkumaður eða hópur atkvæðamanna út af fyrir sig slíkan vitnisburð skilið. Athafnir og atorka slíkra manna byggist að meira eða minna leyti á hugsunum, afkomu og þroska þeirra manna, sem á undan þeim hafa lifað, hugsað og starfað. En það hafa verið og eru til menn á meðal allra þjóða og mannflokka, sem betur en aðrir hafa kunnað, sökum hæfileika sinna, að færa sér í nyt menningarþroska feðranna og ávaxta hann í lífi sínu og annara, og þá líka á meðal vor Vestur-Íslendinga.



WILHELM H. PAULSON

Einn þeirra manna var Wilhelm Hans Paulson. Hann var fæddur á Hallfríðarstöðum í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu á Íslandi 14. ágúst 1857. Foreldrar hans voru þau Páll Erlendsson Þórðarsonar frá Kjarna og Guðrún Magnúsdóttir kona hans, er síðar bjuggu að Hofi í Hjaltadal.

Wilhelm ólst upp hjá foreldrum sínum ásamt þremur albræðrum, Magnúsi, Páli og Stefáni og Wilhelmínu (hálfsystur).

Um æskuár Wilhelms er mér ekki kunnugt að öðru leyti en því, að hann varð að gegna algengri sveitavinnu undir eins og hann varð vinnufær, og fór, eins og aðrir sveitadrengir, á mis við alla mentun, aðra en þá, sem veitt var á almennum sveitaheimilum í þá tíð á Íslandi, nema hvað hann dvaldi lítinn tíma hjá Vilhjálmi Bjarnarsyni í Kaupangi, til þess að nema trésmíðar. Má því með sanni segja, að undirbúningur hans undir lífið hafi verið sá sami og algengir almúgamenn fengu á uppeldisárum hans. Hann er því gott dæmi þess hvað unt er að gera úr lífinu, ef vit og vilja ekki skortir.

Árið 1883 fluttist Wilhelm til Vesturheims, og við þá breytingu hefst hin eftirtektarverða og sérstaka æfisaga hans og athafnalíf.

Fyrsta kappsmálið fyrir hið

innflutta fólk frá Íslandi, sem frá öðrum löndum, þegar til þessa lands kom, var að sjá sér farborða til hnífs og skeiðar, og svo var það fyrir honum líka. En það var aldrei aðal hugsjón hans. Hann að sjálfsögðu þráði að sjá sér og sínum farborða efnalega, því að hann var góður heimilisfaðir, gestrisinn og höfðingi í lund. Aðalatriðið, insta þráin, var að auðga anda sinn. Hann fann sárt til þess hversu mikils hann hafði farið á mis á því sviði í æsku sinni, og úr því varð að bæta, ef hann vildi verða maður með mönnum í hinu nýja kjörlandi sínu og því var að taka til óspiltra mála og ná haldi á þeim öflum, sem gátu flutt hann að því takmarki. Honum var það ekki nóg að kynnast mönnum eða málefnum landsins, heldur varð hann að geta staðið þar öðrum jafnfætis hvar sem var og undir öllum kringumstæðum. Þetta var nú ekkert smáræðis takmark fyrir 26 ára gamlan mann, undirbúningslausan, að því er skólamentun snerti, en Wilhelm var stórhuga gæddur af skaparans hendi, óbilandi minni og viljakrafti, sem aldrei lét bifast, óvanalega skörpum námsgáfum og skilningi, svo leiðin upp á þá sigurhæð varð honum ekki eins torsótt og ætla mætti, fyrir mállausan mann í framandi landi. Því takmarki náði hann, að geta af mikilli þekkingu rætt við hvern sem var á ensku máli jafnt sem íslenzku, ekki aðeins um landsins gagn og nauðsynjar, heldur líka um hin dýpri viðfangsefni mannsandans, svo sem heimsbókmentir og listir.

Árið 1908 var sá, er þessar línur ritar staddur heima á Íslandi. Var eg þá samtíða í Reykjavík, um tíma, séra Sigurði prófasti Gunnarssyni frá Stykkishólmi, sem nú er nýlega látinn. Töluðum við oft um Ameríku og Íslendinga. Segir þá séra Sigurður einu sinni við mig: "Ekkert skil eg í því, hversu fljótt þið Íslendingar mannist þarna í Ameríku, t. d. hann Wilhelm Paulson. Hann er einn sá fróðasti og skemtilegasti maður, sem eg hefi hitt." Wilhelm hafði þá verið heima nokkrum sinnum í erindum Kanada-stjórnar.

Þegar vestur til Winnipeg kom, þar sem Wilhelm settist að og bjó lengst af, tók hann strax mikinn og ákveðinn þátt í málum landa sinna, því bæði hefir þörfin fyrir samband þeirra á milli verið ljós fyrir honum og eins hitt, að í eðli sínu var hann athafnamaður. Að vísu var félagslíf Íslendinga í Winnipeg ekki fjölskrúðugt á þeim árum, né heldur voru þeir margmennir, en með honum jókst þeim máttur og megin. Fjörið svall í æðum þessa unga manns. Hann var fríður sýnum, djarfur í framgöngu, gáfaður vel, glaður í viðmóti og flestum samlöndum sínum betur máli farinn, fyndinn og skemtilegur í framsetning málsins, —Mark Twain Vestur-Íslendinga þegar í byrjun og út alla æfi sína.

Um lífsskoðun Wilhelms mætti rita langt mál, því hún var að mörgu eftirtektarverð og auðug, en þess er ekki kostur í þessu takmarkaða máli. Minna mætti þó á orð hans sjálfs er féllu honum af vörum í ræðu, er hann flutti á Þorrablóti í Winnipeg árið 1908, sem nokkurri skýringu varpa á þá

hlið tilveru hans. Orðin eru þessi: "Eg er hvorki fornaldarmaður né heldur nýtízku tildurs maður. Eg held helzt að eg falli inn þar á milli, nokkurs konar miðaldamaður eða millibilsmaður." Þessi skýring Wilhelms Paulsonar er bæði ljós og laukrétt. Hann var maður sem hvorki stóð fastur í fornaldarljóma liðinnar tíðar né heldur slepti sér út í nýtízkutildrið og tilgáturnar, en stóð þar á milli og jók þrótt sinn og þekkingu á staðreyndum og lífsreynslu liðinna tíða, er hann sameinaði við það nothæfasta, sem honum fanst að nýtízkan eða nútíðin hefði að bjóða. Enginn sá, sem ekki á yfir að ráða róttækri lífsskoðun og yfirgripsmikilli dómgreind getur til fullnustu skilið slíka lífsskoðun. En hver vill segja að hún sé ekki þróttmikil og fögur?

Áhrif Wilhelms á félagslíf Íslendinga í Winnipeg voru mikil. En þau náðu víðar. Þau náðu til allra íslenzkra bygða í þessari álfu. Þeir voru víst fáir eldri Íslendingarnir í Kanada eða í norður og vestur hluta Bandaríkjanna, sem ekki könnuðust við Wilhelm, sem ekki höfðu kynst honum persónulega, talað við hann, heyrt um hann eða þá hlustað á hinar fjörugu og skemtilegu tækifærisræður hans. Hann var sá maður, sem almennu áliti hafði náð á meðal Vestur-Íslendinga fyrir gáfur sínar og lipurð, þrátt fyrir það þó hann alla sína tíð væri ákveðinn og einarður flokksmaður. Það voru þó ekki námsgáfurnar einar sem gjörðu hann svo vinsælan. Honum var einnig lánað það að koma auga á hina skoplegu hlið hlutanna, mannanna og málefnanna, og hinn frjóvi hugur hans var þá ekki lengi að mynda, teikna eða mála eitthvað úr henni, honum sjálfum og öllum öðrum, jafnvel þeim sem hlut áttu að máli, til gamans. Hvað léttir betur lífsins böl en gleðin og góðvildin þegar þær systur eru einlægar og hreinar eins og þær voru hjá Wilhelm, og vér samferðamenn hans nutum svo oft góðs af. Til þess að festa sem bezt í minni manna listfengi Wilhelms þar sem hann beitir að nokkru þessari græskulausu kýmnisgáfu sinni og vefur hana saman við hið mesta alvörumál, tek eg upp eftirfylgjandi kafla úr ræðu sem hann flutti í Winnipeg árið 1909 og hann nefnir "Missýni." Um það leyti sem sú ræða var flutt, var "nýja guðfræðin" eða "Biblíu krítíkin" á meðal Íslendinga hvað háværust. Þótt ræða Wilhelms hljóði ekki um það mál, heldur um líknarstarfsemi, þá er kaflinn, sem hér er tekinn upp þó aðallega um krítíkina, og er valinn sökum þess að hin sérstaka gáfa höfundarins kemur þar fram ákveðnari en annarsstaðar í þessari ræðu. Kaflinn hljóðar þannig:

"Eins og nærri má geta dettur mér ekki í hug að fara að bera til baka neitt af þessum nýrri staðhæfingum biblíunni viðvíkjandi. Til þess er eg enginn maður, enda munu langfæstir af Íslendingum vera færir um að hrekja hvað svo sem þeir þeim segja, þessir, sem lykilinn að þeirri vizku þykjast hafa.

En enginn getur meinað mér að hafa gaman af þessu, því það hefir líka sínar hlægilegu hliðar. Tökum til dæmis Davíðs sálma vísindin. Nokkrar eru þær nú orðnar vísindalegu niðurstöðurnar um það, hve margir þeirra séu eftir Davíð sjálfan. En allar hafa þær verið jafn óskeikular á

sínum tíma, og þeim verið haldið fram jafn fullum hálsi af ýmsum biblíu sérfræðingum eða biblíu sérvitringum. Þá má líka til dæmis benda á alveg nýkominn boðskap frá einum þessum íslenzka vísindamanni, um það, að eitthvað meira en lítið sé bogið við Prédikarans bók. Það hefir hann nú trúi eg, séð á ritháttinum, að hún geti ekki verið eftir sama manninn öll.

Nú vil eg spyrja: Eru nokkrar líkur til, að þessir menn séu kunnugri bókmentum forn-Gyðinga en lærðir nútíðarmenn eru nútíðarbókmentunum? Og hvernig hefir þeim svo farnast, þegar þeir hafa ætlað sér að þekkja höfundana eftir rithætti? Til dæmis má benda á dulspekisritin, sem voru að birtast frá andatrúarmönnum í Reykjavík fyrir tveimur árum. Þau áttu að vera eftir menn mjög nærri oss í tímanum, — menn, sem mikið liggur eftir, og fært í letur á vorri eigin tungu. En aldrei gat mönnum þó borið saman um það, hvort þetta, sem þeim var eignað, líktist nokkuð öðru, sem eftir þá lá. Aðrir voru sannfærðir um, að það, sem andatrúarmenn héldu fram í því efni væri "óekta" eða falsað, einmitt af því hve rithátturinn var ólíkur þeim sem höfundar voru kallaðir. En þegar kemur aftur í Jobs-bók, þá fer þeim að bera saman; þar er svo sem ekki hætt við að þeim missýnist.

Eg skal nefna annað dæmi.

Guðmundur Magnússon, ungt og efnilegt skáld, hefir ritað töluvert á síðari árum í bundnu og óbundnu máli. Stjórnin hefir veitt honum dálítinn styrk. Bráðgáfaður og háskólagenginn, ungur Íslendingur hefir lagt fyrir sig að semja ritdóma um flest eða margt, sem út hefir komið á Íslandi á síðari árum, einkum skáldskap. Hann hefir lagt þetta fyrir sig, og virðist vera bráðglöggur í þeim efnum.

Verk Guðmundar höfðu sætt hörðum dómum hjá þessum ritdómara, og líka hafði hann álasað stjórninni fyrir að hafa veitt honum styrk. Svo kom út um þessar mundir skáldsaga, sem óljóst var um höfundinn að. Sá, sem hana samdi kallaði sig Jón Trausta, sem var gerfinafn. Ritdómaranum, sem nú var minst á, gazt vel að þeirri bók og hann lauk á hana mesta lofsorði. Lagði sérstaka áherzlu á það, hve mjög höfundur hennar bæri af Guðmundi Magnússyni og hve réttmætara væri að stjórnin styrkti slíkan mann, heldur en Guðmund.

En svo kom það upp úr dúrnum að þessi Jón Trausti var enginn annar en Guðmundur Magnússon!

Svona getur skýrustu mönnum skjátlast um nútíðarbókmentirnar. Hvers má maður þá vænta um það sem engu gleggri menn eru að segja oss um Móses-bækur?

En þeir þykjast einvaldir í því ríki og kalla allar sínar getgátur vísindalegar sannanir."

Þessi stutti kafli lýsir Wilhelm betur en eg fæ gert. Hugsanaþráðurinn er skýr og traustur, en inn í hann er ofið með meistarabrag græskulaus gletnis-kýmni, sem hefur hann upp í æðra veldi og gefur honum lit og líf.

Þó Wilhelm léti sig öll velferðarmál landa sinna hér vestra varða, því hann var Íslendingur góður og honum var ant um heiður þeirra og sóma í hvívetna, þá voru það einkum þrjú mál, sem hann lagði sérstaka rækt við. Það voru kirkjumálin, eða réttara sagt kristindómsmálin, þjóðræknismálin og stjórnmálin. Um þátttöku Wilhelms Paulson í kristindómsmálum Vestur-Íslendinga get eg verið fáorður, því hún er öllum kunn og í fersku minni. Kristindómsmálin voru lengi framan af aðalkjarni félagslífs þeirra — þeirra heitasta hjartansmál. Það var ómögulegt að hugsa sér að maður með slíku upplagi og Wilhelm, eins rótgróinn í menningarlífi þjóðar sinnar, gæti látið þau afskiftalaus, eða staðið fyrir utan þau, enda gerði hann það ekki. Hann tók, eins og kunnugt er, áberandi og ákveðinn þátt

í málum Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg og lúterska kirkjufélagsins öll sín starfsár hér vestra. Getur saga hvorugs þess félagsskapar verið skráð, án þess að Wilhelms sé getið. Á fyrri árum voru starfsmenn eins og Wilhelm kallaðir góðir safnaðarmenn. Síðar þegar andstöðurnar mögnuðust voru þeir nefndir flokksmenn og var Wilhelm einn af sterkustu flokksmönnum. En þegar andstæður og flokkar sækjast á, gránar oft gamanið og vinátta, friður og velvild spillist. Þó var það ekki svo um Wilhelm, hann var ekki óvinur nokkurs manns. Andstaða hans til manna og málefna var hrein og ærleg. Hann hafði sínar skoðanir á hlutunum og hélt þeim fram og barðist fyrir þeim fordildarlaust, og til þess fanst honum hann hafa fullan rétt. Þann sama rétt viðurkendi hann hjá andstæðingum sínum, en hataði allan yfirdrepsskap og undirferli, hver sem í hlut átti.

Wilhelm Paulson var þjóðræknismaður í orðsins fylsta og bezta skilningi. Hann kunni manna bezt að meta feðraarfinn andlega. Hann var partur af íslenzku þjóðinni og skildi að hann hvorki gat né heldur vildi slíta það samband sem tengdi hann henni. Hann hafði sjálfur lifað súrt og sætt með henni. Hann þekti erfiðleika hennar, stríð hennar, vonir hennar og vonbrigði og allar þær raddir, nei, allar raddir náttúru Íslands endurhljómuðu í sál hans frá því að hann steig hér fyrst á land og þangað til að hann var lagður nár í gröf sína. Sögu þjóðar sinnar þekti hann úti í yztu æsar. Ljóð íslenzku skáldanna las hann og skildi og sumar þessar ljóðabækur kunni hann spjaldanna á milli og með öllu öðru sem út kom, að minsta kosti á síðari mannsöldrum, á Íslandi og vert var að lesa, fylgdist hann. Ef að nokkur maður hefir nokkurn tíma lagt rækt við og unnað því fegursta og bezta, sem þjóðararfurinn íslenzki á, þá var það Wilhelm. Hversvegna gjörði hann það? Af því hann fann til nautnarinnar og menningarþroskans, sem það veitti honum. En þrátt fyrir þá fullvissu og staðreynd gekk Wilhelm aldrei fram hjá neinni mentalind, sem hann átti kost á, er bætt gat við þekkingu hans eða aukið skilning hans, þó honum væri hugðnæmast að láta hljómblæ íslenzkra ljóða og listfengs máls leika um sál sína. Hann lagði líka, og ekki síður, rækt við feðraarfinn vegna þess að hann sá og skildi manna bezt hvaða þýðingu hann hafði fyrir vestur-flutta Íslendinga. Sjálfur hafði hann reynt menningargildi hans og hann vissi að hann hafði sama gildi til gengis og menningar fyrir alla aðra landa sína, sem að honum vildu sinna. Hann skildi líka ofur vel að þjóðararfurinn var sú eina taug, sem gat haldið íslenzku fólki saman hér í dreifingunni, svo að það týndist ekki og tapaðist og sykki í hið blendna þjóðlífshaf. Þess vegna eggjaði hann landa sína sýknt og heilagt á að geyma þjóðararfinn á meðan unt væri, og glata ekki sjálfum sér.

Í Þjóðræknisfélagi Vestur-Íslendinga var Wilhelm einlægur og ágætur starfsmaður. Hann var einn í Heimfararnefnd þess, er undirbjó heimförina árið 1930 og

var þá kjörinn umboðsmaður af stjórn Saskatchewan fylkis, til að mæta á Alþingishátíðinni fyrir hennar hönd. Fórst honum það vel sem vænta mátti, — stóð þá á Lögbergi hinu forna og flutti gullfallega ræðu, er birt var í riti Þjóðræknisfélagsins 1931 (XII. árgangi). Í þeirri ferð var hann sæmdur Alþingishátíðar orðunni af konungi Íslands.

Í stjórnmálum landsins tók Wilhelm mikinn og ákveðinn þátt, og hygg eg, að honum hafi fallið það starf flestu öðru betur í geð. Þar var starfssviðið vítt; þar gat mælska hans og málsnild notið sín til fulls. Þar blöstu við honum erfiðleikar og mein samtíðarfólks hans og þar var meira tækifæri en annarsstaðar, til þess að hafa áhrif til góðs og létta byrðir annara, sem eg veit að var hans áhugamál. Í stjórnmálunum var hann frjálslyndur og fylgdi því þeirri stefnu bæði í lands- og fylkismálum. Um þingmensku sótti hann einu sinni í Manitoba, en náði ekki kosningu, og átti að beita því sem vopni á hann á fundi einum eftir að hann kom vestur til Saskatchewan og stóð þar uppi í kosningabaráttu. Var það á fjölmennum fundi að maður einn, sem vildi auðvitað koma Wilhelm í vanda spurði hann hvernig á því hefði staðið að hann hefði ekki getað náð kosningu í Manitoba. Wilhelm lét sér hvergi bregða og svaraði: "Satt að segja hefi eg aldrei hugsað nákvæmlega um það, hvernig á því stóð, en nú sé eg hver ástæðan hefir verið; hún var sú að sá sem á móti mér sótti hefir hlotið að hafa fengið fleiri atkvæði heldur en eg, og þess vegna verið kosinn."

Árið 1910 flutti Wilhelm alfarinn frá Winnipeg, ásamt fjölskyldu sinni og vestur til Leslie í Saskatchewan og tók þá að gefa sig við stjórnmálunum enn ákveðnara en áður. Árið 1912 var hann kosinn á fylkisþing fyrir Wynyard-kjördæmi og var endurkosinn 1916, 1920 1924 og 1929, — óslitin þjónusta í þarfir þessa kjördæmis í 20 ár, að undanteknu einu kjörtímabili. Við síðustu kosningar var hann ekki tilnefndur merkisberi flokksins í sínu kjördæmi. Líklega hefir mönnum þótt sem lífsölið væri farið að lækka á könnunni.

Wilhelm var einn með áhrifamestu mönnum í sinni tíð, á fylkisþingi Saskatchewan; ekki aðeins hvað ræðumanns hæfileika snerti, heldur í allri sinni framkomu. Hann var prúðmenni hið mesta; sífelt glaður í viðmóti, gætinn í orði og athöfn; svo vel að sér í stjórnmálum lands og fylkis, að menn úr báðum flokkum þingsins leituðu til hans með upplýsingar, þegar þá sjálfa rak í strand; svo hreinn í viðskiftum og fastur í stefnu að hann vann sér virðingu mótstöðumanna sinna ekki síður en flokksbræðra, og flestum öðrum var honum sýnna um hvernig bezt væri að koma ár sinni fyrir borð, þegar um framkvæmd mála, sem honum var ant um, var að ræða. Sem þingmaður var hann sómi kjördæmis síns og þjóðar sinnar.

Wilhelm Paulson var röskur meðalmaður á hæð, limaður vel og fjörlegur. Honum var vel farið í andliti. Augun dökkblá og skær, andlitssvipurinn hreinn og góðleg-

ur, yfirbragðið tilkomumikið og gáfulegt. Dagfarslega var hann prúður og glaður. Sumir sögðu að hann væri stoltur og stórbokki, —en svo tala þeir einir, sem ekki þektu hann. Hann var eins blátt áfram og nokkur maður gat verið. Hann var samverkamaður minn í fimm ár, og varð eg aldrei var við þá eiginleika hjá honum. Satt að segja þekti eg hann ekki fyr en þá, þó við hefðum báðir verið samtíða í Winnipeg í mörg ár, — þekti ekki manninn glaða, sem kom með bros á vör til vinnu sinnar á hverjum morgni, — þekti ekki manninn orðvara,, sem ekki lét eitt stygðar- eða ónotaorð falla í öll þau ár, — þekti ekki manninn bjartsýna, sem ávalt sá sól á bak við hvert sortaský, — þekti ekki manninn viðkvæma og lundgljúpa, sem eg sá fella tár út af sorg og sálarkvöl annara, — þekti hann ekki fyr en eg var búinn að vera í samverki og samvinnu með honum í fimm ár. Nei, Wilhelm Paulson var hvorki stoltur, né heldur var hann stórbokki.

Wilhelm Hans Paulson kvæntist þrisvar: fyrst heima á Íslandi árið 1881; gekk þá að eiga Þóru Jónsdóttur Benediktssonar prófasts á Hólum í Hjaltadal og konu hans Sigríðar Halldórsdóttur prófasts á Sauðanesi, en misti hana ásamt nýfæddum syni þeirra árið eftir. Eftir að Wilhelm kom vestur um haf kvæntist hann í annað sinn Jónínu Margréti dóttur Nikulásar Jónssonar Bergssonar prests að Hofi í Álftafirði og fyrri konu hans Önnu Sveinsdóttur frá Vestdal í Seyðisfirði. Varð þeim fjögra barna auðið, þriggja dætra og eins sonar; tvö þeirra barna eru nú á lífi, Þóra, gift Alfred Albert lífsábyrgðar umboðsmanni í Seattle og Margrét, gift Dr. Thorbergi Thorvaldssyni, háskólakennara í Saskatoon. Hin látnu hétu Hildur og Valdimar. Árið 1894 misti Wilhelm þessa síðari konu sína, og má af þessu sjá að hann hefir ekki komist hjá því í lífinu, að bera kross sorgarinnar. Í þriðja sinn giftist hann 1897 eftirlifandi ekkju sinni, Önnu, sannnefndri ágætiskonu. Hún var hálfsystir fyrri konu hans, Jónínu, dóttir Nikulásar Jónssonar og síðari konu hans Þórunnar Pétursdóttur prests á Valþjófsstað. Dætur þeirra eru þær frú Jónína Nikolína Kapff í New York og May, ógift, í Regina, Sask.

Wilhelm dó að heimili sínu í Regina 25. apríl s.l. Fjölmenn kveðjuathöfn fór fram þar í bænum, þar sem viðstaddir voru, auk ástmenna hans, ráðherrar fylkisins, margir af þingmönnum, ásamt vinum og kunningjum. Var líkið flutt til Winnipeg, þar sem aðal útfararathöfnin fór fram frá kirkju Fyrsta lúterska safnaðarins, sem hann hafði borið hita og þunga dagsins með svo lengi, og var afar fjölmenn. Dr. B. B. Jónsson, prestur safnaðarins, og séra Rúnólfur Marteinsson töluðu í kirkjunni og frú Sigríður Hall söng við útförina hið fagra lag, "Kvöldbæn," eftir Björgvin Guðmundsson. Svo var hann lagður til hinnar hinstu hvíldar í Brookside grafreitnum fyrir vestan Winnipegborg.

# Skrá yfir valin rit á ensku um íslenzk efni

(A List of Selected Books in English on Icelandic Subjects).

Professor Richard Beck tók saman fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins.

*I. Víkingaferðir og menning á víkingaöldinni*

(Vikings and Viking Civilization)

Kendrick, T. A.—*A History of the Vikings.* New York, Charles Scribner's Sons, (597-5th Ave., New York City), 1930. Verð: $5.00.

Ítarleg og ágæt lýsing á víkingaferðunum, og skemtilega rituð.

Mawer, A.—*The Vikings.* New York, G. P. Putnam's Sons, (2-6 West 45th St., New York City), 1913. Verð: $1.00.

Gagnort og greinargott yfirlit, vel ritað.

Orlik, A.—*Viking Civilization.* New York, The American Scandinavian Foundation, (116 East 64th St., New York City), 1930. Verð: $3.50.

Merkisrit um andlegt líf víkingaaldarinnar, trúarbrögð, hetjusagnir, fornan skáldskap og sagnagerð.

Williams, M. W.—*Social Scandinavia in the Viking Age.* New York, The Macmillan Company (60 5th Ave., New York City), 1920. Verð: $6.00.

Fjölþætt og vel samin lýsing á lífinu á víkingaöldinni.

*II. Ameríkufundur (Vínlandsferðir) norrænna manna*

(The Discovery of America by the Norsemen, The Vinland Voyages)

Gathorne-Hardy, G. M.—*The Norse Discoverers of America.* New York, The Oxford University Press (114-5th Ave., New York City), 1921. Verð: $4.70.

Hovgaard, W.—*The Voyages of the Norsemen to America.* New York, The American Scandinavian Foundation, 1914. Verð: $7.50.

Thordarson, M.—*The Vinland Voyages.* New York, The American Geographical Society (Broadway at 156th St., New York City), 1930. Verð: $2.00.

Tvö hin fyrnefndu eru ítarleg rannsóknarrit um Vínlandsferðirnar með enskum þýðingum á hinum íslenzku heimildum. Með myndum og landabréfum. Hið síðastnefnda er handhægt, glögt og læsilegt yfirlit, einnig myndum prýtt og landabréfum.

*III. Norræn goðafræði*

(Old Norse Mythology)

Craigie, W. A.—*The Religion of Ancient Scandinavia.* New York, The Bloch Publishing Co. (31 West 31st St., New York City), 1906. Verð: $0.60.

Kjarnorð og skarplega rituð lýsing á trúarbrögðum norrænna manna.

Munch, P. A.—*Norse Mythology.* New York, The American Scandinavian Foundation, 1926. Verð: $2.50.

Ítarlegt og fræðimannlegt rit, við hæfi þroskaðra lesenda.

*IV. Ísland, land, þjóð og saga*

(Iceland, The Country, People, and History)

Chapman, Mrs. O. M.—*Across Iceland.* New York, Dodd, Mead and Co. (443-449 4th Ave., New York City), 1934. Verð: $5.00.

Skemtileg og næsta nákvæm ferðalýsing, prýdd vatnslita-myndum höfundar.

Gjerset, K.—*History of Iceland.* New York, The Macmillan Co., 1930. Verð: $4.00

Ítarleg og læsileg Íslandssaga, áreiðanleg í flestum greinum.

Johnson, Sveinbjörn.—*Pioneers of Freedom.* Boston, The Stanford Co. (289 Congress St., Boston), 1930. Verð: $3.50.

Þetta fróðlega og hressilega skrifaða rit um Íslendinga á söguöldinni er, að miklu leyti, bygt á hinum vinsælu fyrirlestrum Jóns Jónssonar (Aðils), "Gullöld Íslendinga."

Thorgilsson, Ari—*The Book of the Icelanders.* (Íslendingabók). Edited and translated by H. Hermannson. Ithaca, New York, 1930. (*Islandica XX*). Verð: $2.00.

Afbragðs útgáfa, með textanum á frummálinu og í góðri enskri þýðingu, ásamt ágætum inngangi og skýringum.

*V. Íslenzk tunga*
(The Icelandic Language)

Buckhurst, Helen M.—*An Elementary Grammar of Old Icelandic.* London, Methuen and Company (36 Essex St., London, WC2, England), 1925. Verð: 5 shillings.
Yfirleitt mjög góð byrjenda-bók í forn-íslenzkri málfræði.

Craigie, W. A.—*Easy Readings in Old Icelandic.* London, J. B. Hutchen (22 Eildon St., Edinburgh, Scotland), 1924. Verð: 2 shillings 6 pence.
Ágæt byrjenda-bók í íslenzku fornmáli.

Gordon, E. V.—*An Introduction to Old Norse.* New York, The Oxford University Press, 1927. Verð: $3.50.
Þrátt fyrir nokkra ónákvæmni, bezta framhalds-námsbók á ensku í forn-íslenzku.

Hermannsson, H.—*Modern Icelandic.* Ithaca, New York 1919. (*Islandica, XII*). Verð: $1.00.
Fróðleg og liðlega samin ritgerð um íslenzkt nútíðarmál og þróun þess.

*Hrafnkels saga Freysgoða.* Edited with introduction and glossary by F. S. Cawley. Cambridge, Mass. (The Harvard University Press), 1932. Verð: $1.50.
Góð framhalds-bók handa þeim, sem búnir eru að fá nokkra undirstöðu í forn-íslenzkri málfræði.

Jónsson, Snæbjörn.—*A Primer of Modern Icelandic.* New York, The Oxford University Press, 1927. Verð: $2.50.
Eina byrjendabók á ensku í íslenzku nútíðarmáli.

Zöega, G. T.—*A Concise Dictionary of Old Icelandic.* New York, The Oxford University Press, 1910. Verð: $4.20.

Zöega, G. T.—*English-Icelandic Dictionary* and *Icelandic-English Dictionary.*
Hin fyrstnefnda orðabók Zoega er handhæg hvað fornmálið snertir; hinar eru yfir nýja málið; bezt mun og ódýrast, að panta þær beint frá bóksölum í Reykjavík, t. d. Bókaverzlun Sigfúsar Eymundssonar.

*VI. Rit um íslenzkar bókmentir*
(Books About Icelandic Literature)

Beck, Richard.—*Icelandic Lyrics.* Reykjavík, Þórhallur Bjarnason, 1930. (New York, Albert Bonnier Publishing House, 561-3rd Ave., New York City). Verð: $3.50.
Safn þýðinga á völdum kvæðum eftir íslenzk skáld á 19. öld, ásamt frumkvæðunum, inngangsritgerð um íslenzka ljóðagerð, æfiágripum og skýringum.

Craigie, W. A.—*The Icelandic Sagas.* New York, The Macmillan Company, 1913. Verð: $1.00.
Ágætisrit um íslenzkar fornsögur þar sem rakin er þróunarferill þeirra og lýst efni þeirra í stuttu máli.

Hermannsson, H.—*The Periodical Literature of Iceland Down to the Year* 1874. Ithaca, New York, 1918. (*Islandica XI*). Verð: $2.00.

Hermannsson, H.—*Icelandic Manuscripts.* Ithaca, New York, 1929. (*Islandica XIX*). Verð: $2.00.

Hermannsson, H.—*Old Icelandic Literature.* Ithaca, New York, 1933. (*Islandica XXIII*). Verð: $1.00.
Þessi rit prófessor Hermannssonar um íslenzk tímarit, handrit vor og íslenzkar fornbókmentir, eru öll hin fróðlegustu, lipurlega samin og skilmerkilega.

Ker, W. P.—*Epic and Romance.* New York, The Macmillan Company, 1922. Verð: $3.25.
Í riti þessu eru íslenzkar fornbókmentir túlkaðar af fágætri skarpskygni og bornar saman við erlendar bókmentir.

Ker, W. P.—*Collected Essays.* Vol. II. New York, Macmillan, 1925. Verð: $3.00.
Hér eru ritgerðr um íslenzkar fornbókmentir, og íslenzka þjóðskörunga, með sömu snild og ofannefnt rit höfundar.

Kirkconnell, W.—*The North American Book of Icelandic Verse.* New York, L. Carrier and A. Isles, Inc., (70-5th Ave., New York City), 1930. Verð: $3.50.
Enskar þýðingar af íslenzkum kvæðum, fornum og nýjum, með inngangsritgerð um íslenzkan skáldskap og æfiágripum.

Koht, Halvdan.—*The Old Norse Sagas.* New York, The American-Scandinavian Foundation, 1931. Verð: $2.00.
Fróðlegt og fræðimannlega samið rit um íslenzkar fornsögur, uppruna þeirra, list þeirra og gildi.

Leistöl, K.—*The Origin of the Icelandic Family Sagas.* Cambridge, Mass. (The Harvard University Press), 1930. Verð: $1.90.
Grundvallarrit um uppruna Íslendingasagna og þróun þeirra, vísindalegt en eigi að síður hið læslegasta.

Phillpotts, B.—*Edda and Saga.* New York, Henry Holt and Company (1 Park Ave., New York City), 1931. Verð: $0.95.

Bráðsnjalt og skemtilegt rit um Eddurnar og fornsögur vorar, með ágætum þýðingum úr Eddu-kvæðunum. Rit þetta og framannefnd bók Craigies, "The Icelandic" eru ágætlega til þess fallin, að vekja athygli vestur-íslenzkra ungmenna á íslenzkum fornbókmentum.

Schlauch, M.—*Romance in Iceland.* New York, The American - Scandinavian Foundation, 1934. Verð: $2.00.

Prýðisvel samin bók og skemtileg um merklega grein íslenzkra bókmenta — lygisögurnar.

*VII. Enskar þýðingar úr íslenzkum bókmentum*

(English Translations from Icelandic Literature)

Bellows, H. A.—*The Poetic Edda.* New York, The American - Scandinavian Foundation, 1926. Verð: $4.00.

Lipur þýðing á Sæmundar-Eddu, með góðum inngangi og skýringum.

Bray, Olive.—*The Elder Edda.* London, The Viking Society for Northern Research. (University of London, University College, Gower St., London, W.C. 1), 1908. Verð: 15 shillings.

Góðar þýðingar á goðakvæðunum í Sæmundar-Eddu með ítarlegum inngangi.

Clarke, D. M.—*Hávamál.* New York, The Macmillan Company, 1923. Verð: $3.50.

Vönduð útgáfa og ensk þýðing af "Hávamálum" með athugasemdum.

*Egils saga.*—Translated by E. R. Eddison, New York, The Macmillan Company, 1930. Verð: $6.50.

Einarsson, Indriði.—*Sword and Crozier.* Translated by L. M. Hollander, Boston. (Bruce Humphries, Inc., 306 Stewart St., Boston), 1912. Verð: $2.00.

Læsileg þýðing úr frummálinu á leikriti Indriða "Sverð og bagall."

Green, W. C.—*Translations from the Icelandic.* New York, The Oxford University Press, 1925. Verð: $1.85.

Þýðingar á köflum úr íslenzkum fornkvæðum og fornsögum, og á nokkrum sálmum séra Hallgríms Péturssonar; hafa orðið vinsælar.

*Grettis saga.*—Translated by G. A. Hight. New York, F P. Dutton and Company, (286-302, 4th Ave., New York City), 1915. (Everyman's Library). Verð: $0.80.

Guðmundsson, Kristmann. — *The Bridal Gown.* Translated by O. F. Theis. New York, Farrar and Rinehart, Inc. (232 Madison Ave., New York City), 1931. Verð: $2.50.

Stytt þýðing, sæmilega af hendi leyst, af hinni kunnu skáldsögu höfundar "Brúðarkjóllinn."

Gunuarsson, Gunnar.—*Seven Days' Darkness.* Translated by Roberts Tapley. New York, The Macmillan Company, 1930. Verð: $2.00.

Mjög góð þýðing á hinni merku skáldsögu höfundar "Sælir eru einfaldir."

Hollander, L. M.—*The Poetic Edda.* The University of Texts Press (Austin, Texas), 1928. Verð: $3.50.

Fræðimannleg þýðing, með ágætum skýringum, en ekki eins skemtileg aflestrar og framannefnd þýðing Bellows.

Kamban, Guðmundur. — *Hadda Padda.* Translated by Sadie Luise Peller. New York, Alfred Knopf, Inc. (730-5th Ave., New York City), 1917. Verð: $1.00.

Þýðing á samnefndu leikriti höfundar með athyglisverðum formála eftir Georg Brandes.

*Laxdæla saga.*—Translated by Thorstein Veblen. New York, The Viking Press (18 East 48th St., New York City), 1925. Verð: $2.50.

Magnússon, E. and Morris, W.—*Three Northern Love Stories.* New York, Longman's Green and Company (114-5th Ave., New York City), 1901. Verð: $2.75.

Hér eru meðal annara þýðingar á "Gunnlaugs sögu ormstungu" og "Friðþjófs sögu frækna."

*Njáls saga.*—(The Story of Burnt Njal). Translated by G. W. Dasent, New York, E. P. Dutton and Company (Everyman's Library), 1913. Verð: $0.80.

Þýðing þessi er löngu klassiskt rit. Aðrar þýðingar af Íslendingasögum, sem að ofan eru taldar, hafa einnig margt til síns ágætis. Málið á Egils-sögu þýðngu Eddisons er þó fyrnt úr hófi fram; en prýðisgóð er inngangs-ritgerð hans um íslenzkar fornbókmentir og skýringar hans bæði ítarlegar og ágætar.

Pétursson, Hallgrímur.—*Icelandic Meditations on the Passion.* (Selections from the *Passíusálmar*). Translated by C. V. Pilcher. New York, Longman's Green and Company, 1923. Verð: $1.00.

Pilcher, C. V.—*The Passion-Hymns of Iceland.* (Translations from the *Passíusálmar* and other Icelandic hymns). London, Robert Scott (16-17 Pater Noster Row London E.C. 4, England), 1913. Verð: 1 shilling 6 pence.

Sálma-þýðingar Dr. Pilchers úr íslenzku hafa að verðugu verið rómaðar fyrir hvað ágætar þær eru yfirleitt.

Sigurjónsson, Jóhann.—*Modern Icelandic Plays.*—Translated by H. K. Schanche, New York, The American-Scandinavian Foundation, 1929. Verð: $2.00.

Góðar þýðingar á tveim leikritum höfundar: "Fjalla-Eyvindi" og "Bóndanum á Hrauni" með fróðlegum formála.

Snorri Sturluson—*Heimskringla.* Translated by E. Monsen and A. E. Smith. New York, Appleton-Century Company (35 West 32nd St., New York City), 1932. Verð: $7.50.

Að öllu samanlögðu, hvað málið snertir, aðgengilegasta ensk þýðing á *Heimskringlu*, og yfirleitt nákvæm, með góðum athugasemdum.

Snorri Sturluson. — *Heimskringla: The Olaf Sagas.* Translated by Samuel Laing. New York, E. P. Dutton and Company (Everyman's Library), 1915. Verð: $0.80.

Snorri Sturluson .— *Heimskringla: The Norse King Sagas.* Translated by Samuel Laing. New York, E. P. Dutton and Company (Everyman's Library), 1930. Verð: $0.90.

Þessi tvö bindi eru handhæg og ódýr þýðing af *Heimskringlu*, lipur og víðkunn.

Snorri Sturluson. — *The Prose Edda.* Translated by A. G. Brodeur. New York, The American - Scandinavian Foundation, 1916. Verð: $2.00.

Góð þýðing á Gylfaginning og Skáldskaparmálum *Snorra-Eddu* með gagnorðri inngangs-ritgerð.

*Volsunga saga.* — Translated by M. Schlauch. New York, The American-Scandinavian Foundation, 1930. Verð: $2.50.

Yfirleitt prýðisgóð þýðing, með ítarlegri og vel saminni inngangsritgerð.

## *VIII. Nokkrar skáldsögur um efni úr íslenzkum fornsögum*

(Some Novels on Themes from the Icelandic Sagas)

Eddison, E. R.—*Styrbjorn the Strong.* New York, Liveright Publishing Corporation (29 West 47th St., New York City), 1926. Verð: $2.00.

Glögg lýsing á lífinu á víkingaöldinni; söguhetjan er Styrbjörn Svíakappi, Sigríður stórráða kemur þar einnig við sögu.

Haggard, Henry Rider.—*Eric Brighteyes.* New York, Longman's Green and Company, 1905. Verð: $1.75.

Saga þessi gerist á Íslandi á víkingaöldinni, all-forn í stíl og bregður upp skýrri mynd af ríkjandi aldarhætti.

Hewlett, Maurice.—*Frey and His Wife.* New York, Robert McBride and Company (4 West 16th St., New York City), 1916. Verð: $1.00.

Efni sögunnar er úr Ögmundar þætti dytts og Gunnars helmings.

Hewlett, Maurice.—*Gudrid the Fair.* New York, Dodd, Mead and Company, 1918. Verð: $1.35.

Söguhetjan er Guðríður kona Þorfinns Karlsefnis (Eiríks saga rauða).

Hewlett, Maurice.—*The Light Heart.* New York, Henry Holt and Company, 1920. Verð: $2.00.

Efni skáldsögu þessarar er úr "Fóstbræðrasögu."

Hewlett, Maurice.—*A Lovers' Tale.* New York, Charles Scribner's Sons, 1915. Verð: $1.25.

Efni sögu þessarar er úr "Kormáks sögu."

Hewlett Maurice.—*Thorgils.* New York, Dodd, Mead and Company, 1917. Verð: $1.35.

Efni sögunnar er sótt í "Flóamanna sögu."

Hewlett, Maurice.—*The Outlaw.* New York, Dodd, Mead and Company, 1919. Verð: $1.75.

Söguefnið er úr "Gísla sögu Súrssonar."

Yfirleitt eru þessar skáldsögur Hewletts um íslenzk efni vel ritaðar og á köflum prýðilega, mannlýsingarnar margar hverjar ágætar. Jafnbeztar eru "A Lover's Tale," "Gudrid the Fair," og "The Outlaw."

Linklater, Eric.—*Men of Ness.* New York, Farrar and Rinehart, 1933. Verð: $2.00.

Meginefnið úr íslenzkum fornsögum, gerist sagan á seinni hluta 9. aldar að miklu leyti í Orkneyjum. Í heild sinni mjög vel sögð og fjörlega.

*IX. Barna- og unglingabækur*
(Juvenile Books)

Arnadottir, H.—*When I Was a Girl in Iceland.* Boston, Lothrop, Lee and Stoddart (126 Newberry St., Boston), 1919. Verð: $1.25.

Réttorð og lipurlega samin lýsing á lífi á Íslandi á síðasta fjórðung 19. aldar og fram á þá 20.

Colum, Padraic.—*The Children of Odin.* New York, The Macmillan Company, 1920. Verð: $1.60.

Norrænar goðsagnir endursagðar af víðkunnum ritsnillingi.

Dunlap, Maurice.—*Stories of the Vikings.* Indianapolis, Bobbs-Merrill Company (185 Madison Ave., New York City), 1923. Verð: $2.00.

"Heimskringla" endursögð í stuttu máli fyrir unglinga.

French, A.—*The Story of Grettir the Strong.* New York, E. P. Dutton and Company, 1908. Verð: $2.00.

Mjög vel samin endursögn af "Grettis sögu," ágæt drengja og unglinga bók.

Hanson, L. S.—*Eric the Red.* New York, Doubleday, Doran and Company (75 Franklin Ave., Garden City, New York), 1933. Verð: $1.75.

Góð og læsileg unglinga bók, sem lýsir vel Eiríki rauða og hefir mikinn fróðleik inni að halda um Vínlandsferðirnar.

Keary, A.—*The Heroes of Asgard.* New York, The Macmillan Company, 1924. Verð: $1.40.

Vel sagðar endursagnir úr norrænni goðafræði.

Mabie, H. W.—*Norse Stories Retold from the Eddas.* New York, Dodd, Mead and Company, 1901. Verð: $1.50.

Ágætar endursagnir úr Eddunum, með skýringum.

Major, A., and Speight, E. E.—*Stories from the Northern Sagas.* London, Marshall (Horace) and Son (Temple House, Temple Ave., E.C. 4, London), 1905. Verð: 2 shillings 6 pence.

Gott úrval úr íslenzkum fornsögum handa unglingum.

Snedden, Genevra.—*Leif and Thorkel.* The World Book Company (Yonkers-on-Hudson, New York), 1924. Verð: $2.00.

Prýðisvel sögð, fjörug og fróðleg unglingasaga um Leif heppna og Vínlandsferðirnar.

Framannefndar bækur H. Hermannssonar (*Islandica*) má fá frá Cornell University Library, Ithaca, N. Y. Með fáum undantekningum hafa bækur prentaðar á Englandi verið taldar undir nafni hinnar amerísku deildar eða umboðssölufélags.

Ýmsum ritum, sem átt hefðu heima á þessari skrá, hefir verið slept vegna þess, að þau eru uppseld eða fágæt. Sneitt hefir verið hjá þeim lærðum ritum, sem sérfræðingar einir, hafa gagn af. Skal þess að lokum getið með þakklæti, að dr. phil. Halldór Hermannsson, prófessor, las skrá þessa í handriti og gaf höfundi hennar nokkrar bendingar.

Geta má þess, að áritun útgefanda er tilfærð á eftir fyrstu bók hans, sem nefnd er.

# Sextánda ársþing Þjóðrœknisfélagsins

Sextánda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var sett af forseta þess, Jóni J. Bíldfell, þriðjudaginn 26. febrúar 1935, í samkomuhúsi íslenzkra Góðtemplara í Winnipeg kl. 10 f. h. Forseti hóf þingið með því að lesa þingboð. Bað hann þá þinggesti að syngja sálminn "Faðir andanna." Þá flutti séra Jakob Jónsson hugðnæma bæn. Að því búnu lýsti forseti hið 16. ársþing Þjóðræknisfélagsins sett og flutti skýrslu sína sem hér fylgir:

Heiðruðu tilheyrendur!

Það er naumast hægt að segja að þetta liðna ár hafi verið viðburðaríkt ár, að því er Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi snertir. Engin tilfinnanleg vonbrigði. Engin stórhöpp, né heldur óhöpp. Við höfum siglt eins og sagt er, á milli skers og báru, og má það frekar gott kallast, þegar tillit er tekið til ólgunnar og ókyrðarinnar, sem æðir á mannlífshafinu, ekki aðeins alt í kringum okkur, heldur um heim allan. Félaginu, í því tilliti, má líkja við á eða læk, sem haldið hefir við farveg sinn, og yfirborðið litlum eða engum breytingum tekið, en þó ekki á því hægt að dæma um eða sjá hvaða breytingum farvegurinn á vatnsbotni hefir tekið, eða er að taka; en að því atriði, að svo miklu leyti sem það snertir þjóðræknisfélagið, kem eg máske nokkuð síðar.

Stjórnarnefnd félagsins hefir leitast við að halda í horfinu á árinu liðna og eftir megni vinna að þroska og viðgangi félagsins, með þeim efnum og möguleikum, sem fyrir hendi voru.

Stjórnarnefndin hefir haldið 16 fundi á árinu og skal nú að nokkru skýrt frá starfi hennar og viðfangsefnum.

*Útbreiðslumál.*

Útbreiðslumálið er eitt af aðalmálum þjóðræknisfélagsins, því undir útbreiðslu og samtökum er öll framtíð, velmegun og þroski félagsins kominn.

Að vera allir eitt í því að vernda menningararf vorn og með honum heiður og sóma allra þeirra, sem af íslenzku bergi eru brotnir hefir verið og er takmark og aðal verkefni Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi og ætti því að vera öllum hugsandi mönnum létt verk og ljúft. En hin sorglega reynsla félagsins og starfsmanna þess, hefir verið og er sú, að þessu er ekki þannig farið. Menn annað hvort vilja ekki sjá þetta—vilja ekki sjá styrk þann og menningarlegan þroska, sem slíkum samtökum, ef þau væru almenn, væri samfara, eða þá að sinnuleysi þeirra og óhamingja er orðin svo mikil, að þeir fá ekki rönd við reist. Yður er það ljóst, að starfsmenn félagsins á undanförnum árum og alt fram á þenna dag, hafa af ítrasta megni, verið að vinna að þessu velferðarmáli meira heldur en sanngjarnt hefði verið að vonast eftir. En undan því væri nú ekki að kvarta, ef einhver von væri um breytingu eða bata í þeirri átt. En, vinir, það er undir menningarþroska sjálfra okkar komið, hvort að framför getur orðið, eða það á að verða sígandi afturför, unz yfir lýkur með algjörðu þjóðræknislegu skipbroti.

Eins og þið sjáið hér og öll vitið, þá er það aðallega eldra fólkið af þjóðflokki vorum, sem félagið hefir náð til—eldra fólkið, og það yngsta. Unglingar, sem enn eru óþroskaðir og eru því háðir vilja og valdi foreldra og aðstandenda. En æskulýðurinn, eftir að hann er orðinn sjálfs sín ráðandi í orði og athöfnum, hefir snúið baki sínu við félaginu, þrátt fyrir marg-ítrekaðar tilraunir á margan hátt.

Öllum ætti að vera ljóst, að ef þannig heldur áfram, að þá er ekki aðeins Þjóðræknisfélag Vestur-Íslendinga dauðadæmt, heldur allur íslenzkur félagsskapur hér vestra.

Ekkert spursmál hefir orsakað meiri umhugsun og áhyggju hjá stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, heldur en þetta fráhvarf æskulýðsins vestur-íslenzka, og vér höfum hryggir í huga spurt hver annan, hvernig á þessu standi og hver orsökin sé, og finst mér að flestir hafi svarað þeirri spurningu með því að segja að þetta væri nú aldarandinn og hugsunarleysi æskufólksins. En þó aldarandinn hafi óneitanlega stefnt í þá átt undanfarandi, að aðskilja æskuna og

inn af því að vera félagi í Þjóðræknisfélaginu, sem á að verða okkar stærsta og íslenzkasta menningarfélag hér í Vesturheimi í framtíðinni, til ævarandi minningar um ættstofn vorn og heimaþjóðina og landið okkar ógleymanlega norður í hafi—Ísland.

Í þessu sambandi hefir okkur dottið í hug, að fara þess á leit við stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, að það reyni að leggja til, úr sínum útbreiðslusjóði, fjárupphæð til helminga við deildina Frón, til væntanlegra bókakaupa á þessu komandi ári, í samráði við væntanlegar tillögur frá þessari Bókasafnsnefnd.

Það væri sjálfsagt hægt að benda á ýmislegt fleira til hagnaðar og velferðar bókadeildinni og munum við gjöra það síðar, þegar okkur vinst meiri tími til athugunar í því máli.

Á þingi Þjóðræknisfélagsins í Winnipeg, 27. febrúar, 1935.

Virðingarfylst,

*Þórður Kr. Kristjánsson* *B. Sveinsson*
*Friðrik Sveinsson.*

Viðauki við aðaltillögu Bókasafnsnefndarinnar:

Hin nýkosna bókasafnsnefnd leyfir sér í umboði þjóðræknisdeildarinnar Frón, að votta öllum þeim Íslendingum alúðarþakklæti sitt fyrir allar bókagjafir til safnsins á árinu, og um leið vill nefndin óska, að sem flestir Íslendingar haldi þeim sið áfram í framtíðinni.

Virðingarfylst,

*Þ. K. K.* *Friðrik Sveinsson*
*B. Sveinsson.*

Álitið lesið af Þórði K. Kristjánssyni. Þar sem álitið fór fram á fjárframlög þá vísaði forseti því til fjármálanefndar.

Var nú komið að hádegi og gjörði Árni Eggertsson tillögu og R. Beck studdi, að fundi sé frestað til kl. 1.30. Samþykt.

Fundur hófst kl. 1.30. Var síðasta fundargjörð lesin og samþykt.

*Samvinnumál.*

*Álit samvinnunefndar—*

Nefndin leggur til, að eftirfarandi tillögur séu samþyktar:

1. Þingið felur stjórnarnefndinni að halda áfram viðleitni sinni í þá átt, að komist geti á gagnkvæm viðskifti milli Íslands og Vesturheims.

2. Þar sem ganga má að því sem vísu, að útvarpsstöð Íslands verði nú á næstunni margfölduð að styrkleika, felur þingið stjórnarnefndinni að halda áfram athugunum á því, hvort unt sé að endurútvarpa, hérna megin hafsins, efni frá Útvarpsstöð Íslands.

3. Þjóðræknisfélagið lýsir sig meðmælt kirkjulegri samvinnu milli Íslendinga vestan og austan hafs, þar sem slík samvinna hlýtur að styrkja íslenzka þjóðræknisstarfsemi hér í álfu.

4. Þingið felur stjórnarnefndinni að gera tilraunir til þess að bréfasambönd komist á milli íslenzkra skólanemenda vestan hafs og austan og annara æskumanna og kvenna, sem taka vildu þátt í slíkum bréfaskiftum.

5. Þingið felur stjórnarnefndinni að fara þess á leit við stjórnarvöld Canada, að afnuminn sé tollur á íslenzkum bókum.

*Jakob Jónsson* *Guðm. Árnason*
*Helga Westdal.*

Var álitið lesið af séra Jakobi Jónssyni og hélt hann hrífandi ræðu um samvinnumál Íslendinga, um leið og hann skýrði ítarlega hvern lið nefndarálitsins. Samþykt var að ræða álitið lið fyrir lið. Var fyrsti liður samþyktur eins og lesinn; einnig annar liður. Um þriðja lið urðu all-snarpar umræður. Mælti Á. P. Jóhannsson á móti, vegna þess að félagið hafi ávalt leitt hjá sér bæði trúmál og pólitík. Tillögu gjörði Ari Magnússon studda af A. B. Olson, að þessi liður sé borðlagður. Var þessi tillaga feld. Með liðnum töluðu þá séra Jakob Jónsson, Richard Beck, Dr. Rögnvaldur Pétursson, Nikulás Ottenson og séra Guðm. Árnason. En á móti Sig. Vilhjálmsson og Ari Magnússon. Guðm. Árnason lagði til og J. K. Jónasson studdi, að liðurinn sé viðtekinn eins og lesinn. Breytingartillögu gjörði Á. P. Jóhannsson studda af S. Vilhjálmssyni að þessu sé frestað til árs. Var breytingartillagan feld. Þá var aðaltillagan borin upp og samþykt. Fjórði liður var samþyktur óbreyttur og fimti liður feldur, eftir að skýringar voru gefnar að hann væri tilgangs-

laus. Gjörði þá R. Árnason tillögu og Jakob Jónsson studdi að álitið sé viðtekið með áorðnum breytingum. Samþykt.

*Fræðslumál.*

Álitið lesið af Richard Beck og samþykt óbreytt.

*Álit fræðslumálanefndar.*

Nefndin leggur til, að eftirfarandi tillögur séu samþyktar:

1. Þjóðræknisfélagið haldi áfram að styðja að kenslu í íslenzkri tungu, ennfremur sögu Íslands og bókmentum, og vinni áfram að því að börn og unglingar iðki upplestur og söng á íslenzku, þar eð slíkt hefir gefist vel.

2. Þingið felur stjórninni að hvetja til þess, að vestur-íslenzkum æskulýð sé veitt meiri fræðsla um landafræði Íslands og sögu í aðaldráttum.

3. Stjórnarnefndin leiðbeini einstaklingum og deildum um val og útvegun hentugra íslenzkra kenslu- og söngbóka, og leiti í því efni, ef þörf gjörðist, aðstoðar hjá fræðslumálastjóra Íslands.

4. Þingið þakkar bæði kennurum og þeim öðrum, sem stutt hafa að íslenzkukenslu í Winnipeg og annarsstaðar, svo og útgefendum og öðrum stuðningsmönnum barnablaðsins "Baldursbrá" fyrir vel unnið starf.

27. febr. 1935.

*Jakob Jónsson* *Margrét Ófeigsson*
*Richard Beck.*

*Íþróttamál—Nefndarálit.*

Nefndin álítur að núverandi reglur fyrir samkepni um hockey-bikar Þjóðræknisfélagsins hafi ekki náð samúð Íslendinga yfirleitt, sökum þess að of fáir af þátttakendum hafa verið af íslenzkum stofni, þá leyfir nefndin sér að leggja til:

1. Að ekki færri en 7 af hverjum leikflokki er þátt tekur í samkepni um nefndan bikar skuli vera af íslenzkum ættum.

2. Að enginn af þátttakendum sé eldri en 18 ára.

*Th. Thorfinsson* *Guðmann Levy*
*Th. S. Thorsteinsson.*

Álitið lesið af Thorláki Thorfinnssyni, og rætt lið fyrir lið.

Við fyrsta lið gerði Ari Magnússon breytingartillögu studda af S. Vilhjálmssyni, að tölunni 7 sé breytt í 3. Var breytingartillagan feld. Var þá fyrsti liður samþyktur óbreyttur.

Annar liður. Breytingartillaga Ari Magnússon og Kristján Pálsson að aldurstakmark sé fært upp í 23 ár. Var sú breytingartillaga samþykt.

Rósmundur Árnason lagði til og Mrs. B. E. Johnson studdi, að nefndarálitið sé viðtekið með áorðnum breytingum. Samþykt.

*Útbreiðslumál.*

*Skýrsla útbreiðslunefndar—*

1. Nefndin leggur til að þingið votti stjórnarnefnd félagsins þakklæti fyrir það starf, er unnið hefir verið í útbreiðslumálum.

2. Nefndin álítur að heimsóknir til deilda hafi borið góðan árangur og leggur því til að stjórnarnefndin annist um slíkar heimsóknir sem oftast.

3. Nefndin leggur enn fremur til að sérstök áherzla sé lögð á að stofna nýjar deildir í þeim íslenzkum bygðum, er ekki hafa starfandi deildir, og að sendir verði út í þær bygðir, hæfir menn, að koma þeim málum í framkvæmd.

4. Nefndin lýsir ánægju sinni yfir stofnun barnablaðsins "Baldursbrár" sem hún telur hið mesta framfaraspor í þjóðræknismálum, og álítur að félagið sé í mikilli þakklætisskuld við þá alla, sem unnið hafa að stofnun blaðsins, útgáfu þess, og útbreiðslu.

5. Nefndin leggur til að reynt verði að stofna unglingafélag eða félög til viðhalds og eflingar íslenzkum bókmentum og öðrum verðmætum í íslenzkum menningararfi. Megi störf slíkra félaga fara fram á ensku, og séu félög þessi í samvinnu við aðalfélagið og undir umsjón þess.

*B. Theo. Sigurðsson* *J. K. Jónasson*
*Rósm. Árnason* *Th. S. Thorsteinsson*
*Matthildur Frederickson.*

Álitið lesið af séra B. Thedore Sigurðssyni, og var tekið fyrir, lið fyrir lið. Voru allir liðirnir samþyktir óbreyttir og gjörði þá Richard Beck tillögu og Á. P. Jóhannsson studdi, að nefndarálitið sé viðtekið. Samþykt.

*Bókasafnsmál.*

Fjármálanefndin hefir íhugað skýrslu bókasafnsnefndarinnar; getur hún ekki fallist á að unt sé að þessu sinni að verja fé úr sjóði félagsins, til nýrra bókakaupa fyrir deildina Frón sérstaklega, en aftur á móti viljum við leggja til að það sem inn kann að hafa komið af seldum Tímaritum á Íslandi, í s.l. tvö ár, sé heimilað að verja til nýrra bókakaupa.

Með þessum áorðnu breytingum mælum við með að skýrslan sé viðtekin og samþykt.

Á Þjóðræknisþingi 27. febr. 1935.

*Á. P. Jóhannsson* *Kristján Pálsson*
*Thorst. J. Gíslason.*

Var fjármálanefndarálitið lesið í því máli sem hér fylgir. Var sú breyting er fjármálanefndin fór fram á samþykt. Var þá nefndarálit í Bókasafnsmálinu samþykt með tillögu frá Richard Beck, er var studd af Á. P. Jóhannssyni.

*Útgáfumál.*

*Nefndarálit í útgáfumálinu—*

Nefndin leggur til:

1. Að útgáfu Tímarits Þjóðræknisfélagsins verði haldið áfram eins og að undanförnu, og felur stjórnarnefndinni að sjá um útgáfuna.

2. Nefndin telur að með útgáfu barnablaðsins "Baldursbrá" sé þýðingarmikið spor stigið til viðhalds íslenzku þjóðerni hér í Vesturheimi, og mælir með, að stjórnarnefndinni sé falið að halda áfram útgáfu þess.

3. Þingið tjáir þeim, sem starfað hafa að útgáfu þessara rita þakklæti fyrir vel unnið starf.

Winnipeg 27. febr., 1935.

*Guðm. Árnason* *Árni Eggertsson*
*B. Theo. Sigurðsson.*

Var álitið lesið af séra Guðm. Árnasyni og samþykt óbreytt.

Öll nefndarálit sem voru reiðubúin voru nú afgreidd og sagði forseti að ef einhverjir hefðu mál að flytja, væri nú tækifæri.

Nikulás Ottenson afhenti þá bókasafni félagsins bókagjöf. Einnig séra Guðm. Árnason fyrir hönd Jóns Kristjánssonar að Lundar. Voru báðar þessar gjafir þakkaðar af þinginu.

Þá gat forseti þess að mætur gestur væri staddur á þingi og bað hann Guðmund dómara Grímson að segja nokkur orð til þingsins. Lét dómarinn ánægju sína í ljósi yfir að hafa getað komið á þingið og heilsað upp á gamla kunningja. Var nokkur tími eftir enn og bauð forseti þá fleirum að taka til máls. Virtust þá margir hafa ræður á reiðum höndum og tóku til máls Dr. Ófeigur Ófeigsson, Richard Beck, séra Jakob Jónsson, Á. P. Jóhannsson og J. J. Bíldfell. Voru þetta alt snjallar og örfandi ræður og fjölluðu um þjóðernis- og samvinnumál. Er hér var komið gerði Á. P. Jóhannsson tillögu og séra Guðm. Árnason studdi, að fundi sé frestað til kl. 10 að morgni. Samþykt.

Á miðvikudagskvöldið 27. febrúar var hið árlega Íslendingamót deildarinnar Frón haldið í Goodtemplarahúsinu. Var alveg húsfyllir og fór samkoman hið bezta fram.

Forseti setti fund að nýju kl. 10.30 á fimtudagsmorgun. Var síðasta fundargjörð lesin og samþykt.

*Þingmálanefndar álit.*

Nefndin leggur til að þingið tjái skáldinu Kristjáni N. Júlíus þakkir fyrir þann skerf, sem hann hefir lagt til vestur-íslenzkra bókmenta og sendi honum heillaóskir á 75 ára afmæli hans, sem haldið verður um 6. apríl næstkomandi. Ritara sé falið að senda hlutaðeiganda þessar afmæliskveðjur.

Nefndin leggur til, að þingið samþykki heillaóskir til Andrésar J. Skagfeld á Oak Point, og feli ritara að senda honum þær á 80 ára afmæli hans, 28. marz næstkomandi.

Samkvæmt tilmælum sem fram hafa komið, um það að skrá sú af enskum ritum um íslenzk efni, sem próf. Richard Beck hefir samið fyrir félagið verði birt innan skamms, svo að hún komi að notum þeim, er vilja afla sér bóka eftir henni, leggur nefndin til að væntanlegri stjórnarnefnd sé falið málið til fyrirgreiðslu.

S. Vilhjálmsson lagði til og Árni Eggertson studdi, að fyrsta tillaga nefndarinnar sé viðtekin. Samþykt.

Önnur tilaga: Árni Eggertson lagði til og Loftur Matthews studdi, að önnur tillaga sé viðtekin. Samþykt.

Þriðja tillaga: Guðmann Levy lagði til og Rósmundur Árnason studdi, að þriðja tillaga sé viðtekin. Samþykt.

Fjórða tillaga: Séra Jakob Jónsson lagði til og Árni Eggertson studdi að fjórða tillaga sé viðtekin. Samþykt.

Tók þá Sveinn Thorvaldsson til máls samkvæmt beiðni forseta. Lýsti hann ánægju þeirra hjóna yfir að vera á þingi. Þakkaði hann fyrir þá velvild, sem komið hefði frá Þjóðræknisfélaginu í sambandi við þann heiður, sem honum var veittur af konungi. Lét hann í ljós þá von að allir Íslendingar sameinuðust um starf Þjóðræknisfélagsins. Bað forseti þá G. S. Thorvaldson lögmann félagsins, að mæla nokkur orð. Lýsti hann einnig ánægju sinni yfir að vera staddur á þingi.

Þá bað forseti Dr. Sig. Júl. Jóhannesson að taka til máls. Dr. Sigurður hvatti Íslendinga til samvinnu og sagði að Íslendingar hér ættu að hafa eina kirkju, eitt blað, og eitt sameiginlegt samkomuhús og ætti það að vera Góðtemplarahúsið. Þar ætti að vera bókasafn, lestrarsalur, veitingasalur og samkomusalur. Ættu allir Íslendingar, hvaðan sem kæmu að geta mæst þar og ættu Góðtemplarar að gefa húsið, ef kæmi til slíkrar sameiginlegrar starfsemi. Öll klofning tvístraði starfsemi félagsins og því fyr sem Vestur-Íslendingar færu að starfa að þessum sameiningarmálum því fyr myndi áhrif þeirra í gegnum Þjóðræknisfélagið geta notið sín og blessast og orðið að verulegum notum fyrir þjóðarbrotið hér vestra.

Var nú komið að hádegi og gjörði J. K. Jónasson tillögu og Richard Beck studdi, að fundi sé frestað til kl. 2 e. h. Samþykt.

Forseti setti fund aftur kl. 2 e. h. Var síðasta fundargjörð lesin og samþykt. Lýsti forseti þá yfir að samkvæmt lögum félagsins færu nú embættismannakosningar fram. Þar sem útnefningarnefnd var kosin í byrjun þings, bað forseti formann nefndarinnar, Á. P. Jóhannsson, að leggja fram tillögur nefndarinnar.

Útnefningar voru þessar og þessir kosnir:
Forseti: J. J. Bíldfell
Vara-forseti: Dr. Richard Beck
Skrifari: Bergthor Emil Johnson
Vara-skrifari: Séra B. Theodore Sigurdson
Gjaldkeri: Árni Eggertsson
Fjármálaritari: Guðmann Levy
Vara-gjaldkeri: Walter Jóhannsson
Vara-fjármálaritari: Dr. August Blondal
Skjalavörður: S. W. Melsted

Endurskoðendur voru kosnir: Grettir L. Jóhannsson til 2 ára og Steindór Jakobsson til eins árs.

Í milliþinganefnd í íþróttamáli voru kosnir Dr. August Blöndal og Thorsteinn Thorsteinsson.

Í Rithöfundasjóðsnefnd til að starfa á árinu voru kosnir: séra Guðm. Árnason, séra B. Theodore Sigurðsson, J. K. Jónasson, Sveinn Thorvaldson og Árni Eggertsson.

Þ. K. Kristjánsson lagði til og Rósmundur Árnason studdi, að þessi nefnd megi bæta við sig, ef henni svo sýnist. Samþykt.

Árni Eggertson lagði til og K. Valdimar Björnson studdi, að fráfarandi nefndarmönnum, Á. P. Jóhannssyni og P. S. Pálssyni sé þakkað starfið á árinu. Samþykt.

*Sextíu ára afmæli íslenzkra bygða.*

Nefndin, sem sett var til að íhuga þetta mál, leyfir sér að leggja fyrir þingið eftirfarandi ályktun:

Þar sem á komandi sumri 60 ár eru liðin frá stofnun íslenzkra landnáma í Manitobafylki og Minnesota-ríki, leggur nefndin til, að væntanlegri stjórnarnefnd félagsins sé falið að eiga samvinnu um það við Íslendingadagsnefndir hvarvetna, að Íslendingadags hátíðahöld á komandi sumri séu sérstaklega helguð minningu þessa atburðar á virðulegan og viðeigandi hátt.

*Rögnv. Pétursson* — *Richard Beck*
*K. Valdimar Björnson* — *Th. Thorfinnson*
*B. E. Johnson.*

Var nefndarálitið lesið af Dr. Richard Beck. Tillögu gjörði Thorsteinn J. Gíslason studda af Þórði K. Kristjánsson að álitið sé viðtekið eins og lesið. Samþykt.

Þingmálanefnd lagði þá fram álit um tvö ný mál. Fyrra málið fjallaði um 100 ára afmælisminningu séra Matthíasar Jochumssonar, sem haldin verður hátíðleg á komandi hausti. Er mælst til að Þjóðræknisfélagið íhugi möguleika á að minnast þessa atburðar með að láta þýða úrvalsljóð hans á ensku eða á einhvern viðunanlegan hátt, að taka þátt í þessum atburði.

Hitt málið er, að Þjóðræknisfélagið taki á einhvern hátt þátttöku í minnisvarðamáli skáldsins St. G. Stephanssonar.

Þar sem hér er um umfangsmikil og

vandasöm mál að ræða, telur nefndin, að þeim sé bezt borgið með því, að þingið feli þau stjórnarnefndinni til athugunar.

*Þingmálanefndin.*

Var nefndarálitið lesið af séra Guðm. Árnasyni og skýrt nokkuð frekar.

S. Vilhjálmsson lagði til og Th. J. Gíslason studdi, að álitið sé viðtekið eins og lesið.

Breytingartillögu gjörði Ari Magnússon og A. B. Olson sutddi, að 5 manna nefnd sé kosin til að athuga þessi mál í samráði við stjórnarnefndina. Var breytingartillagan feld. Var þá aðaltillagan borin upp og samþykt.

Sagði forseti þá að öllum málum væri nú lokið nema þeim, er færu fram við þingslit í kvöld. Kvaðst nú vilja gefa tækifæri, ef einhver hefði mál að flytja.

Andrés Skagfeld tók fyrstur til máls og mintist á þá nauðsyn að leggja áherzlu á íslenzku kenslu meðal unglinga. Kvaðst hann hafa stuðlað að því á Oak Point, að íslenzku kensla hefði verið höfð var í vetur, og væri árangurinn góður. Hvatti hann Þjóðræknisfélagið til að senda góða menn út um bygðir til að brýna þetta fyrir eldra fólkinu.

Þá tók Á. P. Jóhannsson til máls, í sambandi við auglýsendur í Tímaritinu. Óskaði hann eftir að fólk léti félög og einstaklinga, er auglýstu í Tímaritinu, að öllu jöfnu, ganga fyrir viðskiftum sínum.

Dr. Richard Beck gerði tillögu og S. B. Benediktsson studdi, að þingheimur votti Á. P. Jóhannssyni þakklæti fyrir dugnað sinn við söfnun auglýsinga í Tímaritið, með því að rísa úr sætum. Var það gjört með lófataki.

Vék þá J. J. Bíldfell úr forsetasæti, til að minnast á sérstakt mál. Var það hin væntanlega koma hingað söngkonunnar Rósu Hermannsson. Skýrði hann frá dugnaði hennar og baráttu í að fullnuma sig í sönglistinni og ná því takmarki, sem hún hefði hæfileika til. Hvatti hann fólk að sækja samkomur hennar og sýna henni hug okkar á dugnaði hennar og hæfileikum. Sveinn Thorvaldsson tók í sama streng og sagði að Rósa Hermannsson ætti allan þann sóma skilið, fyrir sönghæfileika sína, sem við Íslendingar gætum sýnt henni.

Var orðið nokkuð álliðið er hér var komið, og gjörði Richard Beck tillögu og séra Jakob Jónsson studdi, að fundi sé frestað til kl. 8 að kveldi. Var sú tillaga samþykt.

Klukkan 8 að kveldi hófst samkoma með fjölbreyttri skemtiskrá. Var alveg húsfyllir, svo hvergi var autt sæti. Var skemtiskráin sem fylgir:

1. Karlakór Íslendinga í Winnipeg
2. Erindi um Davíð Stefánsson frá Fagraskógi—Dr. Richard Beck
3. Gamankvæði—Lúðvík Kristjánsson
4. Karlakórinn
5. Kviðlingar eftir K. N. Júlíus — Dr. Rögnv. Pétursson
6. Piano Solo—Ragnar H. Ragnar
7. Ræða—K. Valdimar Björnson
8. Kvæði—Þórður K. Kristjánsson
9. Frumsamin saga—séra Jakob Jónsson

Eftir að skemtiskrá var lokið var byrjað á þingstörfum. Bað forseti skrifara að bera fram tillögu fyrir hönd stjórnarnefndar. Var hún þess efnis að heiðursfélagar á árinu væri gjörðir þeir: Friðrik Sveinsson málari í Winnipeg; Próf. Watson Kirkconnell í Winnipeg; Dr. Henry Goddard Leech, ritstjóri í New York; séra C. V. Pilcher í Toronto og Próf. F. S. Cawley í Cambridge, Mass.

Mintist skrifari á starf Friðriks Sveinssonar í þjóðræknismálum við að hefja hróður Íslendinga meðal hérlendra manna; væri þetta í fyrsta sinn að hérlendir menn væru gjörðir heiðursfélagar, og ætti það vel við á sextíu ára landnáms afmæli Íslendinga hér vestra. Hefðu menn þessir lagt sérstaka rækt við íslenzkt þjóðerni og þjóðræknismál á sviði bókmenta og ættu þeir slíka viðurkenningu sem þessa skilið. Árni Eggertsson studdi tillöguna um að gjöra Friðrik Sveinsson að heiðursfélaga. Dr. Richard Beck studdi tillöguna um hina fjóra og skýrði um leið frá starfi þeirra í sambandi við íslenzkar bókmentir. Var nefndartillagan samþykt með því að þingheimur reis úr sætum.

Þakkaði þá forseti þinggestum komuna og sagði þessu sextánda ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi slitið.

| | |
|---|---|
| JÓN J. BÍLDFELL<br>forseti. | B .E. JOHNSON<br>ritari. |

# Fjárhagsskýrsla féhirðis, fjármálaritara, og skjalavarðar Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi yfir árið 1934

## Skýrsla féhirðis---Tekjur og gjöld

*Tekjur*—15. *febr.* 1934 *til* 15. *febr.* 1935:

| | |
|---|---|
| Á Landsbanka Íslands | $ 4.45 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,575.66 |
| Á Can. Bank of Commerce | 627.47 |
| Frá fjármálaritara | 349.49 |
| Gjafir í rithöfundasjóð | 89.00 |
| Fyrir gamlar auglýsingar | 48.00 |
| Fyrir auglýsingar 1934 | 1,276.00 |
| Fyrir auglýsingar 1935 | 141.00 |
| Borguð húsaleiguskuld | 33.00 |
| Innk. upp í kveldverð og gjöf | 33.95 |
| Bankavextir | 63.93 |
| | $4,241.95 |

*Gjöld*—15. *febr.* 1934 *til* 15. *febr.* 1935:

| | |
|---|---|
| Til ísl. kenslu, deildin Brúin | $ 25.00 |
| Til áhalda við ísl. kenslu í Wpg. | 23.20 |
| Fundarsalsleiga | 48.00 |
| Skólahússleiga | 75.00 |
| Leikhús-seðlar til skólabarna | 54.00 |
| Ritstjóralaun við Tímaritið | 100.00 |
| Ritlaun | 134.39 |
| Prentun 15. árg. Tímar., eftirst. | 135.50 |
| Umboðslaun á auglýsingum | 352.62 |
| Ábyrgðargjöld embættismanna | 8.00 |
| Veitt úr Rithöfundasjóði | 50.00 |
| Burtfarar-gjafir | 45.00 |
| Gjöld til stjórnar og lögfræðings | 10.00 |
| Símskeyti | 1.70 |
| Útbreiðslumál og ferðakostnaður | 80.98 |
| Póstgjald undir Tímaritið | 14.09 |
| Endurborguð auglýsing | 20.00 |
| Ársþings og aðrar auglýsingar | 36.52 |
| Prentun | 32.58 |
| Blóm | 10.00 |
| Frímerki fyrir skrifara | 2.22 |
| Frímerki og símskeyti fyrir féh. | 5.70 |
| Víxilgjöld á bankaávísunum | 2.92 |
| Á Landsbanka Íslands | 10.00 |
| Royal Bank of Canada | 1,614.57 |
| Can. Bank of Commerce | 1,349.96 |
| | $4,241.95 |

*Yfirlit yfir sjóði félagsins.*

| | |
|---|---|
| 15. febr. 1934—Byggingarsjóður | $ 29.57 |
| 15. febr. 1935—Vextir | .59 |
| | $ 30.16 |
| 15. febr. 1934—Ingólfssjóður | 821.41 |
| 15. febr. 1935—Vextir | 16.43 |
| | $ 837.84 |

| | |
|---|---|
| 15. febr. 1934—Rithöfundasjóður | 179.05 |
| 15. febr. 1935—Innborgað á árinu | 89.00 |
| 15. febr. 1935—Vextir | 3.58 |
| | 271.63 |
| Útgjöld | 50.00 |
| | $ 221.63 |

15. febr. 1935—Leifs Eiríkssonar myndastyttusjóður ..................... 63.55
Vextir ..................... 1.27

$ 64.82

15. febr. 1935—Inneign félagsins.... 1,820.08

Alls .....................$2,974.53

*Yfirlit yfir aðrar eignir félagsins.*

—samkvæmt framlögðum skýrslum—

Tímarit á hendi: I—XIV árg., 4,859 eint. á 30c .....................$1,457.70
Tímarit á hendi: XV. árg., 241 eint. á 50c ..................... 120.50
Tímarit hjá bóksala E. P. Briem, Reykjavík, samkvæmt síðustu ársskýrslu 1,069 eint., sölulaun frádregin ..................... 553.92
Tímarit XV. árg., 125 eint. á kr. 4.50, að frádregnum sölulaunum kr. 1.50, alls kr. 3.75, á 20c krónan ..................... 75.00
Tímarit hjá öðrum útsölumönnum 12.60
Svipleiftur samtíðarmanna, 134 eint. á 1.50, 50% frádr..................... 100.50
Bókaskápur, ritvél o. fl. ..................... 65.00
Bókasafn hjá d. Frón, sbr. síðustu ársskýrslu ..................... 656.63

Samtals .....................$3,041.85
Samið um auglýsingar í XVI. árg. $1,593.00

*Árni Eggertson,* féhirðir.

Yfirskoðað og rétt fundið 22. febr. 1935.
Walter Jóhannson    Steindór Jakobson

*Skýrsla fjármálaritara yfir árið* 1934

Inntektir—
Frá meðlimum aðalfélagsins ....$ 206.80
Frá deildum ..................... 130.05
Frá sambandsfélögum ..................... 21.00
Seld Tímar. til annara en félaga 14.00

$ 371.85

Útgjöld—
Póstgjöld .....................$ 13.66
Skriffóng og Ledger Sheets ........ 3.60
Sölulaun af seldum Tímaritum.... 5.10
Afhent féhirði ..................... 349.49

$ 371.85

*Guðmann Levy,* fjármálaritari.

*Skýrsla skjalavarðar.*

Tímarit óseld 22. febrúar, 1935

1. árg., 564 eint.; 2. árg., 356 eint.; 3. árg., 60 eint.; 4. árg., 243 eint.; 5. árg., 251 eint.; 6. árg., 373 eint.; 7. árg., 439 eint.; 8. árg., 321 eint.; 9. árg., 217 eint.; 10. árg., 412 eint.; 11. árg., 399 eint.; 12. árg., 595 eint.; 13. árg., 304 eint.; 14. árg., 325 eint.

I.—XIV. árg. alls 4,859 eintök
XV. árg. 241 eint.

Tímarit hjá umboðsmönnum:
Eggert P. Briem I.—XIV. árg. 1,069 eint. (samkv. síðustu ársskýrslu)
XV. árg., 125 eint.
Umboðsm. í Wpeg., I.—XIV. árg. 12 eint.
XV. árg. 18 eint.
Svipleiftur samtíðarmanna, eintök alls 134
Útbýting á XV. árg. Tímaritsins (1934):
Meðtekið frá Viking Press, Ltd........1,000
Afhent deildum ..................... 290
Afhent meðlimum félagsins ..................... 179
Selt í lausasölu ..................... 12
Afhent útsölumönnum í Winnipeg.... 18
Afhent öðrum:
Til blaða, rithöfunda, heiðursmeðlima og annara ..................... 46
Til Á. P. Jóhannsonar, fyrir augl. 89
Til umboðssölu hjá Eggert Briem, Reykjavík ..................... 125

Samtals ..................... 759

Eftirstöðvar:
Hjá Skjalaverði ..................... 231
Hjá Fjármálaritara ..................... 9

1,000

*S. W. Melsted,* skjalavörður.

---

Skýrslurnar yfirskoðaðar og réttar fundnar 21. febrúar 1935.

*J. W. Jóhannsson*    *Steindór Jakobsson*
yfirskoðunarmenn.

# Auglýsingaskrá

## Bókasafn Þjóðræknisfélagsins

Íslendingar, þér, sem eigið safn af íslenzkum eða skandinaviskum bókum, er þér annaðhvort eigi hafið lengur not af eða þér viljið koma fyrir á þeim stað, sem þær geta komið að notum, munið eftir bókasafni Þjóðræknisfélagsins. Safnið tekur með þökkum á móti öllum bókagjöfum stórum og smáum. Lestrarfélög, sem einhverra orsaka vegna eru að leggjast niður gætu á engan hátt betur ráðstafað bókasöfnum sínum en gefa þau til Þjóðræknisfélagsins. Bækurnar verða varðveittar frá glötun og þeim ráðstafað, á þann hátt, sem þær geta komið að sem beztum notum, léðar háskólasöfnum, og þeim, sem eru að leggja fyrir sig að nema mál og sögu þjóðar vorrar eða hafðar á þeim stað þar sem öllum veitist frjáls aðgangur að þeim.

Þeir, sem kynnu að vilja styrkja félagið á þenna hátt, eru beðnir að skrifa félagsstjórninni eða skrifara félagsins.

*B. E. Johnson,*
1016 Dominion Str., Winnipeg, Man.

(Framh. frá bls. 13)

*Hensel, N. Dak.*
Mrs. Málmfríður G. Einarsson

*Huntington Park, Cal.*
Dr. Paul V. Jameson, M.D.

*Ivanhoe, Minn.*
Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

*Los Angeles, Cal.*
Þorgils Ásmundsson
Guðm. Thorsteinsson

*Madison, W.V.*
Sigfús Ólafsson

*Minneapolis, Minn.*
G. T. Athelstan
Gunnar B. Björnson
K. Valdimar Björnson
Hjálmar Björnson

*Minneota, Minn.*
María G. Árnason
Björn Björnson
Bjarni Jones

*Mountain, N. Dak.*
Jóhannes Anderson
Stefán J. Hallgrímsson
Thorgils Halldórsson
Chr. Indriðason
K. N. Júlíus
Sigurður Melsted
Jóseph J. Myres
Halldór Ólafsson
Séra H. Sigmar
Mrs. Kristiana Sigurðsson
Th. Thorfinnsson

*National City, Cal.*
John S. Laxdal

*New Ulm, Minn.*
Hon. A. B. Gíslason

*New York, N.Y.*
William Thordarson

*Pembina, N. Dak.*
G. Gíslason

*Point Roberts, Wash.*
Lestrarfél. "Hafstjarnan"

*Poulsbo, Wash.*
Mrs. H. S. Freeman

*Prize, Utah*
Miss Rose Davidson

*Red Wing, Minn.*
M. A. Thorfinnsson

*Ross, Minn.*
Grímur Ólafsson

*Rugby, N. Dak.*
Hon. Guðm. Grímsson

*Sacramento, Cal.*
E. M. Thorsteinsson

*Salt Lake City, Utah*
Próf. Loptur Bjarnason

*Spanish Fork, Utah*
Mrs. T. M. Jameson

*Svold, N. Dak*
Árni Magnússon

*Tacoma, Wash.*
E. S. Guðmundsson

4. DEILDIR

*A—"Brúin," Selkirk, Man.*
Mrs. Margrét Anderson
Miss Dora Benson
Jóhann Benson
Kristján Bessason
Þórður Bjarnason
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Jón Sólvin Einarsson
Mrs. Ásta Eiríksson
Hávarður Elíasson
Grímur Eyman, Jr.
Guðjón Friðriksson
Miss Guðr. L. Goodman
Kristinn Goodman
Mrs. Sigríður Goodman
Hallur Gilsson
J. J. Henry
Mrs. Ingveldur J. Henry
Jón Th. C. Henry
Jóhann Henry
E. J. Hinriksson

Sigurður Indriðason
Guðrún Ísfeld
Miss Halldóra Jóhannesson
Gestur Jóhannsson
G. F. Jóhannsson
Ingi C. Jóhannsson
Jóh. Jóhannsson
Magnús Johnson
Mrs. Margrét Johnson
Mrs. Sigurbjörg Johnson
Klemens Jónasson
Hinrik Jónsson
Einar Magnússon
Mrs. Rakel Maxon
Miss Cecilia Mýrdal
Mrs. Arndís Ólafsson
Jón Ólafsson
Mrs. Kristín J. Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Mrs. Ingibjörg Pálsson
Kristján Pálsson
Miss Pauline Paulson
Jóhann Pétursson
Jón Th. Reykjalín
Jóhann Sigfússon
Jón Sigurðsson
Mrs. Stefanía Sigurðsson
Miss Elín Guðrún Grace Sigurðsson
Jón O. S. Sigurðsson
Séra B. Theodór Sigurðsson
Sveinn Skaftfeld
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Thorleifur Skagfjörð
Mrs. Friðbjörg Stefánsson
Helgi Sturlaugsson
Ágúst Sæmundsson
Theodór Thorðarson
Bjarni Thorsteinsson
Mrs. Björg Thorsteinsson
Mrs. Helga Lauretta Thorsteinsson
Th. S. Thorsteinsson
Einar Thorvaldsson
Walter Walterson

*B—"Fjallkonan"*
*Wynyard, Sask.*

S. S. Anderson
Tryggvi S. Anderson
Hallgrímur Axdal
Vigfús Baldvinsson
H. J. Bárdal
Thórhallur Bárdal
Mrs. Sigríður Bárdal
Aðalst. A. Bergman
Mrs. Guðrún E. Björnsson
Sigr. Björnsson
Árni G. Eggertsson
Sigurjón Eiríksson
Kristinn Eyjólfsson
Mrs. Matthildur Friðriksson
Th. Gauti
Mrs. Th. Gauti
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Gunnlaugur G. Gíslason
Valdimar Gíslason
Guðmundur Goodman
C. H. Grímsson
H. Guðjónsson
Gunnar Guðmundsson
Steindór Gunnlaugsson
Ástvaldur S. Hall
Mrs. Halldóra Hall
Ólafur Hall
Andrjes Helgason
Magnús Ingimarsson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Halldór Johnson
Mrs. Jakobína Johnson
Sigurður Johnson
Valdimar Johnson
Mrs. Margrét Johnson
Jónas Jónasson
Magnús Jónasson
Mrs. Th. Jónasson
Séra Jakob Jónsson
Mrs. Ragnh. Kristjánsson
Grímur Laxdal
Mrs. Ingibjörg Lindal
Ingi Magnússon
Mrs. Jóhanna Melsted
Fríða Pálsson
Mrs. J. A. Reykdal
Árni Sigurðsson
Mrs. Hallfríður Sigurðsson
Ólafur Stefánsson
Mrs. Helga Westdal

*C—"Frón" Winnipeg, Man.*
Stefán Abrahamsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Mrs. K. J. Backman
Mrs. S. Backman
Stefán Baldvinsson
Arinbjörn S. Bardal
Jóh. Beck
Sigfús B. Benediktsson
S. Benjamínsson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
Jón J. Bildfell
Guðmundur M. Bjarnason
Mrs. Jóhanna Bjarnason
Mrs. María Bjarnason
Ólafur Bjarnason
Sigurður Bjarnason
Miss Sæunn Bjarnason
Andrjes J. Björnsson
Davíð Björnsson
Mrs. R. Blöndal
Mrs. Gróa Brynjólfsson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Margrjet Byron
Miss Friðmunda Christie
Mrs. Ragnh. Davíðsson
Árni Eggertsson
Jón Einarsson
Stefán Einarsson
Guðm. Eiríksson
Mrs. Guðm. Eiríksson
Mrs. Jóhanna Ellis
Ingibjörg Goodmundson
Guðm. E. Eyford
Bjarni Finnsson
Mrs. Anna Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Mrs. Sesselja Gottskálksson
Mrs. Ingibj. Gunnarsson
Miss Elín Hall
Lárus Halldórsson
Karl Hansson
Thorleifur Hansson
Oddný Helgason
Guðjón H. Hjaltalín
Mrs. Jóhanna Hólm
Miss Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Mrs. Björg Jóhannesdóttir
Mrs. Ásm. Jóhannesson
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson,
A. P. Jóhannsson
Grettir L. Jóhannsson
J. W. Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
B. E. Johnson
Mrs. Kristín Johnson
Bergþór K. Johnson
G. J. Johnson
Gísli Johnson
Mrs. Guðrún H. Johnson
Magnús Johnson
Mrs. Oddfríður Johnson
Th. V. Johnson
Jónas Jónasson
Karl Jónasson
Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Einar P. Jónsson
Gísli Jónsson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðgerður Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. Steinunn Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Mrs. Gestný Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
S. B. Kristjánsson
Guðmann Levy
Hannes J. Lindal
W. J. Lindal, K.C.
Mrs. Svafa S. Lindal
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Gísli P. Magnússon
Guðmundur Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Jón Magnússon
Magnús E. Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Mrs. Margr. Markússon
Rúnólfur Marteinsson
Mrs. Ingunn Marteinsson
Loftur Matthews
Mrs. Sigurður Oddleifsson
Valgarður Oddsson
Mrs. Anna Ólafsson
Sigtryggur Ólafsson

Mrs. Th. Ólafsson
N. Ottenson
Sveinn Pálmason
P. S. Pálsson
Mrs. Ólína Pálsson
Miss Margrét Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Sigfús Pálsson
Mrs. A. Paulson
Mrs. Dorothea Pétursson
Hannes Pétursson
Mrs. Hólmfríður Pétursson
Mrs. Jóhanna Pétursson
Ólafur Pétursson
Séra Phillip Pétursson
Dr. Rögnvaldur Pétursson
Mrs. Hólmfr. Pétursson
Miss Margrjet Pétursson
Ólafur Pétursson Jr.
Pétur Jónas Pétursson
Thorvaldur Pétursson
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóhann Sigmundsson
Sigurður Sigmundsson
Eiríkur H. Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Miss Guðrún Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Pétur Sigurðsson
Mrs. Sigurlaug Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurjónsson
Hreiðar Skaftfeld
Magnús Skaftfeld
Jack Snædal
Ingi Stefánsson
Jóseph Stefánsson
Ragnar A. Stefánsson
Mrs. Rannv. K. Stefánsson
Mrs. Sigríður Swanson
Einar Thompson
P. J. Thomson
Eiríkur Thorbergson
Miss Þorgerður Thordarson
Soffonías Thorkelsson
Mrs. Jóhanna Thorkelsson
Carl Thorláksson
Mrs. Guðr. Thorsteinsson
Vigfús Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
G. S. Thorvaldsson
Sigurður Vilhjálmsson
J. J. Vopni

*D—"Iðunn" Leslie, Sask.*

Stefán Anderson
Gyða Anderson
Vigfús Anderson
Helgi Árnason
Rósmundur Árnason
Gísli Bildfell
Ingólfur Bjarnason
J. G. Breiðdal
Bjarni Davíðsson
Sveinn Eiríksson
Kristján Erlendsson
Gabríel Gabríelsson
Kristján Gabríelsson
Ásgeir Gíslason
Halldór Gíslason
Jónas Guðmundsson
M. Guðmundsson
Páll Guðmundsson
Þorsteinn Guðmundsson
Jón Hallsson
H. J. Helgason
Hjálmar Helgason
Stefán Helgason
Jón Janusson
Bjarni Jasonson
Jón Jóhannsson
E. Johnson
Séra G. P. Johnson
M. Kristjánsson
Jón Magnússon
Páll Magnússon
Rósa Markússon
N. A. Narfason
H. G. Nordal
Mundi Nordal
Lárus B. Nordal
Mrs. Rósa Nordal
S. G. Nordal
Elli Ólafsson
Jón Ólafsson
Kristján Ólafsson
Stefán Ólafsson
Valdimar Pálsson
W. H. Paulson
Anna Sigbjörnsson
Sigbjörn Sigbjörnsson
Jóhann Sigbjörnsson

Helgi Steinberg
Mrs. H. Steinberg
Sigríður Sigurðsson
Bjarni Thordarson
Gunnar Thorsteinsson
Joe Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Þorsteinn Þorsteinsson

*E—"Ísland" Brown, Man.*
Thórhallur Einarsson
J. S. Gillis
Ragnar Gillis
Andy Gíslason
J. M. Gíslason
Lárus Gíslason
Th. J. Gíslason
Mrs. Th. J. Gíslason
Leonard Helgason
Jóhannes H. Húnfjörð
Jón J. Húnfjörð
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Sæunn Kristjánsson
Mrs. T. F. Lindal
Árni Ólafsson
Halldór Ólafsson
T. M. Ólafsson
Sigurður Ólafsson
V. Ólafsson
Jónatan Thomasson

*F—"Snæfell" Churchbridge, Sask.*
Guðmundur Árnason
Magnús Bjarnason
Konráð Eyjólfsson
G. F. Gíslason
Jón Gíslason
Eyjólfur Gunnarsson
Mrs. G. Gunnarsson
Ólafur Gunnarsson
Björn Hinriksson
Magnús Hinriksson
Árni E. Johnson
Kristján Johnson
Kristján Kristjánsson
G. J. Markússon
Einar Sigurðsson
Mrs. H. Sigurðsson
Jón Valberg

*G—Sambandsdeild "Vísir" Chicago, Ill.*
Sjá Tímarit 16. ár. bls. 30 í auglýsinga-bálki.

*H—Sambandsdeildin "Fálkinn" Winnipeg, Man.*
Sjá Tímarit 16. ár. bls. 30 í auglýsinga-bálki.

*Dánarskrá:*
Theódór Jóhannsson
Glenboro, Man.
Sveinbjörn Hjaltalín
Winnipeg, Man.
Sveinn Sigurðsson
Winnipeg, Man.
Séra Jóh. P. Sólmundson
Gimli, Man.
Wilhelm H. Paulson
Leslie, Sask.
Miss R. J. Davidson
Glenboro, Man.
Jóhannes Jóhannsson
Piney, Man.
Guðbjörg Goodman
Glenboro, Man.
S. S. Grímsson
Milton, N. Dak.
Stefán Baldvinsson
Winnipeg, Man.
Jón Sigurðsson
Víðir, Man.
Árni Ólafsson
Brown, Man.
Mrs. Ísfold Ólafsson
Brown, Man.
Mrs. Kristín Benson
Selkirk, Man.
Guðmundur Guðmundsson
Selkirk, Man.
Mrs. Gróa Martin
Selkirk, Man.
Tryggvi Ólafsson
Glenboro, Man.
Mrs. Egill Anderson
Chicago, Ill.
Thorst. Thorsteinsson
Beresford, Man.
Jón Magnússon
Duxby, Minn.